# Brautin

Ársrit Hins
Sameinaða Kirkjufélags
Íslendinga í Norður Ameríku



"En ef við nú reyndum að brjótast það beint,
þó brekkurnar verði þar hærri?
Vort ferðalag gengur svo grátlega seint,
og gaufið og krókana höfum við reynt —
og framtíðar landið er fjærri.

Og meðan hin kolsvörtu miðalda ský,
sem myrkur á heiðunum lágu,
var huggunin einasta hörmunum í,
að hefja sinn anda að landinu því —
þar brostu við tindarnir bláu."



IV. ár 1947

# *Brautin*

**Rit um andleg mál og skoðanafrelsi**



FJÓRÐI ÁRGANGUR
1947



**Ritstjórnarnefnd:**

Ritstjóri: *séra Halldór E. Johnson*
Ritstjóri kvennadeildar: *Mrs. S. E. Björnsson*
Meðritstjórar: *B. E. Johnson*
*séra Philip M. Pétursson*



WINNIPEG, MANITOBA

Gefið út af Hinu Sameinaða Kirkjufélagi Íslendinga í Norður Ameríku

# Dagsetur

**Eftir Bergthór Emil Johnson**

---

*Friður og hvíld í kvöldsins ró*
*Kemur nótt og svefnsins fró.*
*Tímans spor um töfra grund*
*Trufla ei þessa helgu stund.*
*Góðar vættir sem vaka hljótt*
*Veiti þér frið og góða nótt.*

*Legðu nú aftur augun þín,*
*Aftan sól við rökkur skín.*
*Jarðar veldi nú veiti þér*
*Vorsins draum frá hjarta sér.*
*Kærleikans faðir færi þá*
*Friðinn og ró á þreytta brá.*

*Þögn nú ríkir við rúmið lágt*
*Reynslutími er liðinn brátt.*
*Örlaga dísir gefa grið*
*Göngumanni' um jarðar svið.*
*Alfaðir lífs og bræðra bands*
*Bendi þér veg til draumalands.*

# Brautin

ÁRSRIT HINS SAMEINAÐA KIRKJUFÉLAGS

4. ár Winnipeg, Man., júní 1947 Nr. 1

## Af sjónarhól

Tvö ár eru nú liðin síðan vígdunurnar hljóðnuðu í heimsstyrjöldinni síðari. "Samt er enginn raunverulegur friður fenginn", svo mælir Walter Lippmann og munu margir honum sammála.

Að sumu leyti er heiminum enda ver farið en á meðan orustur voru háðar. Þá börðust menn fyrir hugsjónum um bjartari framtíð í betri heim, og létu sig dreyma um bræðralag þegna og þjóða. Þá beindu menn allri orku til að yfirstíga rangsleitni, kúgun og drotnunargirni þeirra, sem vildu þrælka mannkynið sér til ágóða. Þá efldist sátt og samkomulag milli þeirra, sem fórnuðu fé og fjörfi öldnum sem óbornum til gæfu. Þá ríkti friður innanlands í flestum löndum, af því allir gengu að einu verki undir fánum frelsis og réttlætis.

Nú er alt viðhorfið breytt og sízt til bóta. Þeir sem saman börðust, heiminum til hjálpar, ala nú hjá sér öfund og tortrygð hver til annars. Orðhákar, á málþingum, slöngva brígslyrðum hver til annars svo alt lendir í eilífu rifrildi á hinum svokölluðu friðarstefnum. Þjóðirnar ógna hver annari með frumeindasprengjum og öðrum álíka helvízkum morðvopnum. Vígdrekar stórþjóðanna sveima um höfin og sigla óboðnir inn á hafnir smálandanna. Láta þeir dólgslega og sýna smælingjunum inn í opin fallbyssuginin svo þeir verði þeim leiðitamari í alþjóða stjórnmálum. Stórveldin leyfa engum útlendingum að fljúga í leyfisleysi um sínar loftleiðir, en herflugur þessara sömu stórvelda fljúga í ólofi yfir smáríkjunum. Lán eru veitt til bjargarlausra þjóða með því skilyrði, að hinir nauðstöddu geri sem mest að vilja hinna voldugu. (Skamt síðan Tékkóslóvakíu var

synjað um lán, frá Bandaríkjunum, af því Tékkar fara sínu fram. Reynt var að þröngva Svíum til að hafna verzlunarsamningi við Rússa. Svisslendingar voru beinleiðis neyddir til að brjóta sín eigin landslög af því vesturveldin vilja krækja í inneignir Þjóðverja þar í landi).

Yfirsjónir smáþjóðanna eru metnar til glæpa, en yfirtroðslur sumra stórvelda taldar sjálfsagðar og eðlilegar. Reynt hefir verið að hafa áhrif á kosningar hjá minniháttar þjóðum og fyrirskipa þeim aðferðir, sem hinir voldugu telja lýðræðislegar þótt öllum sé það vitanlegt, sem nokkuð vita, að miljónum manna er meinaður atkvæðis-réttur bæði í Bandaríkjunum og í nýlendum stórveldanna.

Innanlands er ástandið engu betra. Flokksstækið fer vaxandi og óhlutvandir andstæðingar skirrast jafnvel ekki við að ata nafn andaðra merkismanna auri. (Mannvinurinn ágæit, Franklin D. Roosevelt er gerður að slægum undirhyggju manni, sem stofnaði til stríðs og beinleiðis planlagði árásina á Pearl Harbor).

Sama er að segja um stéttar baráttuna enda loga nú mörg lönd í stéttastríði og verkföll hnekkja gengi þjóða en spá jafnvel enn verri tíðindum með yfirvofandi uppreisnum.

Glæpir aukast uggvænlega einkum meðal unglinganna svo aldrei hefir þvílíkt áður gerst, svo menn viti. Heimilin eru að leysast upp og hjónaskilnuðum fer óðfjölgandi svo í sumum borgum Bandaríkjanna verða fleiri hjónaskilnaðir en giftingar. Lauslæti eykst ekki einungis hérna megin hafsins heldur í sjálfu höfuðbóli hjúskapardygðanna, Englandi, þar fæddust 56,764 óskilgetin börn árið 1944 og voru um þúsund þeirra af blökkumannakyni í föðurætt. (Afleiðing af dvöl amerískra hermanna).

Hávaðinn, glamurglaumurinn og öryggisleysi nútíðar heimslífsins hefir farið í taugarnar á jarðbúum og þeir veikbygðu sturlast. Yfir 200,000 geðveikissjúklingar eru nú á sjúkrahælum og fjölgar þessháttar sjúklingum svo ört, að ríkin hafa ekki við að byggja vitfirringahæli. Er svo mikil þröng þar innan veggja, að hryllilegar sögur fara af aðbúð sjúklinganna. Sálsýki og taugsveiklun nær auðvitað til langtum fleiri en íbúa þessara hæla og er áætlað, að ekki færri en ein miljón manna séu haldnir slíkum kvillum, í Bandaríkjunum einum saman.

Svona lítur nú mannheimur út, frá vorum sjónarhól að sjá, og getur sú sýn orðið fjandanum einum til fróunar.

Hvað veldur þessum fádæmum?

Margir spyrja og svörin verða líka margvísleg og ósamhljóma.

Kristur gaf greitt svar og refjalaust. Ágirndin er rót alls ills í þessum heimi, fullyrti hann. Hér er ekki hikstað á sannleikanum. Hér talar maður í krafti sannleikans.

Til þess að átta sig, sem bezt, á þessari staðhæfingu og glöggva sig á algildi hennar og heppilegt að velta henni nokkuð fyrir sér. Hún þolir ljósið og rökrétta athugun.

Í hvaða augnamiði eru glæpir og óréttlæti, yfir höfuð að tala framdir? Til að auðgast á annara kostnað. Þjóðir ræna löndum, hremma auðlindir þeirra og þrælka þjóðir í ábataskyni fyrir yfirdrotnandi mannflokka. Auður vestur-evrópisku stórveldanna er að lang mestu leyti þannig fenginn. Engum fellur að vera rændur og verja land sitt og eignir út í það ítrasta. Þegar undirsettar þjóðir vitkast og mannast hefja þær undantekningarlaust uppreisnir. Sem stendur er góður helmingur heimsbúa í uppreisn gegn minnihlutanum og þessar uppreisnir magnast frá einum áratug til annars. Hafa þau stríð, sem slíkar uppreisnir ollar, einatt verið hin grimmúðugustu. Svo taldar séu þær styrjaldir, af þessu tagi, sem gerst hafa á tveimur síðustu mannsöldrum mætti nefna: Nýlendustríðin í Afghanistan, Indlandi, Marokko, Kína, einkum Boxara-uppreisnina; Búastríðið; Herrera stríðið í nýlendum Þjóðverja; styrjaldir í Java, Indo-Kína; stríðin og blóðsúthellingarnar í Sýrlandi, Lebanon og Palestínu og óeirðirnar í Egyptalandi.

Þar að auki leiða landrán þessi til ófriðar milli hinna drotnandi yfirgangs þjóða. Bretar þreyttu svo að segja þrotlaust stríð í tvær aldir við Spánverja, Hollendinga og Frakka um nýlendurnar. Stórveldunum getur aldrei komið sér saman um hver skuli hreppa fengin og hverjum að gefast leyfi til landrána í þessum eða öðrum stað. Þetta verður öllum bert, sem athuga upptök og eðli þeirra styrjalda, sem átt hafa sér stað í seinni tíð. Þannig var það með stríðið milli Rússa og Japana árið 1905; milli Tyrkja og Ítala árið 1911; milli Balkan-þjóðanna árið 1912, o. s. frv. Ágirndin kom Jöpum til að ráðast inn í Mansúríu og Kína; Ítölum til að gera leiðangur inn í Abyssiníu. Fyrra ver-

aldar stríðið reis út af kepni stórveldanna til landa og markaða; hið síðara hófst með ránskap möndul-þjóðanna: Þjóðverja, Ítala og Japana.

Munu nú flest meiriháttar stríð talin, þau er háð hafa verið á þessari öld. Hversu kostnaðarsöm þau hafa verið sézt máske bezt með því að hugleiða útreikning dr. Butlers, fyrrum forseta Columbia-háskólans. Honum reiknast svo til að fyrir það fé, sem gekk í súginn í fyrra veraldarstríðinu hefði verið hægt að hrinda eftirtöldum umbótum í framkvæmd: byggja nýtízku hemiili, sem kostuðu 2,000 dollara hvert og útbúa þau með húsgögnum, er kosta myndu eitt þúsund dollara hvert, handa hverri einustu fjölskyldu í þessum löndum: Bandaríkjunum, Canada, Ástralíu, Bretlandi hinu stóra, Frakklandi, Belgíu, Þýzkalandi og Rússlandi. Ennfremur mætti stofna háskóla (university), sem kosta myndu um 10 miljónir dollara í hverjum bæ þessara landa, sem hefðu tuttugu þúsund íbúa eða fleiri og koma þar á fót, bókasafni í hverjum bæ, er kosta myndi 5 miljónir dollara. Samt yrði nóg afgangs til að stofna sjóð, sem gæfi nóga ávexti til að launa eitt hundrað tuttugu og fimm þúsund kennara á ári og jafnmargar hjúkrunarkonur. Ennþá yrði samt svo mikið eftir að nægja myndi til að kaupa allar verðmætar eignir á Frakklandi og í Belgíu. Hvernig gæti nú heimurinn orðið ásýndum ef þjóðirnar "sniðu sniðla úr spjótum sínum og plógjárn úr sverðum sínum". Hann verður áreiðanlega að öskuhrúgu ef þeim styrjöldum aldrei linnir, sem ágirndin skapar.

Sama er að segja um verkföllin og innanlands óeirðirnar. Þær rísa allar út af misskifti auðsins og ásælni manna og stétta eftir stærri gróðahlut af ávöxtum iðjunnar. Verkföll og atvinnu óeirðir geta eyðilagt enda hin auðugustu ríki og eru að gera það.

Ekki verður því heldur á móti mælt að glæpir spretta af ágirndinni eins og maðkar í mygluðum osti. Frumrætur þeirra langflestra eiga þar sinn akur.

Þannig er því farið með flest morð, allan þjófnað, rán og fjársvik. Hversu gífurleg þessi fjársvik eru nú orðin má bezt sjá með því að tilfæra nokkrar skýrslur: Með allskonar svindli (easy money rackets), telst Howard McLellan svo til, í grein sem hann reit í Saturday Evening Post, að um þrjár og hálf biljón dollarar fljóti í fjárhirslur glæframanna árlega, í

Bandaríkjunum einum saman. Lögmanni í New York telst svo til að ágóðinn frá sviksamlegum fjárþrota yfirlýsingum nemi um hálfri biljón árlega. Ágirndin finnur ýms ráð til gróða og fjársvikin borga sig oftast miklu betur en heiðarleg viðskifti.

Þessi kynslóð er rángjörn og sviksamleg. Menn láta ekki staðar numið við að ræna og snuða hvern annan heldur einnig snuða menn landið og ræna ófædd og ómálga börnin. Þeir gera það með því að rányrkja löndin og sóa náttúru auðæfunum. Þetta er engan vegin nýr siður heldur eldforn og afleiðingarnar eru auðsæar. Þar sem áður stóðu grænir akrar og góðhýsi borganna eru nú eyðimerkur og blásnir sandhólar. Þannig fór fyrir hinum gömlu stórþjóðum: Hittítum, Assýríumönnum, Babylóníubúum, Persum, Grikkjum, Rómaríki, Spánarveldi og fleiri stórveldum. Eins getur auðvitað farið fyrir nútíðar ríkjum. Í sömu átt stefnir líka hérlendis. Í bók próf. Morris L. Cookes: "Rich Land, Poor Land", telur hann hundrað miljónir ekra, af amerísku akurlendi, algerlega glatað fyrir rányrkju en hundrað sextíu og fimm miljónir ekra að vísu ófrjóar orðnar en þó afturkrafar með réttri meðhöndlun. Svo reiknast fræðimönnum til, að hið frjósama jarðlag hafi verið 9 þumlungar að þykt við landnám hvítra manna í Ameríku en nú sé það aðeins liðugir fimm þumlungar yfirleitt og gangi úr sér með hverjum mannsaldri. Ekki verður útkoman glæsilegri þegar um önnur landgæði er að ræða. Veiðivötnin eru að tæmast og sömuleiðis fiskimiðin við strendurnar. Loðdýrunum fækkar óðum í skógunum. Tíu tegundir þeirra eru nú með öllu horfnar en tuttugu og sex fleiri eru í þann vegin að hverfa af lífssviðinu. Sama er að segja með fuglana, en af þeim hafa sjö tegundir horfið en gjöreyðing annara fyrir hendi. Skógarnir sjálfir eru líka á förum fyrir eyðslu, vanhirðu og græðgi íbúanna. Eftir skýrslu þeirrar deildar, (The Forestry Service of the United States), sem um skóglöndin annast, eyðast og fara til ónýtis af hverjum hundrað timburs teningsfetum svo sem hér segir: í sögunar millunum 12 teningsfet, í geymslu 20, við skógarhögg 25%, eyðsla af ýmsu tagi 11%. Verður því eyðslan alls 68% en aðeins 32% koma að gagni. Fróðir menn hafa útreiknað að skógarnir hafi nú þegar eyðst um 78% og af þeirri eyðslu fara 68% til einkis. Til samanburðar er nú viðar uppskeran engu minni í Norður-Svíþjóð en hún var fyrir þúsund árum, af því þar hafa skógarnir verið verndaðir.

Í hinum auðugu Bandaríkjum hefir öllu verið sóað í full-

komnu gáleysi og fyrir græðgi fjárafla mannanna, sem gæta einkis nema græða sem mest og fljótast. Af öðrum náttúru auðæfum hafa fyrir víst gengið til þurðar sem hér greinir: járn um 28%, kopar um 52%, blý um 66% sínk um 58% gull 80%, olía 55%, harðkol um 23%, linkol 1%. Af olíu og kolum hefir alt að helming farið til ónýtis. Geta má þess, að þessum skýrslum var öllum safnað fyrir stríðið og síðan hefir mikið gengið á náttúruauðæfin fyrir undra eyðslu stríðsþarfanna.

Getur nokkur heilvita maður efast um að það sé beint syndsamlegt að eyða svo auðlegð landsins? Er það ekki auðsæ siðferðisskylda hverrar kynslóðar, að vernda og ávaxta guðsgjafir svo lifandi og komandi kynslóðir megi af þeim hamingju njóta?

Hver nýtur svo góðs af þessari eyðslu? Hér skal þeim gefið orðið, sem ekki verða grunaðir um fjandskap við nútíðar auðvaldið. The City Bank of New York safnaði svofeldum skýrslum um jafnaðar afkomu og forlög þeirra sem fyrir 65 árum sáu fyrst þessa heims ljós. Eftir 65 ár eru þrjátíu og fimm af hverju hundraði dánir en af þeim sem eftir lifa er heildar afkoman þessi: einn af hundraði er auðugur, fjórir eru bjargálna, fimm stunda vinnu og verða á hana að stóla sér til framfærslu, fimtíu og fimm eru öreigar og í flestum tilfellum þurfamenn einhverra ættingja eða líknarstofnana. Er nokkurt fyrirkomulag siðferðislega verjandi, sem auðgar einn af hverju hundrað en hrindir 55 út á vonarvöl. Ekkert er vanlegra en sjá aldrað fólk og útslitið, sem alla æfi sína hafa iðjað með sjálfsafneitun og trúmensku, en hafa þó ekki hrept aðra umbun en þreyttan og útslitinn líkama og vonleysi bugaðrar elli. Er þetta réttlátt eða kristilegt fyrirkomulag?

Getur kirkjan með nokkru huganslegu móti látið slíkt ástand afskiftalaust, svo fremi að hún telji sér guðsríkis hugsjónir Jesú sér viðkomandi? Það guðsríki hlýtur þó að grundvallast á réttlæti og skynsamlegri, vináttusamri samvinnu mannanna. Hvað á þá kirkjan að gera? Hún á að vera andvíg syndinni — heyri eg nokkur mótmæli gegn þeirri uppástungu. Nú jæja, ef vér föllumst nú á þetta verður það skýlaus skylda kirkjunnar að leitast við að uppræta frumrót syndarinnar með því að uppræta ágirndina; hún á að mótmæla því, að ágirndin sé verðlaunuð en heimta að dygðirnar fái að njóta sín.

Getur nokkur borið á móti þessu?

Þá er næst að spyrja: verður nokkur bót á þessu ráðin? Eg

held það sé óhugsandi undir núvernadi kringumstæðum, því kringumstæðurnar skapa lífsviðhorfið og hugsunarháttinn. Það er hreint ekki dæmalaust, að kirkjan víti ágirndina sem löst í fari einstaklingsins.

Þeim umvöndunum er oftast beint að þeim snauðu. Þetta orsakast auðvitað af því, að kirkjan telur sig eiga alla sína tímanlegu velferð undir aðstoð auðvaldsins. Svo er þessum áminningum æfinlega beint að einstaklingnum, en við það verða þær þýðingar litlar því fjöldinn telur sig, eins og kirkjan, eiga líf sitt og lifibrauð undir auðmagninu og viðleitni almennings beinist alls ekki í þá átt að hnekkja því heldur að því að hreppa sjálfir sem mest af ágóðanum.

Það ber heldur ekki að ásaka eða fyrirlíta auðmanninn — enda er það nú sjaldan í alvöru gert. Þvert á móti eru þeir oftast í hávegum hafðir—þeir og þeirra afkomendur. Öreigarnir viðurkenna þá sem afburðamenn úr því þeim tókst að ná því takmarki, sem þeir sjálfir að keppa. Undir þeim virðist alt komið um hamingju lands og lýða og þessvegna er þeim oftast trúað fyrir forráðum þjóðanna. Nálega undantekningarlaust eru þjóðþingin í auðvaldslöndunum skipuð efnamönnum eða málsvörum auðhringanna. Virðing og völd miðast ekki við mannvit og manngildi heldur efnahaginn yfirleitt. Nú er það auðsætt mál að það eru enganvegin hugsjónaríkustu mannvinirnir, sem auðgast heldur einmitt, yfirleitt, þeir eigingjörnustu og klókustu, en æfistarfið og atvinnuþjálfunin hefir, í flestum tilfellum, gert þá afturhaldssama og þröngsýna menn með tröllatrú á það fyrirkomulag, sem veitti þeim aðstöðu til að efnast og fyrir efnin hefjast til valda og virðingar.

Hér er engin tilraun gerð til að áfellast þá ríku; yfir höfuð er lítill munur á hugsunarhætti þeirra og öreiganna. Allir vilja verða auðugir. Þeim sem tekst það aflast oftast auður fyrir einbeitni sína og hyggindi, en í mörgum tilfellum verður það reynslan, að afglapar eyða því sem sinkir feður saman drógu. Féð flýtur þá oftast í vasa annara auðmanna, sem verða við það ennþá ríkari og drambsamari.

Auðmaðurinn mótast af fyrirkomulaginu engu síður en aðrir — kanske enda meir en aðrir. Trú hans er bjargföst á hlífðarlausa samkepni og einstaklingsins framtak í eigingjörnum tilgangi. Hann bókstaflega trúir á ágirndina sem driffjöður allra dáða og allra framfara. Hann er oftast hreinræktaður heið-

ingi, enda þótt hann kunni að vera heiðarlegur maður og enda hjálpsamur í viðlögum.

Við höfum ótal sagnir af göfuglyndum heiðingjum. Flestir okkar eru í raun og veru heiðnir í hugsun, hvort sem við kunnum að vera göfuglyndir eða ekki. Eitt eru þeir ríku oftast sannfærðir um, að þeir séu öðrum mönnum fremri, sem borgarar þjóðfélaganna. Vegna þessara yfirburða áskilja þeir sér ýms réttindi fram yfir aðra menn. Við það skapast stéttarígur og stéttastríð. Hin forna skilgreining Voltaires heimspekings á þroskun og vanþroskun yfirstéttanna er algild, að svo miklu leyti sem sagan sýnir: Fyrst verða þær ríkar fyrir harðdrægni og hyggindi nokkurra einstaklinga, sem svo bindast samtökum til að viðhalda sínum sérréttindum. Næsta stigið er vaxandi dramb og þröngsýni þessara stétta. Þriðja og síðasta stigið er óhófslifnaður í iðjuleysi, sem orsakar kollvörpun höfðingjanna og þar með þjóðríkjanna. Þetta er skiljanlegt sé þess gætt að einmitt þessar stéttir fara með völdin "og hvað höfðingjarnir hafast að, hinir ætla sér leyfist það." Þannig fór með öll fornaldar stórveldin, þannig getur það einnig farið fyrir auðugustu stórveldum nútíðar.

Þóa er, til samanburðar, ólíkt heilbrigðara þjóðlíf þar sem efnahagurinn er jafnari og þjóðunum hefir lærst samvinna, svo sem í Norðurlöndum. Það sem nú er að gerast veitir samt nokkra von um undankomu. Alþýða ýmsra þjóða er að taka völdin í sínar hendur og reynist yfirleitt hæfari til stjórnar en hinar útlifuðu yfristéttir. Þetta getur vel tekist með friðsömu móti séu tvö skilyrði fyrir hendi: (a) siðmentuð undirstétt, sem hefir kringumstæður til stjórnmálalegra samtaka; (b) séu valdastéttirnar ekki nógu strekar til að fyrirbyggja þvílíka friðsamlega stjórnarbyltingu. Séu þessi skilyrði ekki fyrir hendi gerast byltingarnar með ofbeldis uppreisnum fyr eða síðar og stjórnirnar verða, að henni aflokinni, einræðislegar, að minsta kosti fyrst í stað.

Kristur segir: "ágirndin er undirrót allra synda" og ennfremur: "laun syndarinnar er dauðinn'. Engin sannleikur er eins sannanlegur, að vitnisburði sögunnar.

Laun réttlætisins er hinsvegar líf og lífsþroski. Þessvegna er málefnið siðferðis- og trúarlegs eðlis og verður að ræðast frá siðferðis- og kristilegu sjónarmiði, að öðrum kosti afsalar

kirkjan sér allri leiðsögn í heimsmálunum. Hið kristilega lífsviðhorf verður að ná yfir öll lífssviðin.

Við skulum byrja á faðirvorinu. Ein málsgrein þess hljóðar svo: "Verði þinn vilji svo á jörðu sem á himni". Þetta er bæði bæn og upphvatning, að gera guðs vilja.

Nú er það heldur fráfælandi hugsun að guð hafi geymt olíuna í forðabúri náttúrunnar svo Rockefeller yrði ríkur, stálið svo Bethlehems verkstæðin gætu grætt nokkrar miljónir en koparinn handa Guggenham. Kristið fólk nefnir guð gjafarann alra góðra hluta, en þessum gjöfum verður ekki varið fólkinu til farsældar nema því aðeins, að þær komi öllum hans börnum að einhverju gagni. Þessar góðu gjafir geta meir að segja orðið mannfólkinu fremur til bölvunar en blessunar ef þær, yfir höfuð, spilla fólkinu og gera einstaklingana að verri mönnum; þegar þær, og misskifti þeirra, efla hatur og flokkadrátt innanlands en ófrið milli þjóðanna.

Jú, einhverstaðar stendur það víst skrifað, að guð geri þá bæði ríka og fátæka. Þetta er nú orðin næsta bágborin guðfræði. Nútíðar kynslóðin, sem erft hefir ofgnótt náttúrugæðanna og ennfremur vit og snild vísindanna skortir engin ytri skilyrði til þess að gera hvern einasta jarðarbúa efnaðann og það munu þeir verða þegar menn hætta hernaði og undirbúningi fyrir næsta stríð; þegar öll verkföll dvína og mönnum lærist heilbrigð samvinna; þegar engin grefur sér gröf með ofnautnum af því hann kann ekki betra ráð til að eyða sínum arfi; þegar ríkdómi jarðarinnar verður varið íbúum hennar til farsældar: þegar guðsgjafir verða notaðar börnum hans til blessunar; þegar viti, snild og vísindum verður beint til bóta en ekki til undirbúnings fyrir gífurlegri gereyðingu en áður hefir þekst, í næsta stríði; þegar mannkyni glæðist skilningur á guðsvilja og kirkjan tekur að kenna hvernig menn geta skipulagt sín mannfélagsmál svo guðs vilji verði svo á jörðu, sem á himni.

Nú hefir það reynst ómótmælanlegur sannleikur, að vor veraldlega hagfræði byggist öll á skortinum því sá skortur skapar þau skilyrði, sem leyfa iðjuhöldunum og verzlunar víkingunum að selja sína vöru með ránverði. Þessvegna skapar gnóttin hallæri eins og sýndi sig í síðustu kreppunni. Ægilegri mynd hefir lífssaga þjóðanna aldrei dregið á leturspjöldin en í heimskreppunni síðustu. Sextán miljónir vinnuleysingja í Bandaríkjunum gátu ekki keypt sér fæðutegundir fyrir sig eða sína.

Forðabúrin stóðu full en á þeim forða var ekki unt að græða af því svo fáir gátu keypt. Eitthvað varð nú til bragðs að taka og menn ruku í fénaðinn og stráfeldu hann, sex miljónir nautgripa og tvær miljónir sauðfjár eru deyddar í Bandaríkjunum og þetta er ekki gert til að seðja hungur öreiganna í borgunum heldur til að létta á markaðnum svo vöruverðið geti hækkað í gróðaskyni fyrir þá ríku. Í Liverpool-borg á Englandi ganga verkamanna börnin með fölar kinnar og sækist námið treglega í skólum fyrir fjörefnaskort." "Það verður brátt úr þessu bætt", segja matvörusalarnir því von er á skipi frá Spáni hlaðið appelsínum og öðrum suðrænum ávöxtum. En það varð ekki úr þessu bætt því meðan skipið var ennþá í hafi fékk skipstjórinn skeyti um að sökkva þessum fjörgjafafarmi í hafið og nokkur þúsund smálestir af glóandi gulleplum sukku í sjó, til að létta á markaðnum og skapa "nauðsynlega" þurð. Gamla Guðrún hans Gríms í Hjáleigunni gerðist geðstirð og heimilisfriðurinn beið við það baga. Börnin vöndust á götuslark því þau þorðu ekki að koma heim. En það var kaffileysið, sem gekk að Guðrúnu. Hún hefði orðið ennþá ergilegri hefði hún vitað, að stjórnin í Brazilíu varði tíu miljónum króna árlega til að brenna kaffi birgðirnar til ösku, til að bæta markaðinn.

Er nokkur maður svo guðlaus að hann álíti þetta guðsvilja, en þetta var, vilji auðkýfinganna af því þeir töldu sér það nauðsynlegt. Í því tilfelli voru þeir líka hárréttir, skorturinn *er lífsskilyrði þeirrar auðvalds þróunar, sem ágirndin skapar.*

Styrjaldir og herútbúnaður er þessu fyrirkomulagi eins mikil nauðsyn. Hergagna framleiðslan skapar stórgróða fyrir vopnasmiðina og fyrir námueigendurna, sem leggja til efnið. Auk þess skapar það hin hagkvæmustu skilyrði til að ávaxta peninga í lánum til stjórnarinnar. Svo hindrar hergagna framleiðslan stórkostlega framþróun iðnaðarins til friðsamlegra þarfa mannkynsins og skapar þar með þurð á nauðsynjunum, en sú þurð er lífsskilyrði stórgróðans. Þegar til ófriðar kemur verður eyðileggingin svo gífurleg en peninga áveitan svo stórkostleg að verðbólga myndast, sem eykur ábata þeirra sem að selja. En svo kemur syndafallið í nýrri kreppu þegar hátoppi verðbólgunnar er náð og ný kreppa er skollin yfir. Hyggnir peningamenn geta líka, undir vissum kringumstæðum, á henni grætt, því þá neyðist almenningurinn til að selja eignir sínar fyrir minna en hálfvirði. Án hernaðar, við og við, og herútbún-

aðar myndi auðvalds fyrirkomulagið trauðla standast nema nokkur ár. Enda eru það auðmennirnir og málgögn þeirra, sem mest hlynna að herútbúnaði og eru oftast fyrstir til þess að eggja til ófriðar. Hugsið ykkur aðeins ástandið ef hergagna verkstæðin hættu vinnu, alt það vinnutap og alt það gróðatap, sem slíkt myndi olla? Getur nokkur verið svo guðlaus að hann treysti sér til að verja það fyrirkomulag, sem byggist á hernaði?

"Mitt ríki er ekki af þessum heimi", sagði Kristur og átti þar auðvitað við, að sá samfélagsskapur, sem hann vildi gróðursetja gæti ekki grundvallast á hervaldi Rómverja né auðhyggju þess aldarfars, er hann átti við að búa. Í því sambandi ályktaði hann að ágirndin væri því mest til fyrirstöðu, að guðsvilji mætti verða á þessari jörðu. Síðan hefir hans boðskapur og hans hugsjónir verið æði mikið útþyntar með endalausum guðfræða getgátum og kennisetningum.

Vilji nútíðar kirkjan vinna heiminum gagn verður hún að grundvallast á hinni óbrotnu og hagnýtu kenningu hans um guðsríki kærleikans og samvinnunnar *á þessari jörð*

Í því sambandi er vert að hugfesta þá kenningu hans að hvorki kirkjan né hinn nafnkristni heimur getur báðum þjónað: guði og Mammon.

Hvernig þá getur kirkjan lagt undirstöðu hins kristna mannfélags, þess guðsríkis, sem Kristur kendi? Þetta ætti hún þó einkum að kenna, eigi að byggja á réttlæti en ekki synd.

Það himnaríki, sem Kristur boðar er ekki skýjum ofar heldur hagrænt og framkvæmanlegt jarðlífs takmark. Eilífðin er ekki öll framundan heldur erum við nú þegar í eilífðinni og líf vort heyrir henni til engu síður hér á jörð en í vistarverum andans annarstaðar. "Guð er ekki fjarlægur einum eða neinum af oss', heldur lifir hann og starfar í lögum tilverunnar og í okkur sjálfum, því "guð er kærleikurinn" og kærleikurinn getur ekki annarstaðar búið en í mannshjörtunum. Þetta er ágæt guðsfræði enda er þetta sú guðfræði, sem Kristur kendi.

Forsjón guðs lýsir sér einkum í því hvernig hann verndar lífið og sér fyrir þörfum þess með örlátum gjöfum í auði náttúrunnar. Hann hefir ennfremur gætt mannsandann því hugviti, sem gerir honum kleift að hagnýta sér þessi auðæfi og þá orku, sem býr í náttúrunni, sér til gagns. En hann hefir líka gefið mönnunum frjálsræði til að velja og hafna um lífsstefnuna eða helstefnuna en það leiðir af sjálfu sér, að þeir geta ekki

stefnt til guðsríkis með því að ganga á vegum ranglætisins en ranglætið er, að dómi Krists, ávextir ágirndarinnar, þeirrar ágirndar, er undir nútíðar ástandinu, virðist beint lífsnauðsyn einstaklingsins. Í því sambandi mætti benda á orð Hewletts Johnsons, dómsprófasts í Canterbury: "Undir auðþróunar fyrirkomulaginu er takmarkið, nærri því æfinlega, að græða sem mest en ekki að vinna mannfélaginu sem mest gagn. . . Auðmaðurinn er sjálfur háður þessu lögmáli. Hann vogar ekki að breyta eftir beztu vitund sé hann að upplagi góður maður.

Hann getur framið þær yfirsjónir, sem koma honum á kaldan klaka og eitt af þeim yfirsjónum er að vera alt of miskunsamur og mannúðlegur í viðskiftum. Það getur gert hann ósamkepnisfærann. Aðrir kaupsýslumenn gera ágóðasama verzlun með ýmsum brögðum. Þeirra verður sigurinn í samkepninni að lokum ef hann ekki gætir sín."

Æðsta siðgæðisboðorð kristninnar er að verja viti sínu og gjöfum guðs mannkyninu til frama og farsældar en það verður bersýnilega ekki gert nema með því að innleiða annað siðferðislögmál í viðskiftalíf mannanna, siðferðislögmál sem verndar og viðheldur friði, eflir samvinnu og samkomulag en gefur einstaklingnum meiri tryggingu, að njóta ávaxtanna af eigin iðju og leyfir manndygðunum að njóta sín. Á þessa skoðun er nú mannkynið líka að komast, í alþjóða málum. Það er samt lítt hugsanlegt að slíkt takist nema samvinnu og samkomulags grundvöllurinn sé jafnframt lagður í þjóðmálunum heima fyrir. Þessi grundvöllur verður að byggjast á heilbrigðu viðskifta siðferði en það siðferði verður að grundvallast á réttum skilningi er gerir glöggan greinarmun á illu og góðu. Kristur leitaðist við að leggja þann grundvöll; fyrst og fremst með því að boða mönnum hina gullnu reglu, í öðru lagi með því að benda mönnum á upphafsrót ilskunnar, ágrindina. Kristur var mesti gerbyltingarmaður veraldarsögunnar. Hann vildi stofna nýtt ríki kærleikans og bræðralagsins á þessari jörð og því starfi skyldi kirkjan halda áfram í hans nafni. Við erum óraveg frá hugsjón hans og verðum það unz við skynjum að menn komast engan vegin til guðsríkis með því að hrópa: herra! herra!! Við tökum ekki að nálgast það fyr en við reynum að gera guðs vilja.

Í fjórða lagi verður kirkjan að fordæma alt ranglæti með jafn samvizkusömu hlífðarleysi og hann gerði. Einkum verður hún að innræta leiðir og innleiða það fyrirkomulag, sem sé í

samræmi við þessa sjálfsögðu kröfu um lifandi og starfandi kristindóm.

Minna má kirkjan ekki gera og minna getur hún ekki gert eigi hún að vera sjálfri sér samkvæm en Kristi trú.

*H. E. J.*

---

## Móðurminning

---

Af öllu, sem lífið oss leggur í té
ljúfasta minningin hygg eg að sé
um góða og göfuga móður;
og því vil eg hugsa til hennar í dag,
hennar, sem bezt hefur annast minn hag,
þótt margur í garð minn sé góður.

Hún hjúkraði, nærði og huggaði bezt
og hjálpaði jafnan er þörfin var mest
og gætti mín úti og inni,
og þegar að sjúkdómur sótti að mér —
sem að eg æfilangt merki ber —
hún vakti yfir velferð minni.

Hún lagði fram alt sitt: líf og sál.
Hún lagði mér heilræði, kendi mál
og sálma, bænir og bögur.
Hún hlýddi á öll mín barnabrek
og bygði upp mitt veika sálarþrek —
í rökkrinu sagði hún mér sögur.

Alt sem nam eg í æsku hjá þér,
um æfidagana reynst hefur mér
sá drýgsti og dýrasti sjóður.
Af öllu, sem lífið lánaði hér,
ljúfasta minningin verður og er
um indæla, ástríka móður.

*Eiríkur Scheving*

# Háskólinn heima

Þegar eg kom til Reykjavíkur haustið 1945 virtist mér alt vera minna en það sem eg hafði séð á ferðalaginu áleiðis til Íslands. Þessvegna var það að þegar ekið var með mig um kvöldið suður að háskólanum sem stendur á melunum, undraðist eg að sjá eins stórt og fallegt hús og það sem blasti við augum mér. Þetta var æðsta mentastofnun landsins, Háskóli Íslands.

Þetta er stórt þriggja hæða hús úr ljósgráum steini og snýr það í austur. Fyrir miðju eru stórar glerhurðir og er smá forstofa fyrir innan, áður en gengið er inn í anddyri háskólans. Þarna inni birtist fyrst fegurð háskólans. Inst í anddyrinu, gegnt dyrunum, stendur brjóstlíkan af Jóni Sigurðssyni fyrir ofan dyrnar á lestrarsalnum og bókasafninu. Til hægri og vinstri liggja stigar upp á næstu hæð, og gangar eftir endilangri byggingunni.

Í norðurhluta hússins á fyrstu hæð eru aðallega rannsóknarstofur læknadeildarinnar. Í suður hlutanum eru tvær kenslustofur, önnur stór, oft notuð þegar mannmargt er; skrifstofur háskólans og rektors, og kennaraherbergi. Á næstu hæð eru flestar kenslustofurnar; í norðurhlutanum er beinasafn og kenslustofa læknadeildarinnar; og kenslustofur viðskifta- og verkfræðisdeildanna. Í suðurhluta hússins eru kenslustofur guðfræðis-, lögfræðis- og norrænudeildanna. Auk þess skrifstofa stúdentaráðs háskólans og kapella. Í álmunni fyrir ofan bókasafnið er hátíðasalurinn. Á efstu hæðinni eru kennarastofur, tannlækningastofa og teiknistofur.

Eg hefi nú lýst háskólanum lauslega en ætla nú að reyna að lýsa nánar því sem mér er kunnugast. Fyrst verður það þá kenslustofa guðfræðisdeildarinnar. Eg held mér sé óhætt að fullyrða að þetta sé skemtilegasta kenslustofan í öllum háskólanum. Er það stofa með sæti fyrir þrjátíu. Bak við kennarastólinn eru landakort en á veggnum á móti eru myndir af þrem fyrverandi kennurum guðfræðisdeildarinnar: Haraldi Nielssyni, Jóni Helgasyni og Sigurði Sívertsen. Fyrir neðan eru myndir af kennurum með nemendum sem teknar hafa verið með

fjögurra ára millibili. Milli tveggja glugga á hliðarvegg er mynd af séra Friðriki Bergman, sem gaf guðfræðisdeildinni bókasafn sitt. Á hinum veggnum er afar merkilegt safn af myndum. Árið 1939 fóru þeir prófessorar, Dr. Magnús Jónsson og Ásmundur Guðmundsson austur um lönd til Palestínu og víðar, og á þessu ferðalagi málaði dr. Magnús vatnslitar myndir af mörgum merkilegum stöðum þar eystra og gaf hann deildinni síðan mikið af þeim. Er stofan þannig mjög vistleg og er einnig notuð sem lesstofa.

Á móti kenslustofunni er kapella háskólans. Þessi kapella er mjög falleg og rúmar um 150 manns. Fyrir miðju er altarið og þar standa orðin: *"Sannleikurinn mun gjöra yður frjálsa"*. Öðru megin er ræðustóllinn en hinu megin inngangur fyrir prestinn. Sitt hvoru megin eru einnig tákn guðspjallanna fjögra. Fyrir ofan innganginn eru svalir þar sem söngflokkurinn er og þar eru einnig skreytingar úr steini. Mjög skemtilegir eru litirnir eða öllu heldur liturinn á veggjunum, hann er dökkblár neðst, en lýsist eftir því sem ofar dregur og er loftið hvítt.

Síðan vildi eg lýsa hátíðasalnum sem er, eins og eg hef áður minst á, í álmu hússins. Ofan við dyrnar inn í þennan sal standa orð Jónasar: *"Vísindin efla alla dáð"*. Salurinn er stór með sæti fyrir um 300 manns. Hér er gott húsnæði fyrir fyrirlestra og aðrar samkomur en ekki þægilegt fyrir kvikmyndir eða slíkt. Í sömu álmunni, á neðri hæðinni er hið stóra bókasafn háskólans og lestrarstofur. Í þessu safni er að finna mjög mikinn fróðleik.

Nú hefi eg lýst háskólanum sjálfum, þá er næst að skýra frá kenslunni og slíku. Í þessari einu byggingu fer fram mest öll kenslan fyrir þá 400 stúdenta sem stunda nám við háskólann, í guðfræði, lögfræði og viðskiftafræði, læknisfræði, verkfræði, norrænu, heimspeki og tungumálum.

Þegar menn koma í háskólann frá mentaskólunum tala þeir mikið um það akedemiska frelsi sem er þar að finna þ. e. a. s. enginn er bundinn við að sækja tíma og hlusta á fyrirlestra frekar en hann sjálfur vill. Tímar eru allan daginn í einhverri deildinni en flestar mæta þó á morgnana frá 9 til 12. Tímar standa yfir í 45 mínútur, byrja 15 mínútur yfir klukkustundina.

Fyrirkomulagið með próf er ólíkt því sem er vestan hafs. Á fyrsta árinu eru menn skyldugir að taka próf í heimspeki (almennri sálfræði og rökfræði), en deildarpróf eru misjöfn. Í

guðfræðinni er t. d. eitt próf — embættisprófið — eftir fjögra ára nám; lögfræðin sem er 5 ára nám er skift í tvent, fyrri og síðari hluti, læknisfræðinni í þrjá hluti, en er 7 ára nám. Þannig verður lestur oft vanræktur fram á síðustu stundu og svo eru þessi ósköp rétt fyrir prófin; þá lesa sumir alt sem þeir hefðu átt að lesa á 3 árum, á 3—4 mánuðum.

Prófessorar, dósentar og aðrir kennarar við háskólann eru um 50. Er einn prófessor við hverja deild formaður hennar og fulltrúi hennar í Háskólaráði. Nú er Háskólaráð þannig úr skipað að dr. Ólafur Lárusson er rektor; Ásmundur Guðmundsson formaður guðfræðisdeildarinnar; Gunnar Thoroddsen, formaður laga og viðskiftadeildar, (hann er nú borgarstjóri Reykjavíkur og laus úr prófessors embættinu); dr. med. Júlíus Sigurjónsson, formaður læknadeildarinnar; dr. Einar Ólafur Sveinsson, formaður heimspekisdeildarinnar og dr. Leifur Ásgeirsson, formaður verðfræðisdeildarinnar.

Annað sem var nýtt fyrir mig var að námið sjálft er frítt (það er ekkert "tuition fee"). Einnig eru styrkir fyrir alla nemendur er stunda námið samvizkusamlega, sem hækkar eftir því sem maðurinn er lengra kominn. Maður í fjórða ári fær töluvert meir en þegar hann var í öðru ári. Af þessu má sjá að það er auðveldara fyrir Íslendinga að lesa við háskólann sinn en fyrir fólk í Vesturheimi í skólum þar.

Háskólinn er styrktur af ríkinu en auk þess aflar hann sér peninga með ýmsu móti. Háskólinn á eitt kvikmyndahús, Tjarnarbíó, og rennur ágóðinn til hans og svo er Happadrætti Háskóla Íslands.

Sérstakar háskóla hátíðir eru ekki margar. Á haustin, um mánuð eftir að kensla byrjar, eða um 20. október, er setning háskólans, þegar allir sem innritast þá í skólann taka við háskóla borgarbréfum sínum en aftur á móti er engin hátíð í sambandi við embættispróf eins og okkar "graduation".

Íslenzku stúdentar hafa helgað sér fullveldisdaginn, fyrsta desember, og þennan dag eru mikil hátíðahöld. Stúdentar sjá um þetta sjálfir, gefa út blað, fara í skrúðgöngu frá Háskólanum að Alþingishúsinu og talar einhver mætur maður af svölum Alþingishússins, og svo þaðan í dómkirkjuna til að hlýða á stutta stúdenta guðsþjónustu. Seinna um daginn eru ræðuhöld og hljóðfærasláttur í hátíðasalnum. Öllu þessu er útvarpað. Um kvöldið er borðhald og dansleikur að Hótel Borg.

Annað sem allir stúdentar sameinast um er að fagna nýárinu, á ári hverju, með því, að halda áramótadansleik í anddyri Háskólans. Einnig er útvarpið helgað stúdentum síðasta vetrardag og sjá þeir um dagskrána þetta kvöld.

Að lokum vildi eg minnast, í fáum orðum, á félagslíf í Háskólanum. Stúdentar hafa með sér deildarfélög í öllum deildum og einnig er íþróttafélag og leikfélag. En pólitík hefir komist inn í Háskólann eins og í flestu á Íslandi. Það eru fjögur starfandi pólitísk félög í Háskólanum (eins mörg og flokkarnir eru). Á haustin eru pólitískar kosningar til stúdentaráðs, það er 9 manna nefnd sem sér um hagsmuni stúdenta, og bjóða þá öll pólitísku félögin fram menn til kosninga. Þá er fjör í skólanum og hiti í öllum mönnum, rétt eins og þegar er verið að kjósa á Alþingi.

Eg hefi nú reynt að lýsa, að litlu leyti, Háskólanum heima á Fróni, sem eg hef verið svo lánsamur að kynnast og vona að þið, lesendur góðir, megið lesa þetta ykkur til gagns og gamans.

*V. Emil Guðmundson*



**Háskóli Íslands**

# Drög til kirkjusögu Íslendinga í Vesturheimi

## UNITARISMINN

"Úr opnaðri jörðinni uppspruttu menn
með andlitin moldug og sveitt.
"Alt samlandar þínir", kvað sveitungi minn:
"jafn sauðþægir, löghlýðnir menn.
Að vinna okkar námur, er vænlegast fólk,
sem við höfum náð hingað enn."
"Eg trúi því naumast. Þeir ólust", kvað eg,
"þó upp yfir jörð þessir menn;
Þeir þola ekki að kviksetjast, klóra sig upp
úr kreppunni og skurðunum senn."

Þannig lýsir Stephan G. Stephansson ásigkomulagi og útliti Íslendinga í Winnipeg, á frumbýlisárunum. Þá var helzta atvinna þeirra að grafa skurði til vatns og saurrenslu fyrir aðra borgarbúa. Sjálfri sóttu þeir neyzluvatn sitt í brunna og urðu að notast við út í salerni. Þetta var óbrotin en erfið vinna og eðlilega illa launuð. Til annars þóttu Íslendingar naumast notandi. Þeir voru vankunnandi í vinnubrögðum Vesturheims og málhaltir á tungu landsverja. Þessvegna urðu þeir að sæta þeirri atvinnu er þeim bauðst: að moka aur í sumarhitum og aka brenni í vetrarveðrum.

Brátt tóku þeir samt að klóra sig upp á bakkann, eins og sjáandinn spáði. Hörð reyndist þeim samkepnisbaráttan og krafði bæði dirfsku og dáða. Það reyndist afar erfitt að sannfæra fólk af enskum uppruna um þau sannindi, að Íslendingum væri trúandi til nokkurra vandaverka, að þeir gætu stundað trésmíðar, hlaðið múrsteinum, lagt vatnsleiðslur eða málað hús. Fyrsta stigið var að komast úr skurðunum, þótt ekki væri nema til að kraga kjallara og steypa húsgrunna. Þaðan smá þokuðu þeir sér svo upp í félagsskap hinna faglærðari byggingarmanna. Í fyrstu fengust þeir við að hræra steinlímsblöndu en svo var þeim trúað fyrir að steypa veggi. Fyrst báru þeir efnið til timbursmiða, svo var þeim fengin sög og hamar. Fyrst báru

þeir kalkblönduna til múrara, síðar lærðist þeim að raða tígulsteinum í veggi.

Það þótti þá, og það að réttu, heiður að heita húsasmiður, múrari, veggfóðrari, málari og svo framvegis. Það leið heldur ekki á löngu þar til eftir Íslendingum var sóst, sem húsagerðarmönnum, á hinum miklu uppgangsárum Winnipeg-borgar. Þeir þóttu trúir og vandvirkir flestum fremur. Bráðlega fóru Íslendingar að veita því athygli, að húseigendur hlutu miklu meiri ágóða en húsasmiðirnir. Þeim þótti það ekki viðeigandi að láta svo á sér græða og tóku sjálfir að byggja húsin upp á eigin reikning og síðar selja þau eða leigja. Eg held að óhætt megi fullyrða að Íslendingar hafi tiltölulega bygt fleiri hús, miðað við mannmergð þeirra, en nokkur annar einn þjóðflokkur í Winnipeg. Margt af þessum byggingum eru fjölbýlis hallir, regluleg stórhýsi. Er mikill fjöldi af þeim í borginni. Slíkar byggingar eru reistar í gróðaskini og oftast lítt hirt um útlit þeirra. Kemur andleysi auðhyggjunnar kanske óvíða betur í ljós en í þessum ferlegu húsakössum. Stinga þeir mjög í stúf við hin smærri íbúðarhús, sem eru stundum mjög snotur. Eg held það megi nokkurn vegin þekkja þau hús frá öðrum, sem Íslendingar hafa bygt. Þeir reyna hér um bil æfnilega að snotra þau eftir sínum smekk, og tekst oftast vel. Eg held það engar ýkjur, að Winnipeg-borg myndi þó ennþá útlits lakari ef Íslendingar hefðu engan þátt tekið í bygging borgarinnar. Það er líka sjónar munur á vesturbænum þar sem flestir Íslendingar búa og sumum öðrum hlutum borgarinnar.

Atvinnulega hefir langmest kveðið að Íslendingum sem húsasmiðum og byggingarmönnum í Winnipeg. Auðvitað hafa þeir, næstum frá öndverðu, stundað fleiri atvinnuvegi. Það þótti hagkvæmt að hafa enskumælandi Íslendinga, sem burðarsveina eða meyjar, þegar Íslendingum tók að fjölga í bænum. Sjálfir tóku þeir líka snemma að reka verzlun þótt kaupmenska þeirra hafi oftast verið í fremur smáum stíl. Margir komust að skrifstofustörfum, enda gat komið sér vel að nota þá sem túlka við tækifæri.

Íslendingar, þrátt fyrir fátækt sína, létu undir eins á frumbýlis árunum börn sín ganga á æðri skóla en sumir þeirra yngri, er að heiman komu, brutu sér mentabrautir með miklum dugnaði. Gátu Íslendingar sér mikinn orðstír fyrir námshæfileika og lærdómsástundun og áunnu sér mörg verðlaun. Síðar út-

breiddu þessir menn frægð sína og Íslendinga yfir höfuð, sem kennarar, læknar, lögmenn og prestar. Margir af ágætustu læknum borgarinnar voru þá og eru enn af íslenzku kyni.

Að komast áfram og verða að manni, var hugsjón og þrá Íslendingsins í stórborginni, engu síður en annarstaðar.

Þeim tókst þetta í Winnipeg engu síður en annarstaðar. Þróttur og framsækni landans hefir óvíða komið betur í ljós en í þeirri harðvítugu baráttu er Winnipeg Íslendingar þurftu að heyja fyrir tilveru sinni og frama í samkepni margra þjóðflokka.

Þarna var líka meira eftir þeim tekið en í strjálbygð landsins og þar fyrst áunnu þeir sér þann orðróm, að vera beztu innflytjendur frá Evrópu og meðal nýtustu borgara þjóðfélagsins síðar meir.

Þeir létu snemma til sín taka um ýms menningarmál, svo sem bindindi og kvenfrelsi. Urðu þeir á mörgum framsóknar sviðum hinir mestu atkvæðamenn og þótti hérlendu fólki, sem áhuga hafði fyrir þeim málefnum hinn mesti liðsauki að Íslendingum. Engin þjóðflokkur hefir lagt bindindishreyfingunni slíkt lið sem Íslendingar og í kvenréttindamálinu voru þeir engu síður drjúgir til sóknar. Var kvenréttinda blaðið Freyja, undir ritstjórn Sigfúsar Benidiktssonar skálds og Margrétar Benidiktssnoar skáldkonu, einasta málgagn þeirrar hreyfingar í Vestur Canada. Hefir menningar starfsemi þeirra hjóna verið minna metin en hún verðskuldar.

Winnipeg-búar tóku líka forystuna í sérmálum Íslendinga af Dakota-búum bráðlega. Þau mál voru einkum trúarlegs og þjóðernislegs eðlis. Í Winnipeg hafa löngum þjóðræknir Íslendingar búið og svo var með helztu foringja þeirra á fyrri árum: dr. Jón Bjarnason og dr. Rögnvald Pétursson. Er stundum nokkuð erfitt að greina hvert meira réði, áhugi þeirra fyrir þjóðernismálum eða kristindómi, þegar dæma skal gerðir þeirra og stefnur.

Þótt báðir þessir foringjar, og ótal fleiri Vestur-Íslendingar væru manna þjóðræknastir, fór því samt fjærri, að þeir vildu vanrækja að nema hvað sem þeim mætti helzt til hagsbóta verða af hérlendum, og semja sig í ýmsu að þeirra háttum. Þeir voru nógu skynsamir til að skynja, að Íslendingum mátti ekki annað hlýta. Í þessu fylgdu þeir fordæmi sinna frænda. Það var háttur víkinganna hvar sem þeir námu land, á Englandi, Írlandi, Skotlandi, í Normandíu, á Frakklandi, í Hólmgarði, á Rúss-

landi eða Sikiley, að nema tungu og semja sig að siðum landsbúanna en halda þó ávalt nokkru af ættareinkennum sínum. Einmitt þessvegna juku þeir ávalt sína eigin menningu og auðguðu jafnframt kjörlandið nýjum andlegum verðmætum.

Í trúmálum tóku landnemarnir fljótlega eftir því, að hér voru margir trúflokkar. Vildu þeir eitthvað af öllum læra en hafa það, sem þeim virtist bezt frá hverjum.

Þess verður hér að geta, að íslenzkir þjóðkirkju siðir voru aldrei notaðir án breytinga hér vestra. Jafnvel séra Jón Bjarnason breytti messuforminu eftir eigin geðþótta og til meira samræmis við helgisiði hinnar hérlendu, lútersku kirkju. Hann aflagði suma íslenzka kirkjusiði, en lagði miklu meiri áherzlu á játningar kirkjunnanr en tíðkaðist í hans tíð heima á Íslandi. Mörgum féll þessi breyting afar illa. Nokkrir söknuðu prestsskrúðans og tónsins úr tíðagerðinni, fanst hún firt öllum helgiblæ. Öðrum þótti á frelsi sitt gengið með þessari bindingu og virtist það hégómi einn að þylja þær kreddur, sem almenning skorti vitaskuld guðfræðilega þekkingu til að skilja.

Fjöldi manna fjarlægðist kirkjuna og gerðist harla sinnulaus um öll trúarefni; samt hraus fleirum hugur við, að slíta sig úr öllum tengslum við kristindóminn. Fóru þá ýmsir að leita fyrir sér og lentu við það í ýmiskonar trúfélögum. Vitanlegt er nú að Íslendingar eru finnanlegir í þessum trúarbragða flokkum: Mormóna, Öldunga, Sjöunda dags aðventista, Biblíustúdenta, Kristilegra vísinda, Skírarar, Meþódista, Guðspekinga, Öndunga, Rósacrusians og fleirum. Mun auðið að finna íslenzka áhrifamenn og konur í öllum þessum trúfélögum.

Langflestir Íslendingar, sem fjarlægðust Lúterskuna gerðust Únitarar. Í þeim trúflokk fundu þeir það lífsviðhorf, sem lang bezt átti við trúarhyggju þeirra og innræti.

Heitið Únitari er komið frá latneska orðinu uno, sem þýðir einn, eða hinn eini, og bera Únitarar þetta nafn til aðgreiningar þeim trúflokkum, sem trúa á þrenninguna eða enn fleiri guði. Alment hefir verið svo álitið, að Únitarisminn sé frábrigði frá hinni upphaflegu þríeindar kenningu kirkjunnar en þetta stafar af vanþekkingu á sögu frumkristninnar. Þrenningar kenningin kemur ekki til greina í fyrstu kristni. Þess munu engin dæmi, að Kristur væri dýrkaður sem guð á fyrstu öldum kristninnar enda myndi slíkt hafa verið Gyðingum ógeðfelt því þeir eru og voru ákveðnir eingyðis trúarmenn. Að vísu munu menn hafa

beint bænum sínum til Krists, sem meðalgangara milli guðs og manna, ekki ósvipað því sem enn á sér stað með kaþólska er ákalla guð fyrir milligöngu Maríu meyjar og dýrðlinganna. Þríeindar kenningin er fyrst rökstudd í ritum Tertulliusar kirkjuföðurs er uppi var um 200 árum eftir Krists fæðingu. Tertullian hafði verið heiðinn lögfræðingur í Kartago-borg í Norður-Afríku áður en hann tók kristni. Er þríeindar kenningin líklegast upptekin til að samræma eingyðis trú Gyðinga og fjölgyðistrú heiðingjanna. Hvað um það, Tertullius kvartar um að fólkið geti ómögulega trúað því, að einn og þrír séu hið sama, til þess, kvað hann lýðinn skorta heimspekislega mentun og þankafar. Því fór líka mjög fjærri, að allir guðfræðingar gætu fallist á þessa kenningu. Heiftugar deilur risu milli leiðtoganna og klufu þær kirkjuna. Voru margar trúarjátningar samdar, sem áttu að úrskurða hvernig kristnum mönnum bæri að trúa á Krist, sem guð. Af þeim eru þessar helztar: hin svonefnda Postullega játning viðtekin af kaþólsku kirkjunni seint á annari öld e. K., (þar sem flestir munu við hana kannast þarf ekki frekar að geta hennar hér); Nikeu-játningin, fyrst viðtekin á kirkjuþinginu í Nikeu árið 325, síðar samþykt nokkuð breytt á kirkjuþinginu í Miklagarði árið 381, enn síðar samþykt með meiri breytingum á kirkjuþinginu í Kalsadóníu 451; Aþanesiasarjátningin svo nefnda, uppruni hennar er óþektur nema hvað menn vita nú með vissu að hún var ekki samin af Aþanasíusi frá Alexandríu, líklegast upprunnin í Suður-Frakklandi á fimtu eða jafnvel sjöttu öld e. K.

Hversvegna voru nú allar þessar játningar samdar? Af því að kirkjuhöfðingjarnir vildu staðfesta trúna á Jesú sem guð. Það er athyglisvert að kenningin um guðdóm Krists er þungamiðjan í öllum þessum játningum og meiri áherzla lögð á hana í þeim síðari en í þeim fyrri. Guðfræðingarnir gátu ekki unað við postullegu trúarjátninguna til lengdar af því hún gaf ekki nógu skýr ákvæði um guðdóm Jesú. Nikeu-játningin er nú raunar endurtekning og útfærsla postullegu játningarinnar, en hún leitast við að útskýra kenninguna um guðdóm Jesú nokkuð nánar. Svo bætir hún einni þýðingarmikilli grein við hina gömlu játningu, að menn verði ekki sáluhólpnir án skírnarinnar. Í Aþanasias-játningunni er fyrst alvarleg tilraun gerð til þess að útskýra þetta trúaratriði út í yztu æsar en fyrir bragðið verður hún sérstaklega þrungin af hugsunar blekkingum og gífurlegustu mótsetningum. Í tíundu greininni er sagt að Kristur sé

til frá upphafi eins og guð faðir, en í 22. grein er hann getinn af föðurnum og frá honum kominn. Hvernig getur nokkuð verið getið sem altaf hefir verið til og hvernig getur faðir framleitt son nema hann sé sínu eigin barni eldri? Í fimtu greininni er sagt að guð-faðir sé ein persóna, sonurinn (Kristur) ein persóna; Heilagur andi ein persóna en í 12., 14. og 16. greininni er skýrt fram tekið að um einn guð, einn skapara, eina eilífa alheimstilveru sé að ræða. Játningin tekur skýrt fram í 25. grein, að einn komi ekki á eftir öðrum heldur hafi allir verið til frá upphafi. Samt segir játningin, þrátt fyrir hina marg ítrekuðu staðhæfingu, að: Kristur hafi verið "Omo-oudios tou patros (altaf hjá föðurnum). Samt er hann föðurnum fæddur og gefið í skin að Heilagur andi sé frá syninum (dia ten pros ton eon idi-ot-eta).

Svo klyngir játningin út með því, að segja, að þessu verði menn að trúa vilji þeir hólpnir verða. Margir létu líf sitt af því þeim var ómögulegt að aðhyllast þrenningar kenningu kirkjunnar og þessi játningar grein hefir ollað meiri styrjöldum en nokkur önnur kennisetning kirkjunnar.

Nútíðar Únitarisminn byrjar tilveru sína með trúboði og ritstörfum ítalska fræðimannsins Fastusar Sicinusar, sem er fæddur 1539. Hann stofnaði fjölmenna söfnuði í Póllandi á ofanverðri sextándu öld. Var únitariskur háskóli stofnaður í Rakow-borg og prentsmiðja starfrækt. Eins og við var að búast snerist kaþólska kirkjan gegn þeim og tókst loks eftir langa og harða baráttu, að stemma stigu fyrir útbreiðslu hins únitariska kristindóms, með hryllilegum ofsóknum. Frá Pólandi breyddist Unitarisminn út til annarra landa. Náði hann enkum föstum rótum í Transylvaniu á Balkanskaga og þar eru enn fjölda margir únitara söfnuðir þrátt fyrir alda langar ofsóknir. Únitarisminn hefur líka náð öruggri fótfestu í Hollandi og á Englandi. Vóru margir af gæðingum Englands svo sem Ísak Newton þeirrar trúar. Ef til vill er únitara kirkjan hvergi sterkari, í Evrópu, en í Tékkó-Slóvakíu og er hún þar í hröðum uppgangi. Hinn mikli stjórnmála maður Thomas Masaryk, af mörgum talinn faðir hinnar endurbornu Tékkóslóvakíu, var únitari. Útbreiðsla hennar, sem stendur, er þó ef til vill einna mesta í Asíu. Hún á marga áhangendur í Indlandi og í Kína. Í Filipusareyjum var árið 1902 stofnuð sjálfstæð kirkja af fólki, sem yfirgaf hina katólsku þjóðkirkju. Stofnendur þessarar kirkju voru

tveir fyrverandi biskupar í katólsku kirkjunni: Gregorio Aglipay Labayen og Don Isabelo de los Reyes. Mun þessi kirkja nú telja um tvær miljónir sálna. Trúarjátningu hefur þessi kirkja enga, fremur en únitara kirkjur í öðrum löndum, en enkunarorð þessarar kirkju er mjög í samræmi við únitariskar trúarskoðanir, enda telja þeir sig únitara. Yfirlýsingin hljóðar þannig: "Biblía y Ciencia, Amor y Libertad. (Biblían og visindin, kjærleikurinn og frelsið). Þess má samt geta, að Aglipayan kirkjan í Filipusareyjum notar ýmsa helgisiði katólsku móðurkirkjunnar en leggur oftast alt aðra þýðingu í þær athafnir.

Fróðir menn telja um 20 miljónir únitara í heiminum, sem stendur. Frá Englandi barst Únitarisminn vestur um haf. Joseph Priestley, vísindamaðurinn frægi varð fyrstur manna til að boða þá trú í þessari álfu. Priestley er frægastur fyrir rannsóknir sínar á efna samsetningu andrumsloftsins. Fann hann við þær rannsóknir súrefni loftsins fyrstur manna. Hann var einnig prestur ensku þjóðkirkjunnar og sem guðfræðingur tók hann snemma að aðhillast únitariskar trúarskoðanir, að hætti margra enskra fræðimanna. Sætti hann brátt ofsóknum, af hendi síns safnaðar fólks. Það grunaði hann um galdra og þótti prédikanir hans og trúarstefna ókristileg. Gerði það honum aðsúg og eyðilagði áhöld hans öll. Varð hann nú að flyja sitt föðurland og leitaði hælis fyrir vestan haf. Hann lét sér, sem flestir únitarar alt réttlæti varða og var einn af þátttakendum kommúnista nýlendunnar í Norðumberlands-héraðinu í Pennsylvania. Sömuleiðis stofnaði hann fyrsta únitara sofnuðin í Ameríku um aldamótin átján hundruð. Hann lézt árið 1804, heiðraður og virtur af vísinda og frjálstrúarmönnum í öllum löndum. Rithöfundurinn og vísindamaður frægi, Thomas Huxley, hefir þetta um hann að segja: "Hann var uppreisnarmaður í þrælkuðum heimi, villutrúarmaður í hjátrúarfullum heimi og þessvegna réttnefndur dýrðlingur". Margir af frægustu vísinda mönnum og heimspekingum í hinu unga lýðveldi gerðust brátt vinir hans svo sem Benjamin Franklin og stærðfræðingurinn dr. Richard Price. Náði þessi nýja trú brátt mikilli útbreiðslu. Einkum voru það rithöfundar, skáld og mentamenn er snérust til hinnar nýju trúar.

Svo fyrirferðar miklir voru þeir í andlegu lífi álfunnar, að Íslendingar hlutu að verða þeirra varir, undir eins og þeir fóru að kynnast bókmentum og sögu kjörlandanna. Læsu menn heim-

speki rákust þeir á slíka höfuð snillinga sem: Emerson, Martineau, Thoreau og vissu brátt að þeir voru únitarar. Landin er gefin fyrir ljóðmæli og tók að lesa helstu skáldin og varð þess undir eins var að flest þeirra voru únitarar: Longfellow, Lowell, Holmes, Bryant, Taylor og Studdard. Sama var að segja um skáldsagna höfundana frægu: Hawthorne, Taylor, Helen H. Jackson, Breta Harte og ótal fleiri; Þetta voru alt únitarar. Sama var um helztu vísindamennina: Agassiz, Burroughs, Steinmatz. Vildu þeir lesa um sögu landsins eða annarra þjóða lásu þeir helzt bækur eftir þá Parkmann, Prescott og fleiri. Allir voru þessir stórfrægu amerísku sagnfræðingar únitarar. Þeir höfðu ekki einungis skrifað sögu, heldur höfðu margir únitarar átt drjúgan þátt í því að mynda þá sögu. Sumir af ágætustu forsetum Bandaríkjanna svo sem: Jefferson, John Adams og sonur hans John Quincy Adams höfðu verið únitarar. Auk þeirra voru slíkir þjóðskörungar, sem: Webster, Sumner og Julia W. Howe, únitarar. Allsstaðar höfðu þeir látið að sér kveða. Bindindis frömuðirnir: Kirkland, Letrup, Pierce og Abbot voru allir þeirrar trúar. Úr engri kirkju höfðu jafn margir komið til að berjast á móti þrælahaldi. Enginn gat lesið um þá baráttu án þess að heyra nafn slíkra únitara, sem: Channings, Parkers, Gennets, Edmonds Quincy's, Shadwicks og flr. Í kvennréttinda baráttunni stóðu slíkir skörungar sem: Lady Stanton, Susanna B. Antony, Lucy Stone, Juia Ward Howe og Louisa M. Alcott í fylkingar broddi, og þær voru allar únitarar. Engin getur sér fróðleiks aflað um amerískar menningar og mentunar framfarir án þess að kynnast: Horace Mann, Noah Webster, J. S. Buckmaster og Edward Everett. Einnig þeir voru únitarar.

Maður kom til Jesú og spurði: "Hvað á eg að gera til þess að öðlast eilíft líf?" Jesús svaraði hiklaust: "Þú átt að elska guð og náungann". Á þessa guðfræði hafa allir sannir únitarar fallist. Þeir hafa enga aðra. En hver er eiginlega þýðing þessara orða, "að elska guð og náungann". Að elska guð er að elska hið æðsta góða, m. ö. o. að halda trygð við sínar háleitustu hugsjónir. Hitt ákvæðið, að elska náungann, hefir Kristur sjálfur útlagt. Fyrst tekur hann alveg af skarið með því að segja: "sá sem segist elska guð en hata mennina er lygari, þ. e. a. s. sjálfsblektur. (Já, hvernig er hægt að vera hugsjónamaður og mannhatari?) Í öðru lagi sýnir hann hinn virka mannkærleika í

dæmisögunni um hinn miskunsama Samverja. Menn gleyma oftast því sem hann ennfremur sagði við hinn spyrjandi ungling fáum augnablikum síðar: "Láttu af hendi eignir þínar allar og fylgd þú mér". Þetta var siðfræðin, sem Kristur kendi. Sú siðfræði byggist á alt öðrum grundvelli en siðfræði peningamenningarninar. En það er peningamenningin, ekki hin kristna bræðralags menning, sem setið hefir að völdum í heiminum um tvö þúsund ára skeið, og lengur þó. Hér um bil alt starf kirkjunnar hefir gengið til þess að samræma Kristsmenningu og fjármálamenninguna, en Kristur sagði: "Enginn kann tveimur herrum að þjóna, guði og Mammon."

Beztu og kristnustu sálirnar í öllum kirkjum hafa skilið þetta og einmitt af því að únitarar hafa verið tiltölulega vel kristnir hafa hlutfallslega svo margir mannvinir og mannlífs endurbóta menn komið úr þeirra flokki. Verða hér aðeins nokkrir nefndir og þó ekki nema í Ameríku: Tanners var óþreytandi í því að mæla máli Indíána hér í álfu og áorkaði miklu til að bæta hag þeirra. Dorothea Dix var á sama hátt talsmaður þeirra er í fanegslum búa og verulegt endurbóta og mannúðarstarf á þeim sviðum byrjar fyrst með hennar elju og starfsemi; enda var hún stundum nefnd úngfrúin með engilhjartað, af sínum samtíðar mönnum. Ephraim Peabody var jafn ótrauður til að betra uppeldiskjör fátækra og umkomulausra barna. Dr. Samuel Howe varð fyrstur manna í Ameríku, til að stofna blindra hæli. Þannig mætti lengi telja. Auðvitað eru slíkir mannvinir finnanlegir í öllum kirkjudeildum en þegar sagt verður: "Komið, þér hinir blessuðu föður míns og takið að erfðum ríkið, sem yður var fyrirbúið frá grundvöllun heimsins, því hungraður var eg og þér gáfuð mér að éta, þyrstur og þér gáfuð mér að drekka, nakinn og þér klædduð mig, sjúkur og þér líknuðu þér yfir mig, fangelsi og þér vitjuðuð mín", munu margir únitarar finnast í þeim flokki.

Professor Ellsworth Huntington, við Yale-háskólann, er Íslendingum að góðu kunnur því hann skipar okkur heiðurssess meðal hinna tilvöldu mannflokka. Hann gerir únitörum sömu skil og fullyrðir að áhrif þeirra til menningar og mannlífsbóta hafi verið hundrað og fimtugföld við tölu þeirra.

Skiljanlega voru það fyrst og fremst hinir betur mentaðri andans menn í hópi Íslendinga, er veittu únitörum athygli.

Tveir þeirra hófu fyrst únitariskt trúboð meðal þjóðbræðra sinna. Þessir menn voru Björn Pétursson og Jón Ólafsson.

Björn hafði verið áhrifamaður heima á Íslandi og þingmaður síns kjördæmis um skeið, enda vel mentaður. Hér í Ameríku hafði hann kynst Kristofer Jansen, norska skáldinu og únitara prestinum. Fyrir áeggjan þessa vinar síns tók hann að hefja trúboðsstarfsemi meðal Íslendinga í Winnipeg árið 1891. (Mun hans síðar nánar getið). Jón Ólafsson, gáfumaðurinn og ritsnillingurinn mikli, var þá hér vestra og studdi hann starf Björns af öllum mætti bæði í ræðum og riti. Hafði hann mikil áhrif hvar sem hann gekk að verki og á gengi únitara, á fyrstu árunum, honum ekki lítið að þakka.

Áður lengra sé haldið er nú bezt að gera sér grein fyrir þessari "nýju trú" með samanburði á henni og hinni guðfræðilegu Lútersku, sem allir Íslendingar, alt frá kaþólsku til þessa, höfðu verið uppaldir í.

Fyrst myndi samt ráð ,að átta sig á því hvað felst í orðunum trú og trúarbrögð, því svo undarlega víkur því við, að þótt Íslendingar hafi þrátt og einatt deilt um trúarbrögð hafa þeir mjög sjaldan reynt að gera sér rökrétta grein fyrir því hvað trúarbrögðin í raun réttri séu, uppruna þeirra og þroska. Trúarbrögðin eru rökræn ályktun eldri og yngri kynslóða um innra og dýpra eðli tilverunnar og sú ályktun er bundin við þá reynslu þekkingu, sem hver ein kynslóð hefir aflað sér. Hér með er auðvitað átt við bæði innri og ytri reynslu mannsins, bæði við ósjálfráðar hugkvæmdir, eðliskendir og tilhneigingar, og hina ytri ryenslu af sjón og þekkingu mannanna á sjálfri tilverunni. Nú er þekking manna mjög misjafnt farið frá einni kynslóð til annarar þar sem henni fer yfirleitt fram. Trúarbrögðin eru hinsvegar oftast mjög treg til að taka þessa þekkingar framför til greina og fastbinda sig tíðum við vanhelgaðar skoðanir, sem mótast hafa í mannvits rökkri umliðnra alda. Á öfugmáli tungunnar kallast þetta oftast rétttrúnaður eða ef gríska orðið "orþodoxy" væri nákvæmlega útlagt hin beina trú. Aftur á móti eru frábrigðin, sem myndast þegar menn fara að gefa trú sinni tjáningu í samræmi við þekkingarstig sinnar samtíðar nefnd "heterodoxy", hin frábreytta trú, en á mali kirkjunnar verður það oftast villutrú.

Þetta er það sem aðskilur Lúterskuna og Únitariskuna fyrst og fremst að lúterski rétttrúnaðurinn miðast við þekkingarstig

miðaldanna yfirleitt en únitarisminn við nútíðar vísindamenskuna. Þessvegna eru þessar trúarskoðanir svo gjör ólíkar. Hugmyndir þeirra um guð og sköpunina, manninn og innræti hans, krist og kristindóm, tilgang lífsins og örlög andans, opinberun og trúraþekkingu, ber eiginlega hvergi saman. Annar átrúnaðurinn er vaxinn upp úr skauti löngu liðinna alda, hinn úr jarðvegi nútíðarinnar, raunhyggjunnar. Hér með alls ekki meint að nútíðin hafni öllu sem er aldið að uppruna, slíkt væri gagnstætt allri sannri vísindamensku, en hún dæmir það eitt rétt satt og gott, sem reynist þannig í ljósi þeirrar þekkingar, er við höfum nú öðlast.

Eg hef talsvert um það hugsað hvernig bezt og réttilegast mætti gera samanburð á lúterskri guðfræði og únitariskri trúarstefnu. Mér finst eg hafa fundið þá aðferð með því að gera samanburð á því sem kent er í guðfræðaskólum þeirra, varðandi guð, manninn og veröldina. Þetta eru undirbúningsskólar fyrir prestaefnin, sem síðar eiga að kenna þessa trú í söfnuðum sínum og við alla unglingafræðslu. Vill þá svo heppilega til að eg hef notið nokkurrar fræðslu í lúterskum prestaskóla, auk þess sem mér var kent undir fermingu af lúterskum, og fremur afturhaldssömum þjóðkirkju presti heima á Íslandi. Um hann get eg fullyrt, að hann væri svo ráðvandur, að hann mun ekkert hafa kent mér, sem ekki væri í fylsta samræmi við trúarjátningar þjóðkirkjunnar.

Það myndi íslenzkri alþýðu að litlu gagni koma, að rökræða hina háspekilegu guðfræði, enda verður hún öllum með öllu óskiljanleg nema maður jafnframt beri kensli á þann hugsunarheim, sem hún eru uppsprottin úr; en að lifa sig inn í hann er erfitt eða jafnvel ómögulegt fyrir lærða, sem leikna nútíðar menn.

Hvað kennir nú lúterskan um æðstu máttarvöldin?

Hún kennir, sem flestir trúflokkar kirkjunnar, að guð sé bæði einn og þrennur. Áður var það venja guðfræðinganna, að styðja þetta nokkrum flóknum hugspekis rökum en nú er hin lúterska trúfræði hætt því og segir þetta óútgrundanlegt undur, sem engin mannleg hyggja fái skilið. Hún er enda meira, hún er gagnstæð allri rökréttri hugsun því ef einn er sama sem þrent, fernt eða fleira væri öllum staðreyndum varpað fyrir borð og ómögulegt að komast að rökréttri niðurstöðu. Öll heimspekin hryndi í hjóm og öll vísindi yrðu að hégómahjali. Á einhverjum

óváfengjanlegum sannindum verður öll mannleg röksýni að byggjast fyrst og fremst á stærðfræðilegum grundvelli.

Þegar hugspekin tekur loftstökk út úr mannvitsheiminum grípur alþýðan til sinna ráða og einfaldar viðfangsefnið fyrir sér. Hún gerði það á þessu tilfelli með því að sundurleysa þrenninguna í þrjá persónuleika. Hver ein af þessum guðdómspersónum hefir sitt ákveðna verkefni og sína sér eiginlegleika. Í raun og veru er hinn kristni rétttrúnaður nú orðinn að hreinni og beinnri fjölgyðistrú, eða þó öllu heldur tvígyðistrú, þ. e. a. s. dvínandi Jehóva trú og vaxandi Kriststrú.

"Öll ritningin er trúbok vorra, sem kristnir erum", segir í lærdómskverinu. Frá Moses-bókum Gamla testamentisins, hefir réttrúnaðurinn hugmyndina um guðföður, sem skapara heimsins.

Þar kom fram hin gyðingalega Jehóva hugmynd og í insta eðli sínu er hún ennþá furðu lítið breytt í hugmyndum almennings. Samt hefir lútersk guðfræði orðið að gera tilslökun við vísinda hyggju þessa aldarfars og sníða guðfræða kenningar sínar um sköpunina nokkuð við hæfi hins mentaða heims. Sólkerfis kenningar Kopernikusar voru hiklaust fordæmdar, sem óguðlegar og gagnstæðar ritningunni, ekki einungis af kaþólsku kirkjunni heldur einnig af hinni lútersku. Lúter fordæmdi hana, sem hina hræðilegustu villukenningu. Helzt svo lengi að allar rétttrúnaðar kirkjur háðu stríð á móti henni en nú hefir hún verið viðtekin í öllum kirkjudeildum, sem eg þekki til nema Missouri-synodunni í Bandaríkjunum. Þeir kendu, að minsta kosti fyrir þrjátíu árum síðan, að jörðin væri miðstöð vors hnattkerfis og að sólin þreytti hringrás sína kringum jörðina. Þeir kendu þá líka, að minsta kosti í sumum miðskólum sínum, að jörðin væri flatmynduð. Hvert þessari skoðun er enn haldið fram í skólum Missouri-synodunnar veit eg ekki, en eg held mér sé óhætt að fullyrða, að hún hefir ekki verið kend í kirkjuskólum lúterskra manna, yfirleitt, síðustu tvo til þrjá mannsaldrana.

Presturinn, sem uppfræddi mig til fermingar kendi, að guð hefði skapað heiminn á sex dögum og gaf enga útskýringu á því frekar. Hann sagði líka, að samkvæmt ritningunni, væri heimurinn ekki nema liðlega sex þúsund ára gamall. Í prestaskólanum var aftur á móti að því hallast að jörðin myndi æfa gömul og að átt væri við aldir en ekki daga þegar talað væri um sköpun heims sem fulllokinni á einnri viku. Samt var fullyrt að guð

hefði tekið sér hvíld eftir að heimurinn væri fullmyndaður og að hann hvíldist enn frá því starfi.

Af öllu þessu má ráða, að lúterskan hefir þó tekið allmiklum breytingum hvað sem öllum játningum líður.

Engin vísinda skoðun kemur sér ver fyrir lúterska rétttrúnaðar guðfræði en Darwins kenningin um breytiþróun líftegundanna. Þetta er þó ekki fyrst og fremst vegna þess, að hún kemur illa heima við frásögn biblíunnar um sköpunina, heldur miklu fremur vegna þess, að hún kollvarpar í einni svipan kenningunni um syndafallið. Eftir henni hefir lífið átt sér endalausa framfara sögu frá hinu lægra til hins æðra, bæði í dýraríkinu og eins í mannlífinu. Þessvegna gat maðurinn aldrei hrapað frá fullkomnun til fordæmingar. Hann gat aldrei bakað sér útskúfun og reiði guðs. Þar af hlýtur aftur að Kristur gat ekki bætt fyrir það brot sem aldrei var drýgt. Framþróunar kenningin er með öllu ósamrýmanleg við lúterska guðfræði og guðfræði allra annara rétttrúnaðar kirkjudeilda.

Það var því að vonum að lúterskir kennimenn snerust öndverðir gegn henni. Endurómur þessarar andspyrnu, gegn framþróunar kenningunni, gat að heyra í ritum þeirra séra Jóns og séra Friðriks allt þangað til hinn síðartaldi tók sinnaskiftum, en hinn fyrgreindi hvarf af leiksviði lífsins.

Menn í hinum stærri kirkjudeildum ráku sig brátt á þá staðreynd, að hér var við ramman reip að draga. Í heimi vísindanna hlaut kenningin algilda viðurkenningu og það svo, að engin kenslubók í líffræði var fáanleg, sem ekki væri á henni bygð. Þeir neyddust jafnvel til að kenna hana í hinum lútersku lærðuskólum (colleges). Enn í dag eiga guðfræða kennararnir næsta erfitt með hana og eru nú farnir að linast í mótspyrnunni. Ritgerðir á móti henni hef eg ekki lesið á síðustu árum, þó kunna þær að finnast í lúterskum kirkjuritum. Þegar eg stundaði guðfræðanám við hérlendan prestaskóla árin 1914 til 1918, voru alvarlegar umræður háðar um málið og létu nemendur sízt hjá líða, að benda kennurunum á þá erfðileika sem þeir reyndu, að samrýma það sem þeir hefðu lært við það sem þeir væru nú að læra. Er mér ein kenslustund sérstaklega minnisstæð. Þá komst kennarinn þannig að orði: "Við höfnum nú reyndar ekki framþróunarkenningunni með öllu þótt við að hinu leytinu neitum því að maðurinn hafi vaxið upp úr dýraríkinu. Við verðum að halda því ákveðið fram, að hann hafi verið sérstaklega skapaður,

enda þótt hinar lægri líftegundir kunni að hafa þroskast hver af annari. Þessu verðum við að halda fram, því annars myndi lítið verða eftir af lúterskum trúarkenningum, við yrðum þá allir nýguðfræðingar eða únitarar." Í kaþólskum kirkjuritum hefi eg rekist á all einkennilega skoðun varðandi þetta mál. Þar er því haldið fram, að um tvennskonar opinberun á tvennskonar sannleika sé að ræða: hina óæðri og vísindalegu og hina æðri guðs opinberun og trúarlegu. Menn geta fallist á framþróunarkenninguna og ætterni mannsins samkvæmt henni sem vísindalega hérréttri, en samt sem áður haldið sig við sérstaka sköpun mannsins, samkvæmt ritningunni, sem æðri sannindum fyrir sérstaka guðs opinberun. Álíka skoðun hef eg rekið mig á hjá einum lúterskum prófessor í guðfræði.

Auðvitað er þetta bara undanfærsla og sjálfsblekking. Sannleikurinn er aldrei nema einn í hverju máli og hann getur aldrei orðið sjálfum sér sundurþykkur.

Aðal erfiðleikar lúterskrar guðfræði, nú á dögum, stafar alls ekki frá andstæðum guðfræðakenningum annara kirkjudeilda, hvert sem þær eru frá únitörum eða öðrum; heldur frá þeim erfiðleikum, sem hin aldna guðfræði á í því að samræma sínar kenningar, sem uppruna sinn eiga til eldfornrar heimshyggju, viðurkendum vísinda staðhæfingum nútíðarinnar.

Þetta kemur hvað greinilegast fram í því að þurfa að gera hina gyðinglegu guðhugmynd frambærilega fyrir fólkið í samtíðinni.

Guðsmynd kristninnar er í fyrstu tekin frá Gyðingum og klædd í hugsjónaskrúða frumstæðrar en ásælnrar landvinninga þjóðar. Jehóva var þeim ekki einungis skapari heimsins heldur líka stjórnari hans og konungur, einkum þó stjórnari og konungur Ísraelsmanna. Hann leiddi þá á herferðum og gaf þeim sigur í orustum. Þegar þeir höfðu brotist til valda og hertekið landið setti hann þeim stjórn og lög. Hann er í fyrstunni herforingi síns lýðs, síðar konungur, þá siðameistari og að lokum verndari og ráðanautur. Í hinum elztu sögnum biblíunnar heimsækir hann ættfeðurnar, situr till borðs með þeim og ræðir við þá um heimilishagi þeirra og fjölskyldulíf. Síðar birtist hann einungis hinum útvöldu endrum og sinnum og enn síðar opinberast hann einungis í nokkrum yfirnáttúrlegum kraftaverkum eða með innblæstri andans hjá spámönnunum. Að síðusut hverf-

ur hann mannkyninu að mestu að sýnilegum og sannanlegum návistum.

Að vísu kennir lúterskan að guð sé andi og þar sem talað er um augu hans og eyru o. s. frv., beri að skoða það í óeiginlegri merkingu. Samt verður mönnum nokkuð gjarnt að hugsa um hann í mynd þeirra sagna, sem þeir hafa frá öndverðu kynst; í mannlegu persónugerfi. Þannig verður hann, í hugsun fólksins, sem sá er sér sig um hönd, breytir sínum ákvörðunum, reiðist og sýnir afbrýðissemi.

Án þess að þessa sé gætt verður lútersk guðfræði með öllu óskiljanleg. Sem mannlegur guð og dómari dæmir hann heiminn í sekt fyrir óhlýðni við sig, í syndafallinu. Til að breyta þeim dómi þurfti glæpurinn að gjaldast og var goldin með fórnardauða Krists á krossinum.

Frá þeirri stundu tekur hin gyðinglega guðs-hugmynd að rýma sæti í mannlegri hyggju og hin ljúfari og geislamagnaðri mynd Krists, að taka þar varanlegt sæti. Spursmálslítið er þetta eins af höfuð ástæðunum fyrir kenningunni um algerðan guðdóm Krists; hún er sprottin af þörfinni, að losna við hina hörðu og ströngu Jehóva guðsmynd Gyðinganna. Með Kristi er réttlætisvitund Israelsmanna, eins og hún birtist í hinum þróttmiklu kenningum spámannanna, hafin upp í drottinveldi kærleik ans, í hinni mildu og mannúðlegu ásýnd Krists. Hinn spámannlegi prédikunarmáti hljómaði síðast og bezt í Íslendinga eyrum í stólræðum Jóns Vídalíns. Hið kristna lífsviðhorf kemur aftur á móti bezt fram í ræðum slíkra ágætispresta sem Haraldar Nielssonar, Páls Sigurðssonar, Matthísaar Jochumssonar og Jónasar Jónassonar. Hinsvegar hafa sálmar Hallgríms túlkað hið lúterska rétttrúnaðar viðhorf með mestri snild. Þetta hafa verið hinir eiginlegu kennifeður vors fólks, en alls ekki hinir þurstrembnu guðfræðingar. Guðfræðin hefir að mestu leyti legið utan og neðan við hugsana heim íslenzkrar alþýðu. Íslenzkir sálmar og íslenzk orðatiltæki hafa fundið viðeigandi tjáning á þessari alþýðutrú. Kristur verður bróðirinn bezti og gegn um hans helga hjarta í himininn upp þeir litið fá.

Við útgeislandi ljóma hinnar hjartfólgnu Kristmyndar græðist mannkyninu nýjar og fegri hugsjónir og vegna þeirra hugsjóna, og þeirra einungis, má skoða kristnina sem fegurstu trúarbrögðin, sem heimurinn hefir ennþá eignast. Í þeim skilningi hefir kristindómurinn orðið fjörgjafi nýrrar menningar —

en óðar en maður hefir slept orðinu "nýrrar menningar" hreyfir sannleikskendin mótmælum. Höfum við þá eignast nýja menningu? Ef Kristur er í virkileikanum vegur til himinsins heim, og ef hann hefir verið opinberaður í allri sinni fullkomnun fyrir heiminum af kirkjunni, í átján aldir, hversvegna er hann þá ekki nú herra þessa heims, hversvegna þá er heimurinn ennþá bersýnilega fremur heiðinn en kristinn í framferði sínu og innræti?

Þegar maður tekur að gefa þessu gaum birtist manni önnur mynd af Kristi, blóðfórnarmynd, sem birtir bræði guðs. Þarna gætir aftur áhrifanna frá hinni fornu, gyðinglegu guðshugmynd. Krist myndirnar verða því aðallega tvær; myndin af sláturslambinu, sem guði er gefið til friðþægingar, og myndin af Kristi, sem hinum guðdómlega manni er í persónulegri tign sinni opinberar guðseðlið í manninum.

Fyrri myndin er heiminum gefin í guðfræða ritum og játningum réttrúnaðarins. Það er ekki langt síðan, að eg hlustaði á kaþólskan prest, sem hélt því fram skýrt og skorinort, að Kristur hafi í heiminn komið, ekki til að lifa, kenna og vera mönnunum til fyrirmyndar heldur til þess að deyja og til friðþægingar fyrir erfðasynd mannkynsins. Þetta hefir líka oftast verið kenning lútersku guðfræðinnar, því guðfræðislega er lúterskan, og reyndar allur "rétttrúnaður" í nánasta skyldleika við hið kaþólska trúarviðhorf að nokkrum þýðingarmiklum pápiskum sértrúarkreddum sleptum.

Hin kristsmyndin er grundvölluð á samstæðu guðspjöllunum og nærð og fáguð af brjóstviti almenningsins í öllum löndum og ekki þó hvað sízt í hjörtum Íslendinga, sem að náttúrufari eru, fyrst og fremst skynsemistrúar.

Þessi ósamrýmanlegu trúarviðhorf hafa mjög dregið úr mætti kirkjunnar í trúboði sínu og ruglað ráð manna. Hin kennimannlega stétt hefir eytt altof miklum tíma í innbyrðis deilur út af gagnstæðum skoðunum um Krist til þess að beita sér með áhrifaþrótti fyrir aljarðar trúboði; auk þess hefir trúboð þeirra verið svo ósamhljóma, að heimurinn veit ennþá ekki hverju helzt má trúa.

Það má segja lúterskunni það til hróss, að hún hefir lagt mjög mikla áherzlu á Kristtrúna og gert alt til að auka lotningu síns lýðs fyrir Kristi. Hinsvegar verður því ekki neitað, að sumt fólk í þeirri kirkju, og öllum "rétttrúnaðar" kirkjudeild-

um lætur oft og tíðum sér upphrópanir og játningar nægja. Þeir láta sér lynda, að dýrka hann sem guð en hitt láta þeir sér minna varða, hvað hann kendi og hvað hann var, sem mannleg fyrirmynd. Þetta á vita skuld ekki við nærri alla, og í öllum kirkjum finnast menn og konur, sem fyrir sitt andlega samfélag við Krist og hans hugsjónir, opinbera í veru sinni og verkum mátt kristninnar. Þetta á sér auðvitað líka stað í lúterskum sið, en hér fer sem oftast að bókstafurinn deyðir oft andann.

Þriðja persóna guðdómsins, Heilagur andi, hefir aldrei hlotið persónugerð í trúarhyggju Íslendinga, nema ef vera kynni hjá þeim fáu Íslendnigum, er tekið hafa Hvítasunnutrú (Pentecostal). Aþanasíusar-játningin kveður svo á að Heilagur andi sé útgenginn frá Föðurnum og Syninum og í flestum trúarjátningum rétttrúnaðar kirkjudeildanna, þar meðal hinnar lútersku, er honum eignað starf helgunarinnar. Nánast skoðað verður hann því áhrifamagnið og hið andlega innstreymi frá hinni guðlegu tvenning, í hyggju almúgans. Þetta kemur til af því, að menn þekkja engan persónuleika nema hinn mannlega. Bæði Jehóva og Jesús birtast í mannlegri mynd í helgisögnum ritningarinnar og Heilagur andi aldrei.

Menn hefir mjög greint á um uppruna þessarar þrenningar trúar og verður hér engin kostur á að greina frá og bera saman skoðanir guðfræðinganna á því atriði. Benda má samt á, að þríeindar guðstrúin er ekkert sérkennileg fyrir kristindóminn, hennar gætir víðar. Indverjar hafa þrjá höfuð guði: Brahma, Siva og Visnu, og hin fornu trúarbrögð Egypta byggjast á hinni guðlegu fjölskyldu: Ósiris, Isis og Torus. Í guðfræði Egyptanna fornu táknar Ósiris hið föðurlega eliment, Isis hið móðurlega, en Horus hið sonarlega.

Í kristni bendir margt til að þrenningar hugmyndin sé líka komin frá trúnni á guðlega fjölskyldu. Í hellrum þeim (Catacombs), sem kristnir menn notuðu víða fyrir guðsþjónustur, á ofsóknar tímabilinu, sjást ennþá veggmyndir af hinni guðlegu fjölskyldu. Þar er guðfaðir sýndur, sem æruverður öldungur. Guðsmóðir, sem ung og fögur kona og Jesús, guðssonur, sem barnið. Frá þessari fjölskyldu þríeindar hugmynd hygg eg að þrennigar kennig guðfræðinnar sé í fyrstu runnin. Heilagur andi hefir þá táknað hið kvenlega eliment, en svo tekur þetta smámsaman breytingum. Í kaþólskum sið verður guðsmóðirin að nokkurskonar fjórðu persónu guðsdómsins, lítið eitt óæðri en

höfuð þrenningin. Það er til dæmis kenning þeirrar kirkju, að María Jesúmóðir hafi verið upphafin með honum til himins í uppstigningunni og ríki þar sem nokkurskonar æðsti ráðgjafi til eilífðar

Á mínum unglings árum var trúarhugsunin allmjög bundin við Satan og hans vítisveldi. Einn kaflinn í "lærdómskverinu", sem allir unglingar lærðu undir fermingu, var algerlega um Satan og hina föllnu engla, sem með honum gistu í víti. Í guðfræða ritum þeim er kennarar prestaskólans í Reykjavík, þeir Helgi Hálfdánarson og Sigurður Briem sömdu, sem kenslubækur fyrir sína nemendur, er engu síður rætt um djöfulinn og áhrifavald hans í heiminum.

Eg held það sé lítið orðum aukið og engum gert rangt til þótt að því sé hallast, að óttinn við Satan og illvættina hafi enda meiru ráðið um trúarstefnu þátíðarinnar en ástin til guðs og hins góða. Menn leituðu guðs og hans fulltingis fyrst og fremst svo hann mætti vernda þá frá vélabrögðum og ofsóknum hins vonda.

Í einum af kirkjuþings fyrirlestrum sínum segir séra Jón Bjarnason eitthvað á þessa leið: "Mér er engin ánægja að því að þurfa að gera ráð fyrir tilveru djöfulsins, en þegar eg hugsa um það, að þegar menn hætta að trúa á tilveru hins vonda missa þeir oft líka og eðlilega trúna á tilveru hins góða, geri eg ráð fyrir að maður verði að taka trúna á tilveru djöfulsins líka inn í reikninginn." Já, þetta er nú alls ekki svo fráleitt, sem í fljótu bragði mætti virðast, nei það er það alls ekki frá lútersku þátíðar sjónarmiði. Með því að sleppa djöflinum verður lútersk trúfræði undirstöðu- og samhengislaus með öllu. Sagan um fall mannsins í Edens aldingarði verður innihaldslaus nema því aðeins að menn hverfi þá aftur að hinni eldfornu skoðun, sem bregður fyrir í hinum elztu ritum ritningarinnar, að guð sjálfur sé freistarinn. (Þessari skoðun bregður líka fyrir í faðirvorinu, eins og það er alment lesið). Jarðarkoma Krists og fórnardauði getur heldur ekki haft þá þýðingu, sem rétttrúnaðurinn heldur fram ef baráttan var ekki við hin persónulegu máttarvöld né keypti menn undan valdi hins vonda, undan yfirráðum andskotans. Persóna Satans og heimsvald hans er svo lífrænn þáttur í lúterskum kristindómi, að honum er ekki unt að gleyma svo hugmynda kerfið falli ekki með öllu í rústir.

Guðfræðin lúterska hvílir öll á þessum rökum í syllogismu (ályktunarfullu) samhengi.

1. Maðurinn, af guði gerður, var í fyrstunni heilagur og lýtalaus, ódauðlegur og syndlaus.

2. Með því að gegna Satan glatar maðurinn guðsbarna rétti sínum í syndafallinu. Þá snýst hann til fjandskapar við guð og guð yfirgefur hann, þar sem hið algóða hlýtur að vera í andstöðu við hið illa. Hann er útrekin úr sæluvist paradísar til heimsþjáninganna í veröld þjáninganna, sem verður slíkur fyrir misgerðir mannanna að boði djöfulsins. Heimurinn spillist fyrir illverknað mannanna og illra anda. Hann lýtur valdi Satans fremur en guðs, og endalokin verða algerður og eilífur samruni sálnanna við sjálfan djöfulinn í víti.

3. Undan þessum réttláta dómi getur alkærleikur guðs einn keypt mennina. Sá alkærleikur birtist í fórnardauða Krists, sem var sjálfur guð, m. ö. o., guð gat aðeins leyst mannkynið undan réttlætis dómi sínum með því sjálfur að taka sekt þess og áfellisdóm upp á sínar herðar og líða þær þrautir, sem því var áskapað.

4. Maðurinn er hinsvegar sjálfráður hvert hann þiggur þessa sáluhjálp eða hafnar henni. Samkvæmt lúterskum kenningum eru tvö skilyrði nauðsynleg: skírnin og trúin. Skírnin veitir mönnum og börnum guðsbarna þegnréttinn aftur. Hún er hið ytra tákn þess að maðurinn gerist aftur guðsbarn í eiginlegum skilningi. Án skírnarinnar er hann eftir sem áður þegn Satans og syndinni háður, þ. e. a. s. erfðasyndinni. Alt tal um að saklaus börn verði undanþegin þessu lögmáli, er blátt áfram fjarstæða frá lútersku rétttrúnaðar sjónarmiði. Barnið er getið í synd og fætt inn í ríki Satans og heyrir honum til þar til það verður, jafnt sem fullorðnir úr þeim álögum leyst í skírninni.

Skírnin er samt engan vegin einhlít. Hún er byrjunarstigið en til þess að standa í stöðugri þjónustu við guð og njóta þegnréttis í ríki hans þurfa menn að trúa, að vera stöðugur í hinni sönnu og réttu trú. Það var bæði hin helzta skylda og öruggasta hjálparráð mannanna.

Vitaskuld voru altaf til göfugir menn og konur í lúterskum sið er viðurkendu sína skyldu, að breyta að boðum Krists og opinbera þannig þegnskap sinn við konung lífsins og kærleikans. Hitt var þó ávalt meira metið, hjá lúterskri prestastétt, að trúa rétt og kannast þannig við Krist, sem lávarð sinn. Ef menn

efast um þetta mættu þeir sér til upplýsingar lesa ýmsa fyrirlestra Jóns heitins Bjarnasonar, svo sem til dæmis á kirkjuþinginu árið 1891 og nefnir: "Að frelsast, að glatast". Því hann var, eftir því sem eg bezt til veit, síðasti guðfræðingur lúterskrar-íslenzkrar kirkju, sem flutti ákveðnar og ómengaðar kennisetningar sinnar kirkju.

Orð og kenningar margra lúterskra guðfræðinga verða með öllu óskiljanlegar sé ekki þetta trúarviðhorf tekið til greina.

Svo er það með þessi orð Lúters: "Syndgið með fullri djörfung í fullvissu þess, að Kristur getur goldið fyrir ykkar syndir". (Hin tilfærðu orð tekin úr ritinu "The Protestant".) Lúterskan er fyrst og fremst trúarkenning bygð á þeirri fullvissu að fórnardauði Krists gjaldi fyrir mannlegar syndir.

(Um opinberun guðs og um eðli mannsins verður síðar tækifæri að ræða, um hið síðara þegar sagt verður frá deilunni milli Ný-guðfræðinnar og Lúterskunnar, um fyrra atriðið verður talað í síðari köflum þessarar ritgerðar, þegar rætt verður um Únitarismann).

Ekki getur ólíkari trúarbrögð en nútíðar Unitarismann og rétttrúnaðar lútersku. Liggja aðallega tvær höfuð ástæður því til grundvallar. Lúterskan byggir allar sínar trúarkenningar á takmarkaðri opinberun guðs í bókum biblíunnar, eins og hún birtist í orðum og kenningum hinna "innblásnu" höfunda. Unitarisminn þvert á móti bindur sig ekki við neinar slíkar opinberanir heldur aðhyllist þá skoðun, að guð opinberist mannkyninu ávalt og hvarvetna en því skærar og skýrara, sem skynsemi þeirra þroskast meir til að veita þeirri opinberun viðtöku og skilja hana betur. Þessi skoðanamunur grundvallast aftur á gagnstæðum skilningi þessara trúflokka á eðli mannsins. Lúterskan gengur út frá því, að mannkynið hafi glatað guðseðli sínu í syndafallinu og sé í insta eðli sínu ilt og helvizkt. Þessvegna tekur Ágústus kirkjufaðir það sérstaklega fram, að hvert mannsbarn glatist, sem ekki hefir þegið náðina í skírninni og til þess að fyrirbyggja allan misskilning tekur hann það skýrt fram, að sé um tvíbura að ræða er deyja strax eftir fæðinguna, annar skírður en hinn ekki, verði sá sem skírnina hlaut hólpinn en hinn ekki. Þetta er rétttrúnaðurinn í allri sinni nekt. Fyrir únitara er um ekkert syndafall að ræða í hinum upphaflega rétttrúnaðar skilningi og þessvegna engin þörf, fyrir þá, að úti-

loka hugmyndina um samneyti guðs við mennina á nokkrum tíma. eða nokkrum stað.

Yfirleitt er skoðun únitara sú á biblíunni að hún sé bókmenta samsafn vissrar þjóðar, þ. e. a. s. Gyðinganna og undirorpin öllum göllum og vanskilningi bókmentanna hjá öðrum þjóðum, enda beri hún með sér vanskilning frumstæðra manna á lögum og framvindu náttúrunnar, bæði að því er snertir sköpun heimsins, mannsins, dýranna, jurtalífsins og um afstöðu hnattanna í voru sólkerfi og á lögun jarðar. Hún geymir einnig, á sumum stöðum hugmyndir um guð, sem verða að skoðast í fullu ósamræmi við kenninguna um vitran, réttlátan og kærleiksríkan guð. Alt þetta eigna þeir takmörkuðum skilningi og frumrænum hvötum höfundanna.

Þrátt fyrir öll þessi mannlegu vansmíði viðurkenna þeir samt biblíuna, sem mjög þýðingarmikla bók frá trúarbragðalegu sjónarmiði þar sem hún sýnir trúarlegan og siðferðislegan þroska hinnar gyðisku þjóðar og í sumum ritum hennar, jafnvel í sumum ritum gamla testamentisins finnast háleitar trúar- og siðferðis hugsjónir, sem til upphvatningar og lærdóms mættu verða öllum þjóðum á öllum tímum. Í engri trúbók fornþjóða lýsir sér þvílík trúarþrá, þvílík siðferðis alvara, slík réttlætiskend. Þessvegna nota únitarar, jafnt sem aðrir, biblíuna sér og öðrum til uppfræðslu en oft er það samt siður unitariskra presta að lesa jafnframt ritningar greinum valda kafla úr úrvals ritum nútíðar höfundanna og nota þá sem texta við prédikanir. Í þessu efni eru þeir í hinu fylsta samræmi við trúarstefnu þeirra en henni lýsir dr. Frederick M. Eliot, forseti hins Ameriska unitarafélags á þessa leið: "The Unitarian faith is frankly based upon human experience, and the final authority for the interpretation of that experience is in the mind of the individual believer". (Untiara trú er blátt áfram bygð á reynslu mannanna, og þýðing þeirrar reynslu verður að metast af hverjum einstaklingi).

Þótt það hafi orðið reynsla margra únitara, að í trúarjátningu biblíu höfundanna sumra finnist slík trúar einlægni, svo háleitar skoðanir á guðdóminum og svo alvarleg siðvitund, að þessi tjáning trúrækninnar finnist hvergi betri sérstaklega í kenningum Krists. Þetta er auðvitað alt annað en að tjá trú sína á hvert orð og setningu ritningar ritanna, þeir skoða þetta sem leiftur er þrengi sér eins og ljósið í gegnum myrkrið — í

gegnum myrkur vanþekkingunnar, hleypidómanna, og hjátrúarinnar hjá hinum "helgu höfundum".

Únitarisminn er fyrst og fremst skynsemistrú (rationalism) og únitörum virðist þetta skynsamleg ályktun.

Sömu afstöðu taka þeir gagnvart játningunum. Þeir skoða þær í ljósi sögulegra viðburða frá umliðnum öldum, og vita að þær eru sprotnar af tilraunum leiðandi kirkjumanna, að sameina sem flesta undir eitt merki eða til þess að koma samkomulagi á milli andstæðra eða hjáleitra skoðana. Þeir vita vel að þessar játningar eru ófullkomin manna verk, sem þarfnast endurbóta og þeir vita líka að játningarnar hafa gagnstæðar afleiðingar við tilgang sinn, að þær hafa fremur sundrað en sameinað kirkjulýð kristninnar, og þeirra vegna einkum höfum við svo margar kirkjudeildir. Höfuð galla játninganna telja þeir samt hina kirkjulega pólitísku undirhyggju þeirra, er oftast meta kirkjuvaldið meir en sannleikann, þeim er það líka fullljóst að þótt sannleikurinn sjálfur sé í grundvallar atriðunum æ hinn sami tekur skilningur og þekking manna sífeldum breytingum eftir því sem mannkyninu fer fram að andlegum þroska. Þessvegna hafa engar játningar varanlegt gildi, nema þá kanske hinar allra einföldustu og þar af leiðandi trúgjörnustu.

Af þessum ástæðum hafna únítarar öllum kirkjulegum játningum. Þess ber að geta, að í gjörvallri kristninni, að hinni kaþólsku undanteknri, eru játningarnar að glata gildi sínu og það svo að hina ólíkustu kirkjudeildir frá guðfræðalegu sjónarmiði, geta nú sameinast án mikillar hindrunar.

Þótt hin únitariska kirkja hafi enga trúarjátningu hefir hún samt sem áður ákveðna stefnu og ákveðin einkenni. Guðfræði hennar er sérstæð, þótt hins beri líka að gæta að nú orðið hneigist hin frjálslyndari trúarhyggja mjög í sömu átt og það enda hjá lúterskum.

Nú er það að vísu satt, að menn geta ekki gert sér neina hugmynd um guð nema fyrir einhverja guðsdóms opinberun, sem þeir sjálfir taka trúarlega. Rétttrúnaðurinn finnur þá opinberun einna helzt í kraftaverkasögum biblíunnar. Únitarar hafna þessari opinberun að mestu sem ófullnægjandi og í öðru lagi ótrúlegum þar sem þær eru í engum aðal atriðum frábrugðnar álíka sögnum í þeim heiðindómi, sem kirkjan sjálf fordæmir, sem hégómlegum þjóðsögnum. Únitarar leita því guðs opinberunar annarstaðar í náttúrunni, í listum og bókmentum; í

sögu mannkynsins og í manninum sjálfum; í samvizku hans, í hugsjónum hans, í trú hans, sannleika og réttlætis þrá hans og hugmyndaflugi.

Náttúran opinberar hvarvetna sín undursamlegu lög og lögin benda á löggjafan. Fyrir nokkru reit einn af merkustu vísindamönnum þessarar álfu bók um þessa opinberun guðs í náttúrunni og einn lúterskur öldungur og þjóðbróðir þýddi útdrátt úr bókinni, sem amerískt tímarit hafði gert. Hinn merki höfundur tilfærir sjö sönnunar atriði um tilveru guðs og öll eru þau tekin úr náttúrunni og styðjast við afleiðslurök vísindanna. Hann gengur framhjá öllum helgisögnum um sérstaka opinberun guðs til sérstakra manna hjá sérgreindri þjóð á sérstöku og löngu liðnu tímabili sögunnar. Þetta fellur í nákvæmt samræmi við guðfræði únitara og hinnar frjálslyndu kirkju yfirleitt. Einkum og sérstaklega finna únitarar hina gleggstu sönnun um tilvist guðs í framþróunar lögum náttúrunnar þar sem ein líftegundin vex upp í aðra í sífelt meiri fegurð og fullkomnun. Únitarar hafna þeirri kenningu, sem verstu villu að guð sé gengin til hvíldar eða hann hafi fjarlægst mannheim meir en áður. Þeir sjá hann enn að verki í lögum og framrás náttúrunnar.

Þetta útilokar þó engan vegin opinberun guðs í manninum og í gegnum manninn. Þessa opinberun sjá únitarar fyrst og fremst í bókmentum og listum þjóðanna. Í hinum næstum því yfirmannlegu listræni, sem þar birtist og þeim gegnum lýsandi sannleiks vitund sem þar skín í gegnum húm aldanna. Þetta listræni tigna þeir sömu höndinni, sem málaði liljur vallarins og gaf fuglunum unaðs söngva. Þeir trúa því líka, að maðurinn sé ekki einn á ferð í leitinni eftir sannleikanum heldur styrkist hann og upplýsist af guðs anda, sé hann einlægur í þránni eftir meiri þekkingu og fyllri sannleika, og að þessi hjástöð sé ævarandi og gefist öllum þjóðflokkum á öllum öldum. Þeir trúa því nú samt, ásamt Páli postula, að hérna megin grafar horfum við inn í geislageim sannleikans gegnum litað gler og þessvegna sé engin opinberun fullkomin heldur afstæð en sívaxandi.

Únitarar sjá guð líka að verki í sögu mannkynsins, sem leiðberann og kennara. Að vísu gefur hann okkur meira frelsi og meira en okkur hefir ennþá tekist að nota til góðrar gæfu, að því er virðist, en samt hefir heimslýðnum yfir höfuð að tala þokað fram á við til meiri fullkomnunar þrátt fyrir alla vora

heimsku og sjálfskapar víti. Í hegðun þeirra þjóða er mesta siðmenningu hafa hlotið sjáum vér hvert komast má og í hugsjónum mæringanna virðist andi guðs birtast í þeirri framfara hyggju, sem einhvern tíma vonandi breytir þessum hrakta heimi í heimkynni bræðralagsins, réttlætisins og sannleikans. Þessvegna er þjónustan við lífið og göfugustu hugsjónirnar æðsta guðsþjónustan í hyggju hinna sönnu Únitara.

Únitarar finna guð í sjálfum sér; í ábendingum samvizkunnar, í upplyftandi hugsjónum; í þeirri trú er veit guð að verki til framsóknar og framfara og í eðlisþrá mannsins eftir meira ljósi, meiri sannleika, meiri bróðurást og samvinnu. Þetta er það sem Emerson á við þar sem hann kveður svo að orði, að hlutverk hinnar únitarisku trúar sé að gera manninn varan við guð án milliliða. (To acquaint men at first hand with deity).

Hugsun únitara er yfir höfuð sú, að guð sé aldrei fráskilinn heiminum né börnum sínum og þeir geta flestum fremur tileinkað sér þá kenningu, "að í honum lifum, hrærumst og erum vér." Þessvegna hneigjast þeir líka til algyðis hyggju en það flýtur af þessu að gagnstætt guði stendur ekkert djöfullegt persónuvald. Sé guð alstaðar og í öllu, getur ekkert helvíti verið til því guð væri einnig þar og þar sem hann er getur helvíti ekki verið. Ef hann er sjálfur lífsmátturinn og án hans sé algerður dauði getur ekkert líf verið til án hans og þessvegna heldur enginn djöfull. Únitarar hafna því með öllu trúnni á tilvist andskotans og kenningunni um eilífa útskúfun og glötun. Annars heims tilveruna hugsa þeir sér oftast sem beint áframhald af þessu lífi.

Það finnast nú sjálfsagt menn í öllum kirkjum, sem eru fremur veiktrúaðir á annað líf og sjálfsagt eru þeir líka til í únitara kirkjunni. Engum ætti samt að veitast auðveldara, að trúa á annað líf, fyrir þá einföldu ástæðu, að guð er lífið og guð getur ekki dáið.

Yfirleitt hallast únitarar fremur að þeirri hugsjón, að guð sé bæði andi og kraftur, upphafs orsök og meginmagn allrar tilverunnar en engu síður persónulegur þar sem hann hefir sjálfsvitund, áform og siðvitund. Únitarisminn er hrein og ákveðin eingyðistrú. Þessvegna hafna þeir öllum kenningum um þrjá eða fleiri guði eða þríeinan guð. Hann er líka eins og áður hefir verið sagt skynsemistrú og hlýtur því að hafna þeim kenningum, sem beinleiðis koma í bága við alla rökrétta hugsun. Ekkert

getur verið eitt og þrent í einu og að tala um þrjár persónur, sem hver um sig hefir sitt eðli og verkefni eru samt eitt og hið sama er eins mikil fjarstæða og hugsast getur. Það er ómögulegt að hugsa sér persónuleika sem ekki er sjálfstæður og sérskilin frá öðrum.

Kennigunni um meyjarfæðinguna setja þeir á borð við samkynssagnir í trúarbrögðum Indverja og Persa er einnig flytja kenningar um meyjar sonerni þeirra Buddha og Soroazters. Hér er þó ekki um annað að ræða en þær skoðanir, sem kendar eru í guðfræða skólum únitara. Vitanlega geta menn verið meðlimir í únitara söfnuðum enda þótt þeir trúi á meyjar sonerni Krists.

Um Krist kenna únitarar, að þótt hann sé ekki guð, þá sé hann hin æðsta opinberun um guð, sem hægt sé að finna meðal mannanna. Þetta sé vegna þess að hann opinberar í mannlegri mynd þá eiginlegleika, sem við eignum guði: kærleika, vizku, sanleiksast og siðferðislegan fullkomlegleika er lýsir sér ekki hvað sízt í þeirri jafnréttis hugsjón er geislar í gegnum öll hans orð.

Margir únitara guðfræðingar hafa gefið sérstaklegar gætur að orðum og kenningum Jesú og samræmt þær á þann frjálsmannlega hátt, er einkennir alla réttnefnda vísindamenn.

Jesú lagði sérstaka áherzlu á þá skoðun, að guð væri faðir, andlegur faðir allra manna. Þess finnast engin dæmi í kenningum hans, að slíkt föður og sonar samband hafi nokkru sinni verið rofið. Kristur sjálfur kendi, að hann tæki ekkert af sjálfum sér heldur frá föðurnum. Hann beinleiðis kendi að fyrir sambandið við föðurinn væri hverjjum manni flest mögulegt. Hann vék hvorki að því að hann væri öðrum meiri nema þá fyrir þetta samband en því sambandi var hverjum manni auðið að ná. Hann kendi, að guð væri alt í öllu en það væri samt undir hverjum einum komið hversu mikils hann nýtur af sólarljósinu, sem útstreymir frá arni sólar og baðar alla veröld í endalausu geisla flæði, en samt getur maður útilokað sig frá því með því að byrgja alla glugga. Þetta var guðfræði Jesú og þetta er líka guðfræði únitara.

Það er engu síður í siðferðiskenningum, sem únitörum ber saman við Krist. Hann leit á heiminn sem akurlendi er mönnunum hefði verið trúað fyrir að rækta með því að hlynna að lífsþroska hinna fögru og nytsömu jurta en fjarlæga þær skaðsömu og illu. Í dæmisögum sínum líkir hann mönnunum einatt við

þær jurtir jarðar er í aldingarði lífsins þroskast. Hin æðsta guðsþjónusta er að hlynna að vexti og viðgangi þessara jurta og styrkja þær veiku og vanþroska til heilsu og framfara.

Æðsta guðsþjónustan, að þeirra dómi, er mannbetrun.

Samkvæmt lúterskum kenningum er slík mannbetrun ekki möguleg nema með því, að maðurinn verði fyrst leystur undan erfðasyndar sektinni fyrir fórnardauða Krists og sú náð gefist einungis þeim er hafi hina einu sönnu trú. Únitarar leggja líka áherzlu á hina sönnu trú en hún byggist ekki á þeirri skoðun, að maðurinn sé í eðli sínu illur heldur í insta eðli sínu góður af því hann hafi aldrei glatað guðseðli sínu. Það sem menn skortir á í góðleik og göfugmensku eigna þeir vanþroskun og þekkingarleysi en þetta megi bæta og það sá þeirra hlutverk að bæta úr því. Þessvegna leggja únitarar svo mikla áherzlu á upplýsinguna.

Únitarar kenna líka að hver einstaklingur sé ábyrgðarfullur sinna gerða gagnvart guði og enginn annar geti leyst hann undan þeirri ábyrgð. Þeir hafna því með öllu rétttrúnaðar kenningunni um endurlausnina í hinum vanalega skilningi guðfræðinnar. Engum únitara myndi koma til hugar að játa þá skoðun Lúters, er felst í þessum orðum: "Vér ályktum að maðurinn sé hólpinn fyrir trúna, án tillits til verkanna. . . . Kristindómurinn er einkum þetta, að þú hefir tilfinningu, að þú sért, jafnvel meðan þú drýgir syndina, friðkeyptur undan afleiðingum hennar þar sem þú leggur þær upp á herðar Jesú, sem ber þær fyrir þig. . . . Þessvegna getur þú syndgað daglega og með fullri djörfung. . . . Stundum getur það líka verið beinleiðis kristileg skylda að drýgja synd, til dæmis til að blekkja Satan". Til þess að sýna mótsetninguna er auðveldast að tilfæra eina málsgrein úr barnalærdómskveri únitara Unitarian Catechism by M. J. Savage, þýtt af Birni Péturssyni). Málgreinin er um hlutverk kirkjunnar og hljóðar þannig: "Kirkjan á að rækta alt hið göfuga og góða í mannssálinni, að lyfta hugsun manna upp í æðri og fegurri heima; að kenna mönnum að elska guð og kappkosta að líkjast honum; að láta menn sjá dýrð hans og fegurð í allri náttúrunni en einkum þó í fullkomnunar möguleika mannlegrar sálar."

Skal nú gerður samanburður á helztu greinum lúterskrar og únitariskrar trúar:

*Lúterskan kennir þetta um æðstu máttarvöldin:*

Guð er bæði einn og þrennur, þrjár persónur og guð heilagur andi.

*Únitarisminn kennir þetta um sama efni:*

Guð er einn guð, sem birtist sem skapari heimsins í verkum sínum og sem eilífur andi og kraftur og stjórnari náttúrunnar og leiðbeinari mannanna.

Um Krist kennir lúterskan að hann hafi verið bæði sannur guð og sannur maður, fæddur af Maríu mey en getinn af heilögum anda. Aðal þýðing hans fyrir heiminn sé í því innifalin, að hann með krosssdauða sínum og kvölum hafi goldið fyrir syndir mannanna, bæði eigin syndir og erfðasyndina.

Únitarar kenna að í honum hafi opninberast guðseðli mannsins í sinni fegurstu og fullkomnustu mynd. Þeir trúa því að hann beri að virða, sem andlegan leiðtoga, kennara og fyrirmynd.

Um uppruna hins illa kenna lúterskir, að syndin sé í heiminn komin fyrir Satan og að hann hafi enn óskoruð völd í sínu ríki, sem nefnist helvíti.

Um uppruna hins illa kenna únitarar, að hið illa stafi af ófullkomleika manna og vanþekkingu en enginn djöfull sé til og engin vistarvera finnist þar sem guðs áhrifa ekki gæti.

Um annað líf kennir lúterskan að í dauðanum verði maður annað hvert alsæll í paradís eða eilíflega vansæll í víti eftir því hvert maður hefir hina réttu og sáluhjálplegu trú, eða ekki. Á dómsdegi rísa allir upp úr gröfum sínum og sálirnar sameinast aftur þeim líkömum er geymst hafa í jörð og sjó, frá andlátinu til upprisunnar. Hinir sælu rísa upp til eilífrar sælu og samvistar við Krist, en hinir vantrúuðu og villutrúuðu til ævarandi þjáninga í ríki andskotans.

Únitarar hugsa sér eilífðina sem óendanleg þroskastig en þroski og sæla manna annars heims fari eftir því hversu áhrifa næmur maðurinn sé, bæði þessa heims og annars, fyrir guðlegum áhrifum. Um erfðasynd vita þeir ekki annað en það sem reynsln sýnir að ilt innræti gengur stundum í ættir.

(Hér er talað um lúterska guðfræði en játa verður það, að

lúterskir prestar og þó sérstaklega íslenzkir lúterskir prestar prédika nú sjaldan um eilífa vansælu).

Lútersk guðfræði kennir að guðsríki sé aðeins að finna í félagsskap sanntrúaðra manna en þó í allri sinni fullkomnun hvergi nema í himnavist hinna hólpnu.

Únitarar líta á allan heiminn sem guðsríki en fegurð og dýrð þess ríkis birtist skærast þar sem menn iðka sannleika, réttlæti, umburðarlyndi og bróðurást í heilbrigðri samvinnu. Guðsríkið getur verið bæði á himni og á jörðu, því það er fyrst og fremst ástand sálarinnar og undir samvizku manns komið.

Lúterskan kennir að maðurinn hafi verið skapaður sérstaklega, sem syndlaus og ófullkomin vera og þar af leiðandi ódauðleg. Með syndafallinu þ. e. a. s. með því að éta af ávöxtum skilningstrésins í forboði guðs hafi hann glatað guðseðli sínu og ódauðleika.

Únitarisminn kennir að maðurinn sé frá hinum lægri dýrum upprunninn en óendanlega æðri þeim samt þar sem guðseðlið komi glegst fram og njóti sín betur hjá honum en annar staðar í öllu sköpunarveki drottins. Maðurinn, vegna þess, hafi alveg ótakmarkaða framfara möguleika og að takmark hans sé að sýna æ betur og betur guðbarns eðli sitt.

Lútersk guðfræði grundvallast öll á hinum kanónisku bókum biblíunnar og rétttrúnaðurinn viðurkennir ekki aðra ábyggilega guðs opinberun.

Samkvæmt kenningum únitara er allur sannleikur guðs orð og opinberun um guð hvert sem hann kemur fram í listum, bókmentum, siðferðis hugsjónum, lögum náttúrunnar eða í sál og samvizku mannanna. Biblíuna skoða þeir sem þjóðar bókmentir Gyðinga og þær bókmentir séu merkilegar af því þar geymast hinar háleitu siðferðiskenningar Krists og spámannanna. Óskeikula telja þeir biblíuna hinsvegar ekki.

Það er skoðun lúterskra guðfræðinga að hinar viðurkendu trúarjátningar séu hinar sönnu tjáningar og útskýringar á guðsorði biblíunnar. Þær hafa í flestum lúterskum kirkjum lagalegt gildi og prestunum er ekki heimilt að prédika nema í samræmi við þær. Það er nokkuð mismunandi hvaða játingar eru þannig viðurkendar í hinum ýmsu deildum lúterskunnar.

Almennast er að þessar séu viðurkendar: Fræði Lúters hin meiri og minni, Ágsborgarjátningin, Smalcald-greinarnar, og hinar almennu játningar mótmælandi kirkjunnar svo sem hin postullega, — Nikeu — og Aþaníusar játningar.

Únitarar skoða játningarnar aðeins sem sögulegan vitnisburð um trúarskoðanir vissra trúflokka á visssum tímum, er ekkert alment eða varanlegt gildi hefir að öðru leyti. Sjálfir hafa þeir engar játningar og kennimenn þeirra hafa algert skoðanafrelsi. Það er algerlega milli prestsins og safnaða hans hvert kennimáti hans er viðtekinn.

Lútersk guðfræði flytur þá kenningu að kirkjan sé vegur sáluhjálparinnar og með því að hlýða hennar leiðsögn og nota hennar náðarmeðul sé sál mannsins eilífðlega borgið. Þess ber samt að gæta, að þessi sáluhjálplega kirkja fyrirfinst aðeins þar "sem guðsorð er kent rétt og hreint og náðarmeðulin réttilega um hönd höfð. Þar með beinleiðis átt við hina lútersku kirkju.

Únitarar skoða kirkjuna mannlegan félagsskap þeirra er leita eftir meiri þekkingu í trúarefnum; betra bræðralags að leiðsögn Krists og frekari manndómsþroska. Þeir álíta hana stað og stofnun þar sem menn vilja upplýsast af guðs anda og ákalla guð í bæninni. Annað og meira álíta þeir kirkjuna ekki.

Á þessum guðfræðislega grundvelli stóðu kirkjurnar um það leyti sem Íslendnigar greindust hér fyrst í trúflokka. Síðan hefir bilið minkað milli manna af því lúterskir prestar hafa slegið undan í sínum trúar kenningum en únitarar yfirleitt leggja nú miklu minni áherzlu en áður á þjóðfélagslega betrun. Hættan virðist nú sú að lúterskir gleymi sinni guðfræði en únitarar sinni stefnu svo kristindómurinn, meðal Íslendinga í Vesturheimi eigi sér, er aldir renna, hvorki fræðilega undirstöðu né framtíðar stefnu.

Kemur nú til að greina frá félagsþróun únitara kirkjunnar í Vesturhemii og þeim mönnum er mest koma við hennar sögu.

Áður hefir verið getið um Björn Pétursson, er varð fyrstur manna til þess að stofna únitariskan kirkjufélagsskap meðal Íslendinga, árið 1891. Bj(örn hafði fengið góða mentun og var langt kominn í latínuskólanum á Bessastöðum þegar hann vék úr skóla sökum óeirðanna er risu þar gegn Agli Sveinbjörnsyni, skólameistara árið 1850. Björn var háttprúður maður og hvers

manns hugljúfi en ötull og einbeittur samt við starf sitt og stefnu. Þótt hann væri hnigin að aldri lagði hann hina mestu ástundun á starf sitt, sem trúboði í Winnipeg. Fékst hann mjög við að þýða ritgerðir og bækur eftir ameríska leiðtoga únitara. Hann hafði verið þingmaður sinnar sýslu heima í allmörg ár og þótti alt hans starf fara vel úr hendi. Hann var fyrst landnámsmaður í Nýja-Íslandi árið 1876. Hann flutti síðar til Norður Dakota í Bandaríkjunum og bjó þar í allmörg ár. Þar kyntist hann þeim trúarhreyfingum er á tímabili Menningarfélagsins klufu menn í andstæða flokka. Einnig þar syðra kyntist hann prestinum og skáldinu Kristofer Jansen, er þá hafði tekið únitariska trú. Varð þetta alt til þess að Björn tekur að boða þá trú í Winnipeg. Sézt greinilega að frumstyrkur únitaranna kemur að miklu leyti frá Menningarfélaginu í Dakota, en margir af félögunum að sunnan höfðu þá flutt til Winnipeg. Brátt slóust aðrir í hópinn en fáir þeirra, er fyrst stofnuðu þennan félagsskap, munu enn á lífi aðrir en Sigfús Benidiktsson skáld og skáldkonan og kvenfrelsisskörungurinn Margrét Benidiksson.

Vitaskuld mætti þetta trúboð megnustu mótstöðu frá byrjun. Lágu til þess ýmsar orsakir og ekki nauðsynlega allar trúarlegar. Menn vildu halda Íslendingum, sem mest saman og snerust öndverðir gegn öllu sem sundrað gat Íslendingum. Únitörum var borið það á brýn, að þeir stuðluðu að sundrung með því að stofna sérstakt kirkjufélag.

Að hinu leytinu efldi mótspyrnan samhug þessa litla hóps. Leið nú ekki á löngu unz þeir komu sér upp samkomuhúsi eða kirkju. Þótt þetta musteri væri ekkert stórhýsi sýndi það dug og djörfung þessa fámenna félagsskapar, sem í fátækt sinni réðist í þetta tiltölulega kostnaðarsama fyrirtæki. Aldrei var félagsskapur Björns fjölmennur enda féll foringinn brátt í valinn, andaðist árið 1893. Seinni kona hans, af amerískum ættum, reyndi að halda félagskapnum við en eðlilega varð henni starfið erfitt þar sem hún kunni ekki íslenzku en margt af safnaðarfólkinu litla eða enga ensku.

Jón skáld Ólafsson var samstarfsmaður Björns og hin mesta máttarstoð félagsskaparins á fyrstu árum. Jón var eldheitur hugsjónamaður, mælskur og ritsnjall og auk þess ódeigur jafnt til sóknar sem varnar. Flugu gneistar af tungu hans bæði í

bundnu og óbundnu máli. Einnig hans naut þó ekki lengi við í Winnipeg því hann flutti brátt til Bandaríkjanna, árið 1892.

Um stund var söfnuðurinn foringjalaus en séra Jóhann Sólmundsson þjónaði honum þó um stund. Séra Jóhann var fluggáfaður maður og mikill mælsku garpur svo annar meiri hefir naumast verið meðal Vestur-Íslendniga. Hann var þó aðeins bráðabirgðar maður við únitara söfnuðinn í Winnipeg, og hvarf þaðan eftir eitt ár til Gimli, þar sem hann var únitara prestur í mörg ár.

Gerðist þá sá maður þjónandi prestur í Winnipeg meðal únitara, er seint mun gleymast í sögu vors kyns í Vesturheimi. Rögnvaldur Pétursson var af skagfirsku bændakyni og höfðu forfeður hans búið í því fagra héraði, sem búhöldar og prestar um aldir fram. Barn að aldri flutti hann með foreldrum sínum vestur um haf og sleit barnsskónum sem hjarðsveinn í búi föður síns í Sandhæða-sveitinni í Dakota, þar sem faðir hans, Björn Pétursson festi bú. Ungur drakk hann, ásamt bræðrum sínum, Birni, Ólafi og Hannesi, af hinum lífgandi lindum amerísku frjálshyggjunnar. Þarna var hann í sveit glæsilegra ungmenna. Meðal nábúanna voru þeir synir Brynjólfs Brynjólfssonar frá Gilsbakka í Austurdal í Skagafjarðarsýslu: þeir Magnús, Skafti og Björn. Þarna í nágrenni voru líka skáldin: Jónas Hall, K. N. Júlíus og Stephan G. Stephansson; hygginda bóndinn Guðmundur Skúlason, frá Reykjarvöllum í Skagafriði og hinir fluggáfuðu synir hans, lögfræðingarnir: Barði og Skúli. Síðast en ekki sízt má telja skáldið, vísindamanninn og landkönnuðinn fræga Vilhjálm Stefánsson. Mætti enda lengur upp telja en þetta mun ef til vill nægja til að sýna hvaða upplyftingu Rögnvaldur hlaut í þessu samneyti, á ungdóms árunum. Hann var þarna í sveit ungra manna er spyrntu hver annan sporum til framsóknar og ætluðu sér mikið starf til frama. Mátti svo að orði kveða, að annarhver unglingur ætlaði sér að verða: vísindamaður, rithöfundur, stjórnmálamaður eða afburða fjársýslumaður. Flestum tókst það. Hjá mörgum þeirra lifði frelsisþráin og framtakslöngunin fram til hins síðasta, þótt í einstöku tilfellum kólnaði nokkuð sá eldur með árunum. Þeim sem einhverra hluta vegna var varnað langrar skólagöngu urðu fjölfræðingar svo sem Árni Magnússon og Árni Mýrdal. Bændamenningin íslenzka þroskaðist hvergi betur en í Norður Dakota á þeim árum.

Rögnvaldur valdi sér snemma vandasamt en veglegt starf, að verða andlegur leiðtogi sinna samlanda á ótroðnum brautum hinnar vísindasinnuðu trúar-frjálshyggju. Hann hlaut góða mentun til undirbúnings þessa starfs. Auk barnaskólafræðslu, heima í sínu æsku héraði, stundaði hann nám við Wesley College í Winnipeg; þar næst við guðfræðaskóla únitara í Meadville, Pennsylvania, U.S.A., og að síðustu við Harvard háskólann fræga. Mun hann hafa verið í hópi hinna fjölmentuðustu Íslendinga vestan hafs.

Auk þessa átti hann mörg andleg föðurlönd. Í heimahúsum hlustaði hann á sögur og kvæði. Drakk hann drjúgum af þeim mentalindum og varð sú næring honum næsta holl. Engan Vestur-Íslendinga, að St. G. undanskildum, vissi eg honum fróðari í norrænn isögu og bókmentum. Að ýmsu leyti samdi hann sig líka að lífsskoðun hinna fornu víkinga. Varð honum það bæði til gagns og farartálma á hans glæsiegu æfibraut. Hið aldna og höfðingja sinnaða lífsviðhorf gat ekki með öllu samrýmst hinni frjálsbornu lýðhyggju hins verðandi þjóðfélags. Að hinu leytinu veitti það honum djörfung og áræði í hinu erfiða brautryðjanda starfi. Því ber heldur ekki að gleyma að eftir dr. Rögnvald liggur margþætt og merkilegt ritstarf í nýjum og fornum sagna fróðleik. Bar hann á þeim vettvangi höfuð og herðar yfir okkur alla. Áreiðanlega hefði sú starfsemi orðið ennþá ávaxtaríkari ef annir félagslífsins hefðu ekki legið jafn þungt á honum fyrri hluta æfinnar en sjúkdómur hinn síðari. Sem herfang þess sjúkleika hneig hann að velli tiltölulega ungur maður.

Þegar eg les ritsmíðar Rögnvaldar kemur mér oft í hug, að hann hafi verið skáld að upplagi enda þótt eg viti ekki til, að hann hafi við skáldskap fengist að öðru en því, að hann þýddi nokkrar perlur heimsbókmentanna í skáldsögu formi. Hitt er víst, að hann kunni að meta ljóðrænan skáldskap, sem meðal annars sýndi sig með því að hann var upphafsmaður og aðal frumkvöðull þess, að Vestur-Íslendingar réðust í það stórfyrirtæki, að gefa út ljóðasafn Stephans G. Stephanssonar. Auk þess lyfti hann drjúgum undir mörg fleiri vestræn skáld og veitti þeim brautargengi í þeim blöðum og tímaritum, sem hann átti yfir að ráða.

Sem kirkjulegur kennimaður átti hann flesta þá kosti, sem einn prest mega prýða. Hann var rökfastur og röksnjall, mælsk-

ur og orðheppinn. Stólræður hans voru þrungnar af vísindasinnaðri gjörhygli, röttækar og örfandi. Hann var í trúarefnum hreinræktaður únitari, hreinn og ákveðinn og sem aldurinn færðist yfir hannn gerðist hann ákveðnari í trúnni á framhald lífsins og forsjón guðs.

Sem prestur naut hann sín hvað bezt í líkræðum. Hygg eg fáa presta íslenzka taka honum þar fram. Það var sem hann væri að kveðja bræður sína eða systur hvert sinn er hann stóð yfir moldum þeirra er vel og lengi höfðu starfað í víngarði lífsins. Hann var undir niðri viðkvæmur maður og hjartahlýr.

Hann var einlægur Íslendingur og tók virkan þátt í öllum málum varðandi Íslendinga í Vesturheimi. Hann var einn af frumkvöðlum þess að Þjóðræknisfélagið var stofnað og forseti þess um skeið. Hann var ritstjóri tímarits þess er félagið gaf út frá fyrstu og fram að sinni dauðastund — en síðan hefir Gísli Johnson séð um ritstjórnnia. Séra Rögnvaldur ritaði fjölda ágætra greina í ritið. Hann gekst fyrir marghättaðri menningarstarfsemi hér vestra. Til margra ára hélt únitara söfnuðurinn í Winnipeg upp leiksýningum á hverjum vetri og tókst það oft með afbrigðum vel. Leikmannafélag var stofnað til málfunda og fróðleiks í svipuðu formi og Menningarfélagið í Dakota. Góðtemplara deildin "Ísland" átti sinn mesta styrk hjá únitörum og var sú deild við líði í nokkur ár.

Í öllum menningar og félagsmálum Vestur-Íslendinga gætti áhrifa Rögnvaldar, að einhverju leyti og hann var, eins og Jónas Jónssson frá Hriflu kemst að orði: "sjálfkjörinn og ólaunaður ræðismaður Íslands vestan hafs í fjölda mörg ár."

Það hafa einatt orðið örlög atkvæðamanna, að vera brugðið um ráðríki. Satt bezt að segja verða þeir að vera nokkuð ráðríkir eigi nokkuð að ganga, annars geta þeir engan vegin verið foringjar til framsóknar. Vitanlega verða þeir að stilla nokkuð í hóf svo vel eigi að fara. Ekki komst dr. Rögnvaldur með öllu hjá þeirri aðdróttun, en vandasamt myndi nú að ákveða hvenær hann beitti meira ráðríki í einu eða öllu en nauðsynlegt var til framgöngu málanna. Hann átti tíðum úr vanda að ráða. Til þess að verjast árásum andstæðinganna þurfti á festu og lægni að halda. Hitt var þó stundum ennþá vandasamara, að halda félögunum í skefjum og varna upplausn í hinum nýja og lítt þroskaða félagsskap. Án hans handleiðslu og fyrirhyggju myndi únitara hreyfingin naumast hafa náð þeirri útbreiðslu og þroska,

sem hún gerði. Rögnvaldur var einlægur vinur vina sinna og hjálpfús og ráðhollur löndum sínum yfirleitt. Mun fárra manna meira hafa verið saknað úr hópi Vestur-Íslendinga en hans.

Lítill og óburðugur var únitara söfnuðurinn í Winnipeg þegar séra Rögnvaldur tók þar við stjórn. Hann efldist stórum undir hans handleiðslu. Söfnuðurinn óx upp úr litlu kirkjunni á Nina St. Ráðist var í að byggja nýja kirkju á Sherbrook St. Árið 1904 var þessi nýja kirkja fullgerð og vígð. Kostaði hún 13,000 dollara og að mestu borguð þegar verkinu var lokið. Þetta var allstórt hús 36 X 56 að ummáli á tveimur hæðum. Rúmaði kirkjan sjálf, á efri hæð, um 300 manns í sæti. Á neðra gólfi var samkomusalur og einn af aðal samkomustöðum Íslendinga í borginni á eftirfarandi árum.

Únitörum óx styrkur ekki einungis í Winnipeg heldur einnig út um bygðirnar. Rögnvaldur var afar duglegur trúboði og þegar hann lét af starfi, sem prestur safnaðarins í Winnipeg gaf hann sig mjög við því starfi. Auk þessa átti félagsskapurinn fleiri hæfileikamönnum á að skipa.

Um Magnú Skaptason hefir áður verið rætt. Séra Magnús þjónaði sem únitara prestur í Nýja Íslandi, Winnipeg, Piney og á ýmsum fleiri trúboðsstöðum.

Jóhann Sólmundsson gerðist prestur í Winnipeg árið 1902 og þjónaði únitara söfnuðinum þar árlangt. Hann varð síðar prestur safnaðanna í Nýja-Íslandi. Séra Jóhann var gáfumaður með afbrigðum, eldheitur áhugamaður og manna málsnjallastur. Liggur all mikið ritstarf eftir hann þó mest af því sé nú glatað. Hann var óvægur í deilum og sást lítt fyrir, einarður og hreinskilinn við hvern sem var að eiga. Þol hans og stilling var ekki að sama skapi og nutu hæfileikar hans sér því miður en skyldi. Þótt hann væri frjálslyndur og hugsjónaríkur flestum fremur.

Séra Albert E. Kristjánsson vígðist sem prestur til hinna ný-stofnuðu únitara safnaða í Grunnavatns- og Álftavatnsbygðum árið 1909. Séra Albert er einn af mestu mælskuskörungum Íslendinga, víðsýnn, gáfaður og rökslyngur. Það er heilbrigð heiðríkja yfir frjálslyndi séra Alberts. Hann er þar heill en ekki hálfur enda dáir hann enga menn meir en Abraham Lincoln og Theodore Parker. Ef það er hlutverk kristindómsins, að breyta grát í gleði en kvöl í kæti, vildi hann sig allan helga því starfi, svo veröldin yrði hæfilegt musteri fyrir þann guð, sem við köllum kærleika. Kristnin, í hans augum, er engin vermi-

reitsgróður, er illa þolir útilofts storminn á vetvöngum mannlífsins; viðkvæm jurt er einungis getur lifað og þroskast í lognmollulofti hálfkveðnra setninga, þegar menn tala um guð, hans ríki og hans réttlæti, eins og upp úr svefninum. Slíkir menn, sem séra Albert, láta oftast illa að flokksstjórn af því hugsjónirnar eru þeim fyrir öllu. Þeir horfa framundan sér til hærri miða og una ekki í numdu haglendi til lengdar hversu grænt og gott, sem það annars kann að virðast. Oft gefst þeim ekki tími til að athuga hvert almenningurinn gangi í slóð þeirra eða ekki.

Séra Albert er ekta Íslendingur og hefir mikið að honum kveðið á öllum starfsviðum íslenzkra mála hér vestra. Var hann um eitt skeið forseti Þjóðræknisfélagsins.

Nokkru seinna gerist annar atkvæðamaður prestur meðal únitara. Séra Guðmundur Árnason hlaut góða mentun í skólum heima á Íslandi, í Ameríku og á Þýzkalandi, en þangað veik hann til náms af því hann hlaut verðlaun fyrir nám í Meadville prestaskóla únitara. Séra Guðmundur var fræðimaður að upplagi og myndi hafa sómt sér vel, sem háskóla prófessor í heimspeki, sálfræði eða bókmentum. Hann var gætinn, rökfastur og rökslyngur og þessvegna því umkominn, að ræða hvert mál hlutdrægnis- og hleypidómalaust. Alt ofstæki var upplagi hans fjarrænt en samt var hann — kanske einmitt af þessum ástæðum — hinn drjúgasti málafylgjumaður, er kunni manna bezt að verja sinn málstað.

Þessir prestar útbreiddu sínar kenningar engu síður í riti en ræðu. Séra Magnús gaf út tímaritið "*Dagsbrún*" í mörg ár eða þangað til árið 1886. Hefir þessa rits áður verið getið í sambandi við trúmáladeilurnar. Það sem einkendi *Dagsbrún* mest voru hinar mörgu þýðingar af alskyns fróðleik eftir fræga fræðimenn í biblíu kritik, guðfræði og vísindum.

Árið 1904 tók únitarafélagið að gefa út tímaritið "*Heimir*" *Heimir* var í alla staði hið prýðilegasta rit, enda rituðu í það margir hinna pennafærustu Vestur-Íslendingar og voru það engan vegin allir prestar. Fjöldin var þar af fræðandi ritgerðum, bæði þýddum og frumsömdum, um guðfræðaleg-, söguleg-, vísindaleg- og bókmentaleg efni. Fjöldi var þar af frumsömdum kvæðum eftir flest af beztu skáldum Íslendinga vestra: Stephan G. Stephansson, Dr. Sig. Júl. Jóhannesson, Kristinn Stefánsson, Þorsteinn Þ. Þorsteinssson, Sigfús Benidiktsson og fleiri.

Auðvitað bar þar dálítið á trúardeilum en samt furðu lítið,

enda réðust lútersku prestarnir aldrei á *Heimir* með slíku offursi sem á *Dagsbrún*, í fyrri daga. *Heimir* hafði líka betri aðstöðu; álit heimsins frægustu fræðimanna var þá miklu betur kunnugt almenningi en á allra fyrstu árum hreyfingarinnar meðal Vestur-Íslendinga.

Skiljanlega veittist almenningi samt erfitt að átta sig á hinum nýja sið. Í sjálfu sér vissi hann lítið og hirti þó ennþá minna um hina guðfræðalegu undirstöður trúarbragðanna. Það lá í vitund þeirra, að með því að kasta trú feðra sinna væru þeir að vanvirða minningu þeirra. Þeir höfðu lært sinn kristindóm við móðurknén. Þessar alþýðukonur kendu börnum sínum fyrst og fremst það, sem þeim hefði orðið helzt til styrktar og huggunar í lífsbaráttunni, m. ö. o. þær kendu börnum sínum það bezta í lúterskum trúarbrögðum. Guðfræði sú, er prestarnir síðar reyndu að kenna unglingunum tóku sjaldnast djúpar rætur. Fólk taldi sig lúterskt en lét sig oftast litlu skifta hvað væri í raun og veru hin eina og sanna lúterska, frá guðfræðilegu sjónarmiði. Þótt þarna gætti, að vísu, nokkurs tvískinnungs var almenningur sér þess naumast meðvitandi. Prestarnir heima hölluðust líka mjög að þessari skoðun almennings og um og fyrir aldamótin síðustu voru þeir næstum því alveg hættir að prédika um erfðasynd og útskúfun. Sumir helztu prestarnir voru næstum því alveg únitarar í skoðunum, svo sem: Matthías Jochumsson, Páll Sigurðsson, Jónas Jónasson (hann gerðist guðspekingur síðar meir), Arnljótur Ólafsson o. fl. Það reið því að hlustum manna, sem þrumuhljómur, er íslenzku prestarnir hér tóku að prédika þeim hreina og beina lútersku, sögðu meðal annars að menn gætu ekki trúað á guð nema jafnframt að trúa á tilvist djöfulsins. Það er hægt að setja þetta upp eins og hvert annað rökfræðis dæmi (syllogism) þannig:

*Frumlag (major premise):* Til þess að trúa á guð verða menn líka að trúa á tilveru djöfulsins.

*Viðlag (minor premise):* Án þess að trúa á guð verða menn ekki sáluhólpnir.

*Útkoma (conclusion):* Engin verður því sáluhólpinn nema hann trúi á tilveru djöfulsins.

Það bjargaði almenningi, að hann hugsar sjaldnast svo rökrétt sem Aristotle. Hinsvegar stóð hann í talsverðum vanda andspænis þessari nýju lútersku kristindóms boðun. Bókstaflega held eg að fáir hafi fallist á hann innra með sjálfum sér.

Hinsvegar stóð margt því til fyrirstöðu, að fjöldinn yfirgæfi lútersku kirkjuna og leituðu sér skjóls hjá íslenzkum únitörum, eins og þá stóðu sakir.

Fyrst og fremst var framkoma sumra únitara þeim fráhrindandi. Þess verður að gæta, að inn í hinn únitariska félagsskap drógst fólk stundum fremur af andúð gegn lúterskunni en af jákvæðum hvötum og trúarþörf. Sumir þessara manna töluðu af megnustu fyrirlitningu um öll trúarbrögð. Þótt þesssir menn væru í miklum minnihluta innan únitarafélagsins flugu storkunar orð þeirra víða og fólki hætti við, að gera þau að vantrúar yfirlýsingu allra únitara. Menn gerðu sér ekki grein fyrir þeim mismun, sem á sér stað milli frjálsra og játningar bundra trúarbragða. Únitörum er frjálst að trúa hverju sem þeim sýnist alveg eins og lærisveinar Jesú gátu trúað hverju sem þeir vildu, á hans hérvistar dögum, og náði þetta jafnt til postulanna, sem annara. Kristur krafðist engra játninga.

Einkum voru það orðræður únitara um biblíuna og Krist, sem hneyksluðu marga lúterska.

Únitara prestarnir töluðu yfirleitt virðulega um biblíuna. Auðvitað höfnuðu þeir, eins og hin frjálslynda kirkja alstaðar, kenningunni um bókstaflegan innblástur hennar. Þeir álíta hana samt merkilega bók og heimildarrit um trúar framþróun fornþjóðanna. (Um þetta atriði verður síðar rætt í sambandi við Nýju guðfræðina svo kölluðu). Eins og gengur féllu oft særandi orð af vörum manna í þessum trúardeilum, og við bar það, að únitarar gerðu, stundum, gys að bókstafstrú sinna andmælanda. Reyndar hefir íslenzk alþýða aldrei verið mjög biblíu trúuð, og ekkert nálægt því eins bókstafssinnuð, sem almúginn í ýmsum öðrum löndum; en þeim var samt frá barnæsku innrætt virðing fyrir ritningunni og það særði þá að heyra henni hallmælt.

Um margar aldir hefir Kristur verið miðpunktur íslenzkrar kristni og þó persóna hans langtum meir en kenningar. Þeir hugsuðu sér hann ávalt sem guð og gátu ekki felt sig við, að hugsa um hann öðruvísi eða sem mann. Sem eingyðistrú hrein og bein gátu únitarar auðvitað ekki fallist á slíka guðfræði og vildu heldur nota það orð, sem hann oftast hafði um sjálfan sig "Mannsins Son". Um og fyrir aldamótin var þetta næsta nýstárleg kenning í kristnum kirkjum enda þótt hinn frjálslyndi kristindómur hafi nú alment hallast að honum. Það er með öllu

rangt, að í þessu felist minsta vitund af vanvirðingu fyrir Kristi heldur öllu fremur, meiri virðingu fyrir honum sem persónu er gnæfir svo tignar fögur í samvizku og manndómi upp yfir heimslýðnum, enda er honum hvergi dásamlegar lýst en hjá Renan, franska heimspekingnum, er ritaði hina sígildu æfisögu Krists "Vie de Jesus", og líkt mætti segja um hina meistaralegu fræðibók "Leibens Jesu" eftir Straus. Sama er að segja með sálmaskáldin. Margir af hinum fegurstu sálmum hafa ortir verið af únitörum. Má nefna sem dæmi slíka sálma, sem: "It Came Upon the Midnight Clear"; "O Thou Great Friend of All the Sons of Men"; "In the Beauty of the Lilies Christ Was Born Acrss the Sea" og langtum fleiri. Bæta mætti því við að bæði Milton og Matthías höfðu únitariskar skoðanir.

Í fyrstunni voru únitarar talsvert biblíu fastir en í ritningunni fundu þeir litlar sannanir fyrir meyjarfæðingunni enda geymir hún lítið um þau efni annað en draum Jósephs, sem aðeins er að finna í Matthíasar guðspjallinu. Sjálfur hefir Jesús hvergi haldið því fram, að hann hafi verið í heiminn borinn með öðrum hætti en aðrir menn. Mætti það þó undarlegt teljast ef sáluhjálp manna væri undir því komin.

Samt sem áður fundust margir og finnast enn, sem þykir úr tign hans dregið með því að nefna hann "Mannsins Son". Sú skoðun kemur samt að engu leyti í bága við guðfræði Krists, sem lagði áherzluna á guðseðli allra manna og getur hvergi um erfðasynd. Þetta kemur hinsvegar í bága við lúterskan rétttrúnað af því Kristur gat ekki verið syndlaus ef hann erfði syndina frá feðrum sínum. Þetta atriði aðskilur lúterska og únitara fremur öllu öðru nú á dögum en eftir því sem lúterskan færist meira í frjálslyndis áttina mun minna á því bera í framtíðinni. Guðfræða stefnur nútíðarinnar benda ótvíræðilega í þá átt.

Únitarisminn, sem önnur trúarbrögð, verður líka að taka breytingum og laga sig meira eftir kringumstæðum tímanna. Hingað til hafa allar kirkjur aðeins boðað einstaklings siðfræði. Heimurinn fer minkandi þar sem fjarlægðirnar hverfa og einstaklingarnir þrengjast inn í félags samlífið. Eigi kristindómurinn að eiga sér framtíð verður hann að verða langtum félagslegri og þar af leiðandi pólitískari í framtíðinni. Hann verður að boða félags-siðfræði svo guðsríkis hugsjónin verði að veru-

leika, en kristindómur Krists var fyrst og fremst félagslegur í innræti sínu.

Þótt únitarisminn, bæði meðal Íslendinga og annara, fengi seinan félagslegan þroska, hafði hann engu að síður mikil áhrif á alt trúarlíf.

Nú skal horfið að safnaðar þroska íslenzka únitarismans vestan hafs. (Það eru tiltölulega miklu fleiri Íslendingar únitarar í Ameríku en af nokkrum öðrum þjóðflokki). Í fyrsta hefti þessa rits er getið um frávikning séra Magnúsar Skaftasonar, frá lúterskunni. Strax og únitarskur söfnuður myndaðist í Winnipeg gengu frjálstrúar söfnuðirnir í Nýja-Íslandi í félagsskapinn og myndaðist þar fyrsti vísir til kirkjufélags.

Únitarskir trúboðar fluttu nú brátt boðskap sinn út um bygðirnar. Náðu þau trúarbrögð brátt rótfestu í hinum ungu bygðum við Manitoba-vatnið. Skömmu eftir aldamótin gerðist ungur og bráðgáfaður háskóla námsmaður, Thorvaldur Thorvaldson, alþýðuskóla kennari í hinni svonefndu Álftavatnsbygð. Hann var einlægur únitari og mun hafa breytt trúarstefnu sumra bygðarbúa. Sunnudaginn þann 5. marz árið 1908 var svo únitara söfnuður stofnaður í húsi Högna Guðmundssonar að Mary Hill. Var þessi félagsskapur nefndur "Hið únitariska félag Íslendinga við Manitoba-vatn". Var á fundinum samþykkt að kaupa skólahús héraðsins og breyta því í kirkju. Í safnaðarnefnd voru þessir kosnir: Jón Sigurðsson, Páll Reykdal, Guðmundur Guðmundsson, Eiríkur Guðmundsson, Thorsteinn Jóhannsson, Björn Rúnólfsson Austman og Sigurjón Jónsson. Var Albert Kristjánsson, þá guðfræðanemi, kvaddur til að þjóna söfnuðinum yfir sumar mánúðina.

Ári síðar var annar söfnuður stofnaður, 12. sept., í hinni svo nefndu Grunnavatnsbygð fyrir austan Lundar. Var það einkum fyrir trúboðsstarfsemi séra Alberts Kristjánssonar það sumar, að söfnuðurinn var stofnaður. Fólk sem flutti frá Nýja-Íslandi, einkum Mikley, átti líka góðan þátt í stofnun þessa safnaðar. Má þar tilnefna Pétur Bjarnason, Jóhann Straumfjörð, Einar Johnson, Oddfríði Johnson, Ingimund Sigurðsson, og fleiri.

Þessir voru kosnir í safnaðarnefndina á fyrsta fundinum: Pétur Bjarnason, forseti; Oddfríður Johnson, vara-forseti; Steinþór Vigfússon, ritari; P. Pétursson, vara-ritari; Einar Johnson, féhirðir, og sem meðráðamenn, Ingimundur Sigurðs-

son og Mrs. Sigríður Hördal. Söfnuðurinn hlaut nafnið "Ljósvaka". Þess má geta að Guttormur skáld Guttormsson var einn af stofnendum þessa safnaðar. Söfnuðurinn gekk tafarlaust í únitarska kirkjufélagið. Bar Oddfríður Johnson fram þá tillögu en Guttormur J. Guttormsson var stuðningsmaður, var tillagan samþykt með öllum atkvæðum en nokkuð yfir 20 manns sátu fundinn. (Þess má geta að þá voru um 40 manns í Mary Hill-söfnuðinum). Eftir nafnaskrá sem lögð var fram á safnaðarfundi árið 1913, var tala meðlimanna í Ljósvöku-söfnuði 63.

Tekið var fyrst að ræða um kirkjubyggingu á safnaðarfundi, sem haldinn var 3. nóv. 1913, fram til þessa höfðu messur verið fluttar í Norðurstjörnuskólanum eða heimahúsum. Kirkjunni var komið upp og tekin til afnota sumarið 1915; var fyrsti safnaðarfundur haldinn í hinni nýbygðu kirkju 17. nóv. 1915. Stærð kirkjunnar er 32 X 24 fet með söngpalli sem er 12 X 14 fet. Það hjálpaði söfnuðinum stórkostlega við þetta kirkjusmíði, að prestur safnaðarins, séra Albert, vann honum endurgjaldslaust á þessum árum. (Hefir að líkindum fengið einhvern styrk frá únitara félaginu í Ameríku, en stundaði annars búskap). Þessi kirkja var síðar flutt til Lundar er söfnuðirnir sameinuðust, árið 1931. Kirkjan að Mary Hill var á sama ári flutt til Oak Point.

Hið únitariska, íslenzka kirkjufélag var stofnað árið 1903. Það beitti sér fyrir mörgum menningarmálum meðal Vestur-Íslendinga og var og er aðal máttarstoð hins frjálslynda kristindóms meðal þeirra. (Verður síðar nánar greint frá sögu þess eftir að únitarar sameinast hinum frjálslyndu söfnuðum er fylgdu stefnu séra Friðriks sál. Bergmans eftir að hann yfirgefur lúterska kirkjufélagið). Kirkjufélag únitara gengst fyrir sunnudagaskólahaldi í flestum eða öllum söfnuðum sínum. Þessir sunnudagaskólar voru á íslenzku lengi fram eftir og eins og hjá lúterskum. Var verndun tungunnar mikil stoð að því. Únitarar ráku trúboð sitt í mörgum sveitum og voru söfnuðir stofnaðir í ýmsum stöðum. Um Winnipeg söfnuðinn og söfnuðina í Álftavatns- og Grunnavatnsbygðum hefir nú verið talað. Einnig voru söfnuðirnir í Nýja-Íslandi, sem um er rætt í fyrsta kafla sögunnar, vel vakandi. Auk þess voru söfnuðir stofnaðir í Piney, hann er enn við líði; í Selkrik en hann átti sér skamman aldur; í Norður Dakota, hann var þó skamma stund við líði; í Foam Lake-bygð, hann er nú liðinn undir lok fyrir mörgum

árum. Ef til vill hafa söfnuðirnir verið enn fleiri þótt mér sé ekki um það kunnugt.

Fólk með únitariskar skoðanir var líka á dreifingu um allar bygðir Íslendinga í Vesturheimi, þótt þeir hefðu ekki mátt til félagslegra samtaka.

Hin mikla breyting, sem orðið hefir á prédikunarmáta lútersku prestanna er áreiðanlega að nokkru fyrir áhrif únitara. Margar stólræður, fluttar í lúterskum kirkjum, gætu alveg eins verið fluttar fyrir únitörum. Slíkar prédikanir ollu hneykslun á mínum fyrstu prestskapar árum, 1914 og 15. Kirkjusiðirnir eru vitaskuld nokkuð öðru vísi hjá þessum tveimur kirkjudeildum. Altarisgöngur tíðkast enn í lúterskum kirkjum með þverrandi þátttöku samt. Altarisgöngur eru líka stundum um hönd hafðar í únitara kirkjum, með nokkuð breytilegum hætti. Sama er að segja um skírnina, fermingu og enda jarðarfarir. Við engar af þessum athöfnum eru játningar upplesnar hjá únitörum.

Trúmála deilurnar hafa alveg fallið niður og munu flestir því fagna, en spursmál samt hvert þverrandi umræður um trúmál hafi ekki deyfandi áhrif á söfnuðina. *H. E. J.*

# Nokkrar Sambandskirkjur



Sambandskirkjan og samkomuhúsið í Riverton



Sambandskirkjan á Gimli



Sambandskirkjan á Lundar



Sambandskirkjan í Winnipeg



Sambandskirkjan á Oak Point



Kirkja Quill Lake safn., Wynyard



Sambandskirkja í Árnesi



Sveitarkirkjan í Piney

# Eg hef mín augu upp til þín

*Eg hef mín augu upp til þín
þú alheims mildi faðir.
Þú hefir verið hjálpin mín
um heimsins alda raðir.*

*Er fyrsti geislinn gylti fjöll
þú gafst mér neistann bjarta,
og síðan hefir ást þín öll
mitt endurljómað hjarta.*

*Það ljós mér hefir lýst svo bjart
á lífsins myrku stundum,
að hraunið er mér sýndist svart
fékk svip af blómstur-grundum.*

*Eg hræðist engin myrkra-mein,
ef mig, þú faðir leiðir.
Þín sól, er fyrst svo skært mér skein,
úr skuggum öllum greiðir.*

*Þú, engu þinna barna brást,
en blessun gafst oss þína.
Þín handleiðsla og eilíf ást
mun æ oss veginn sýna.*

*Þitt ljós mun fegurst lýsa þó
er legst að nóttin svarta,
þá finnur andinn frið og ró
og frelsi, — við þitt hjarta.*

P. S. Pálsson

# Frú Marja Björnson

Frú Marja Björnson er dóttir Gríms og Sveinbjargar Laxdal. Hún fluttist sem unglingur til þessa lands og giftist Dr. Sveini Björnsyni, árið 1916.



FRÚ MARJA BJÖRNSON

Frú Björnson er hin mesta starfs og dugnaðar kona, vel gáfuð og framúrskarandi áhugasöm fyrir öllum menningar og framfaramálum mannfélags síns. Heimili þeirra Björnsons hjónanna er alkunnugt fyrir gestrisni og myndarskap. Ber þar alt vott um rausn húsfreyjunnar og fegurðarsmekk hennar.

Hún hefir ætíð verið mjög félagslynd og tekið mikinn þátt í flestum félagsmálum bygðarinnar, og hlíft sér hvergi við örð-

ugleikum þeim og ábyrgð, sem því eru samfara. Hæfileikar hennar sem leiðtoga hafa ætíð sannað sig hvar, sem hún gengur að verki. Alt frá því að Sambands kvenfélögin gengu í sameiginlegan félagsskap, hefir hún lengst af verið forseti þeirra, og lagt á sig mikið og merkilegt starf til viðhalds og gengis félagsskaparins. Hún var ein af aðal frumkvöðlum þess, að sumarheimili barna yrði reist á Hnausum, og öll þau ár, sem það hefir starfað, hefir hún verið óþreytandi að vinna að velferð þess og viðhaldi. Lengst af hefir hún verið forseti nefndar þeirrar, sem lítur eftir heimilinu, og margt dagsverk hefir hún sjálf lagt í það. Hin síðustu ár hefir hún verið ein af forstjórum Hinna sameinuðu kvenfélaga únitara kirkjunnar í Boston, og sótt þing þangað nokkrum sinnum.

Mrs. Björnson er vel gefin kona, vel máli farin, einörð og trú áhugamálum sínum. Hún er hin mesta mannúðarkona, sem vill öllum góðum málefnum vel, og það sem er lofsverðara, hún er fús til að leggja hönd á plóginn, svo að þau nái framgangi.

——— *E. J. Melan*

# Frú Ólína Pálsson



FRÚ ÓLÍNA PÁLSSON

Frú Ólína Pálsson er ættuð af Austfjörðum, kom ásamt foreldrum sínum til þessa lands á unga aldri. Árið 1910 giftist hún Páli S. Pálssyni og hafa þau búið í Winnipeg.

Frú Pálsson hefir lengi starfað að frjálslyndum kirkjumálum í Winnipeg. Hún hefir jafnan verið í kvenfélagi Sambandssafnaðarins þar, og var um eitt skeið forseti þess. Á hennar stjórnartíð jókst meðlimatala félagsins að miklum mun fyrir ötulleika hennar og vinsældir. Hún hefir einnig verið árum saman í stjórnarnefnd kvennasambandsins og verið féhirðir þess og leyst það starf af hendi með hinni mestu reglu og dugnaði.

Alla þá tíð, sem Sumarheimilið hefir starfað, hefir hún unnið mikið verk til viðhalds þess. Það er örðugt starf að halda við slíkum fyrirtækjum ef vel á að fara; til þess hefir, eins og eðlilegt er, þurft talsvert fé. Á því sviði hefir frú Pálsson gengið vel fram á liðnum árum, og haft mikla fyrirhöfn á ýmsum öðrum sviðum í sambandi við starfræksluna. Mætti nefna meðal annars umsjón hennar árum saman að sjá um hópa barnanna, er þeir fara úr bænum til Sumarheimilisins, og eins þegar börnin koma heim. Alt þetta annaðist hún mörg sumur með hinni mestu alúð og kostgæfni vegna þess eins, að hún hafði trú á góðu málefni, og vilja til að fórna því tíma sínum og vinnu.

Frú Ólína Pálsson er ein af okkar beztu starfskonum, hrein í lund og ákveðin í skoðunum sínum og trygg hverju því máli, er hún veitir fylgi sitt. Hún hefir unnið mikið starf til góðs í félagsmálum vorum og á miklar þakkir skilið.

*E. J. Melan*

---

# Páll S. Pálsson



PÁLL S. PÁLSSON

Páll S. Pálsson er Borgfirðingur að ætt, f. 17. sept. 1882, kom til þessa lands árið 1900, gekk á verzlunarskóla í Winnipeg og hefir jafnan stundað viðskiftastörf. Er nú starfsmaður við Heimskringlu. Hann kvæntist árið 1910 Ólínu Anderson og hafa þau ætíð búið í Winnipeg.

Páll S. Pálsson er mjög vel gefinn maður og fjölhæfur. Hann hefir ætíð tekið mikinn þátt í félagsmálum Íslendinga í Winnipeg, um margra ára skeið hefir hann verið í safnaðarnefnd Sambandssafnaðarins þar, og í leikfélagi safnaðarins. Í kirkjufélagsnefndinni hefir hann verið síðan kirkjufélagið var stofnað og verið féhirðir þess. Hefir hann gengt því starfi með hinni mestu alúð og vakað yfir velferð félagsins með þeim áhuga, sem sýnir hve ant honum er um hag þess og velgengni.

Eins og áður er getið um, hefir hann tekið mikinn þátt í félagsmálum og er því vel þektur maður og vinsæll í mannfélagi sínu, en kunnastur mun hann Íslendingum út í frá, bæði hér og heima, fyrir skáldskap sinn. Kvæði hans hafa birst í blöðum og tímaritum hér vestra, og birtust sum þeirra í ljóðabók, er hann gaf út 1936, og heitir: "Norður-Reykir". Mér dettur í hug ein vísa úr bókinni, hún er svona:

Að baki hlíðin brosir græn
með blóma fjöld,
og hlustar eftir hugsun þinni
um heiðrík kvöld.

Í kveðskap sínum og viðkynningu er Páll barn sumarsins, baksýnin er sumargræn hlíð skrýdd mörgum blómum, sem eigi aðeins eru baktjald heldur hluti af hans eigin sál. Alstaðar bera kvæðin vott um hlýju sumarsins, sem gjarnan vildi verma alt, verma öllu, sem er kalt og skelfur í myrkri sorgar og einveru, öllu sem aðrir hafa gleymt eða níðst á. Það er það sem sannur sonur sumarsins þráir ætíð að gera, riddaraskapur hins andlega karlmennis, sem hefur sig upp yfir nepju, kaldhæðni, fyrirlitningar og hirðuleysis inn í heim sumarsins, sem lætur alt lifa og gleðjast.

En Páll á líka aðra hlið. Á samkomum og mannamótum hefir hann flutt fyrir mönnum gamankvæði sín og gert mörgum glatt í geði. Eg efast um að hann eigi marga sína jafningja á því sviði á meðal íslenzkra skálda. Hann er glöggskygn á tildrið og hégómaskapinn, heimskuna og auvirðileikann, í tilveru mannanna og hefir skáldgáfu til að móta úr því myndir úr orðum er falla í stuðla.

Oft hefi eg óskað þess að hann gæfi út þessi gamanljóð sín. Vér erum vart of kát og höfum öll gott af því að hlægja, og við höfum einnig gott af því að sjá okkar eigin galla dregna upp á þann hátt, að þeir verði minnisstæðir og fari fækkandi fremur en aukist ósjálfrátt og óafvitandi. Þessi grein ljóðagerðar Páls hefir því tvöfaldan boðskap, að gleðja og tipta á góðlátlegan hátt, og reynslan sannar að það er góð aðferð.

*E. J. Melan*

# Dr. Sveinn E. Björnson


DR. SVEINN E. BJÖRNSON

Dr. Sveinn E. Björnson er fæddur á Lýtingsstöðum, Vopnafirði, 13. okt. 1885. Ætt hans er af Austfjörðum að mestu leyti. 18 ára fluttist hann ásamt foreldrum sínum til þessa lands. Gekk um tíma á verzlunarskóla og svo á Wesley College og útskrifaðist þaðan, las síðan læknisfræði á Manitoba háskólanum og útskrifaðist 1916. Var fyrst læknir á Gimli, fluttist þaðan til Árborg þar sem hann var héraðs-læknir frá 1919—1945. Hann er nú læknir á Siglunesi, Man. Kona hans er Marja Laxdal. Þau eiga tvö börn á lífi: Dr. Sveinbjörn, sem er læknir í Ashern, Man., og Marion Benedictson, Regina, Sask.

Sveinn læknir er maður vel mentaður og fjölhæfur. Á hinum mörgu árum, sem hann hefir rækt læknisembætti sitt hér í bygð, hefir hann eignast fjölda vina, eigi einungis sem læknir heldur sem góður félagsmaður. Hin alúðlega gestrisni þeirra hjónanna er alkunn, og þátttaka þeirra í félagsmálum, þar sem þau lögðu fram liðsinni sitt með ráðum og dáð.

Sveinn er kunnur almenningi sem skáld. Hann hefir um mörg ár birt í blöðum og tímaritum kvæði sín, og gefið þau út i sérstakri ljóðabók, er hann nefnir "Á heiðarbrún". Ljóð hans lýsa prúðum manni með næmri tilfinningu fyrir fegurð náttúrunnar, og fegurð íslenzkrar tungu og ást til ættlandsins, sem hann sér ennþá af heiðarbrún minninganna. Þau lýsa ennfremur trúmanni, sem finnur í tilverunni stjórn og handleiðslu æðri máttar; skáldið sér "í ljóssisns litum lífsins öruggu höfn".

Ljósastur vottur um samúð læknisins og vináttuþel hans við samferðamennina, eru hin mörgu tækifæriskvæði hans, eftirmæli, brúðkaups- og silfurbrúðkaupskvæði. Þau lýsa eigi aðeins skáldgáfu hans heldur og félagslyndi og velvild hans. Öll þessi

ljóð eru bjartur kafli í sögu bygðarinnar, rósgluggi er varpar þýðum blæ inn í rökkurdimm bogagöng áranna liðnu.

Dr. Sveinn Björnson er vel lærður maður og les jafnan fjölda góðra bóka, er vel máli farinn og vel ritfær á óbundið mál. Hann er frjálslyndur trúmaður og hefir lagt á sig mikið starf í þágu kirkjumálanna. Síðan Sambandssöfnuðurinn var stofnaður í Árborg hefir hann jafnan verið í stjórn hans, oftast forseti hans. Ritari í stjórnarnefnd kirkjufélagsins var hann í mörg ár.

Auk ljóðagerðarinnar hefir hann í tómstundum sínum lagt stund á tafl. Hann er ágætur í þeirri íþrótt, auk þess var hann góður smiður á yngri árum, glímumaður og söngmaður, hinum mörgu hæfileikum sínum hefir hann varið til góðs. Fáir menn eru honum vinsælli.

---

# Nokkur orð um Hannes Peturson



HANNES PÉTURSON

Á kirkjuþingi Sameinaða kirkjufélagsins, sem nú fer í hönd, hefir verið ákveðið að minnast 25 ára afmælis þess. Þykir Brautinni eiga vel við að minnast í fám orðum nokkurra þeirra, er mest koma við þá sögu.

Og framarlega í hópi þeirra manna má fyrverandi forseta þess telja, Hannes Péturson.

En þó hann væri einn af þeim, er í ráðum voru með stofnun þess og hafi stöðugt síðan verið einn af ótrauðustu stuðningsmönnum þess og árin 1943—44 og 45 forseti þess, er þó ekki nema lítið eitt af starfi hans með því talið í þágu frjálstrúarmála Íslendinga í Vesturheimi.

Er hann kom til Winnipeg stuttu eftir aldamót tók hann

ótrauðlega til starfa í frjálslyndis trúmálahreyfingunni og í starfi únitara kirkjunnar í Winnipeg byrjaði hann snemma að taka mikinn þátt, stofnaði þegar á unglingsárunum Ungmennafélag hennar og stjórnaði lengi, og fór um leið mjög snemma, að taka þátt í stjórnarnefndar starfi Sambandssafnaðar. Og eins og hann óx hér brátt í því starfi, er hann gerði að lífsstarfi sínu, eins fór þátttaka og áhrif hans vaxandi innan frjálstrúar starfseminnar, unz segja má nú, að stjórn og eftirlit þess starfs hafi mörg síðari árin hvílt manna mest á honum.

Hannes var einn af stofnendum ritsins "Heimir" og skrifaði nokkuð í það á fyrri árum. Er þeim, er þetta skrifar til efs, að á íslenzku hafi nokkurt rit, fyr eða síðar, átt eins mikinn þátt í að efla skoðanafrelsi og þetta rit. Hannes var og einn af stofnendum hins nýja rits frjálstrúarmanna "Brautarinnar".

Það væri freistandi að skrifa hér lengra mál um Hannes Péturson en rúmið leyfir; um hvernig hann hefir staðið sig á svellinu í lífsbaráttunni, sem beið allra innflytjenda til þessa lands. Það hefir margra verið minst, er minna hafa þar látið til sín taka. Í fjársýslu er hann hér í hópi hinna fremstu manna. En út í þá sögu er hér ekki hægt að fara.

Hannes er fæddur á Ytri-Brekkum í Skagafirði, en kom vestur um haf með foreldrum sínum, Pétri Björnssyni og Margrétu konu hans og systkinum árið 1883, barn að aldri. Var séra Rögnvaldur einn þeirri systkina. Hannes gekk hér á Wesley College, varð þá barnakennari, lagði síðan fyrir sig bankastörf og byrjaði úr því fjármálaferil sinn. Hann giftist 1906 Tilly Sigurðsson. Eiga þau eina dóttur, Unu Maríu, gifta íslenzkum lyfjafræðingi Robert Louis Stephenson.

Hannes er ljúfmenni í viðkynningu, skarpgáfaður, snjall og einarður ræðumaður; hefir flutt fjölda erinda bæði um kirkju- og þjóðræknismál vor vestra og verið félagsmálum Íslendinga hinn þarfasti maður.

## Sveinn Thorvaldson, M. B. E.


SVEINN THORVALDSON, M.B.E.

Sveinn Thorvaldson er skagfirskur að ætt og uppruna, fæddur 3. marz 1872, fluttist ásamt foreldrum sínum til þessa lands árið 1887. Hann gekk hér á skóla og var svo um tíma kennari, en hætti brátt við það starf og gerðist kaupmaður og hefir stundað það starf síðan, lengst af í Riverton, Man. Fyrstur allra Íslendinga stofnaði hann smjör og ostagerðarhús og var brautryðjandi á mörgum sviðum í bygð sinni. Hann er hinn merkasti maður, vel gefinn og framúrskarandi duglegur og sókndjarfur. — Auk atvinnu sinnar, kaupmenskunnar, hefir hann rækt mörg opinber störf, verið þnigmaður fyrir Gimli kjördæmið, oddviti Bifröst sveitar árum saman, og forseti skólaráðsins í Riverton. Hann hefir ætíð haft mikinn áhuga fyrir trúar- og kirkjumálum og aðhyltist þegar á unga aldri únitara stefnuna. Alla tíð síðan hann, ásamt ýmsum öðrum, stofnaði Sambandssöfnuðinn í Riverton hefir hann verið í stjórnarnefnd safnaðarins, oft forseti hans, og kendi í mörg ár í sunnudagaskóla kirkjunnar. Á hverjum sunnudegi, þegar veður leyfði, fór hann í bifreiðinni sinni á heimili þeirra barna, sem fjarlægust voru og sótti þau á sunnudagaskólann, og flutti þau svo heim að skólanum loknum. Í hvert skifti og messað er í kirkjunni, og hann er eigi fjarverandi úr bænum, situr hann í bekknum sínum og syngur sálmana með hinum. Ekkert mun það sálmalag í íslenzku sálmabókinni, sem hann ekki kann, enda var hann forsöngvari í kirkjunni sinni heima, þótt ungur væri er hann yfirgaf Ísland. Eitt hefir vakið aðdáun mína í samstarfi mínu við Svein Thorvaldson, öll þau ár, sem eg hefi verið prestur hér. Eg hefi aldrei leitað til hans viðvíkjandi ýmsu, sem gera þurfti í sambandi við kirkjumálin, að hann hafi eigi brugðist vel við, gert það með

gleði og fúsleika eins og hann hefði ætíð nægan tíma, þótt hann eigi oftast mjög annríkt.

Hann hefir árum saman verið í stjórn kirkjufélagsins sem varaforseti þess, og rækt starf sitt þar með hinum mesta áhuga og samvizkusemi og er nú heiðursforseti þess. Hin síðustu ár hefir hann verið vara-forseti í stjórnarnefnd únitara félagsins i Boston, fyrir hönd únitarakirknanna í Canada. Hefir hann árlega sótt stjrónarnefndarfundi félagsins, og sýnir það bezt áhuga hans og dugnað að takast slíkar langferðir á hendur svo roskinn sem hann er nú orðinn.

Sveinn Thorvaldson hefir að maklegleikum hlotið marga viðurkenningu. Englandskonungur hefir sæmt hann heiðursmerki og eins stjórn Íslands, en þann minnisvarða hefir hann sjálfur reist sér í minningu samferðamanna sinna, að hann var duglegur og hollur þeim málefnum, sem hann fylgdi.

*E. J. Melan*

---

## Sálmur

Lag: Af instu rót mín önd og sál sig gleður

*Hjá þér vor drottinn hælis vil eg leita*
*í hættu og sorgum styrk þig bið mér veita.*
*Æ gef mér trú að treysta miskunn þinni;*
*þín tign og ást er hjálpin sálu minni.*

*Ó, lát þitt skína ljósið kærleiksbjarta,*
*að leiða von og styrk í sérhvert hjarta.*
*Oss veit þann mátt, er hrindir af sér helsi;*
*það hugrekki, sem vinnur sér inn frelsi.*

*Þinn sannleikur skal markið manna vera*
*og miskunnsemi þína að hugsjón gera,*
*og blessun þín mun heiminn fylla friði,*
*og fögnuð þeim, sem veitir æðstu gleði.*

*Þinn kærleikur skal með oss vera að verki,*
*og von og trúin undir krossins merki*
*í einingu til sigurs alls hins sanna,*
*í samhug leiða fylking allra manna.*

E. J. Melan

# Verkin lifa þótt mennirnir deyi

Þessir prestar áttu drjúgan þátt, í stofnun Hins sameinaða kirkjufélags Íslendinga í Norður Ameríku, sem nú hefir staðið í 25 ár, og reistu sér þar með veglegt minningarmerki sem heldur ekki aðeins minningu þeirra lifandi en heldur þeirri stefnu lifandi í trúmálum sem þeir fylgdu með svo miklu kappi og fjöri.



*Dr. Rögnvaldur Pétursson*



*Séra Ragnar H. Kvaran*



*Séra Guðmundur Árnason, B.D.*

# Brautin

DEILD KVENNASAMBANDSINS

---

## Um stofnun og starf Frjálstrúar Kvenfélaganna

*Erindi flutt af Marju Björnson, forseta Sambandsins, á kirkjuþingi í Winnipeg 1947.*

Af því nú eru liðin tuttugu ár og eitt betur frá stofnun Frjálstrúar Kvenfélaga Sambandsins, virðist viðeigandi að minnast þess atburðar með stuttri greinargerð yfir starf þess á umliðnum árum. Verður þá sérstaklega að minnast þeirra kvenfélaga, sem gerst hafa meðlimir í heildinni. Einnig félaga, sem unnið hafa að sömu málum í liðinni tíð en eru ekki sem stendur meðlimir í sambandinu.

Á öllum tímum, síðan kvenfélaga starfsemi hófst, hefir það verið viðurkent að áhrif hennar hafa verið svo víðtæk og yfirgripsmikil til þjóðþrifa, bæði inn á við og út á við, að engin hreyfing í þjóðfélaginu hefir verið gagnlegri né gæfuríkari fyrir land og lýð. Er hér auðvitað átt við kvenfélaga starfsemi yfirleitt, hvort sem þau standa eða hafa staðið innan eða utan kirkjunnar. Munu þó safnaðasamtök kirkjunnar á öllum tímum hafa átt drjúgan þátt í myndun kvenfélaga víðsvegar, mest vegna þess að þau urðu einn sterkasti þátturinn í viðhaldi kirknanna í efnalegum skilningi. En eins og alt, sem heimtar útrás á þroskabrautinni, hafa nú kvenfélögin vaxið út frá þeirri hugsjón að starfa eingöngu í þarfir safnaðanna. Þau hafa farið að líta í kring eftir nýjum og stærri verkefnum og þau hafa fundið svo ótal margt fleira sem þau fundu köllun hjá sér til að starfrækja í þarfir lands og þjóðar. Má segja að þau hafi ávalt verið vakandi á verði fyrir hverju einu, sem stefndi að því að líkna nauðstöddu fólki og þá engu síður að leiðbeina þeim, sem fóru viltir vegar. Að þeim hafi orðið mikið ágengt í starfinu er öllum ljóst víðsvegar um heim, þó alt starfið hafi farið fram í

kyrþey. En hinn sigrandi máttur er hljóður, og upptökin að þessari mikilsverðu hreyfingu er hvergi að finna annarsstaðar en í móðurástinni, sem er og hefir ávalt verið hinn hljóði, sigrandi máttur í lífi mannanna. Væri vel, ef í því öngþveiti, sem nú ríkir í heiminum þar sem öfl eyðileggingarinnar virðast hafa bæði tögl og hagldir á hinum svokölluðu friðarráðstefnum, að sameinuð kvenfélög allra landa og þjóða heimtuðu þann rétt, sem þeim ber, að eiga helming atkvæða á öllum friðarráðstefnum mannkynsins. Enginn þráir frið á jörðu meir en mæður þeirra manna, sem kallaðir eru út í stríð, og eiga þær því meiri rétt á því en karlmenn að leggja grundvöllinn að varanlegum friði. Og eins og kunnugt er, þá eru mennirnir enn ekki á eitt sáttir með það, hvernig sá grundvöllur á að vera. Ef að líkum lætur, er því miður hætt við að einhver partur hans verði bygður á sandi, ef byggingarmeistararnir eru látnir einir um valið. Væri því ekki ófyrirsynju og alls ekki óyfirstíganlegt, að kvenþjóðir allra landa stofnuðu til allsherjar friðarþings á sína vísu, og léti hendur standa fram úr ermum, þar sem um mikilvægasta málefni mannkynsins er að ræða. Gæti þær með þessu móti lagt fram sín gögn og heimtað sinn rétt, sem mennirnir hafa frá örófi alda frá þeim rænt; og sá réttur er hvorki meira né minna en jafnt atkvæðamagn við karlmenn, á öllum úrslitaráðstefnum mannfélagsins. Sagan hefir þráfaldlega sýnt, að gegn um aldirnar hafa karlmenn aldrei getað komið á varanlegum friði sín á milli, og eru ekki neinar líkur til að breyting verði á því. Hefir aldrei verið meiri þörf á því en nú að koma á friði; vegna þess að nú berjast þeir ekki eingöngu hvor við annan, heldur há þeir stríðin þar sem gamalmenni, konur og börn er myrt í þúsundum. Hefir því ástæðan aldrei verið meiri en nú, fyrir konur um gjörvallan heim, að hefjast handa í því að afvopna mennina, og semja frið fyrir allar þjóðir um alla ókomna tíð. Er því öll nauðsyn á því fyrir hvert kvenfélag, hversu smátt, sem það kann að vera, að ræða um friðarmál frá þessu sérstaka sjónarmiði og senda sínar niðurstöður til aðalfélaga þeirra er smærri félögin standa í sambandi við, og verða auðvitað allar framkvæmdir að byggjast á samkomulagi og getu innan heildarinnar.

Það verkefni, sem fyrir mér liggur hér, er að gera í eins stuttu máli og unt er, grein fyrir starfsemi íslenzkra kvenfélaga sem starfað hafa innan vébanda frjálstrúar kirkjunnar og Sambandi íslenzkra frjálstrúar kvenfélaga hér í landi, á tuttugu og einu ári, sem liðið hafa frá stofnun félagsins. Er mér þetta mjög

hugleikið mál og ljúft ekki sízt vegna þess að eg hefi verið meðlimur og í stjórnarnefnd þess frá byrjun og forseti þess um mörg ár; eða sextán ár af þeim tuttugu sem nú eru um garð gengin frá stofnun sambandsins. Hefi eg því að sjálfsögðu margs að biðja afsökunar á í sambandi við stjórn félagsins; en út í þá sálma verður ekki farið í þessu erindi. Einungis vil eg lýsa ánægju minni yfir þeim góða árangri sem orðið hefir af starfinu og þakklæti til allra meðlima Sambandsins fyrir margra ára samúðarríkt samstarf, sem eg veit að á eftir að bera blessunarríkan ávöxt langt inn í ókomna tíð. Á þessum tímamótum hljótum við að minnast með söknuði og þakklátum huga allra þeirra sem í liðinni tíð störfuðu með okkur, en sem nú hafa horfið af sjónarsviðinu. Verður þeirra minning best heiðruð með því að halda við þeim metnaði og þeirri iðjusemi, sem þær ávalt sýndu í lífi og starfi á meðan þær dvöldu meðal okkar. Mun þá starfi því, sem þeim var ávalt hughaldið vel borgið í framtíðinni. Í minningu þess framtaks sem þegar hefir komið í ljós, megum við því vongóðir horfa inn á sviðið framundan og halda áfram í áttina til frekari framkvæmda í því starfi, sem fyrir okkur liggur.

Af því ekki eru nægileg gögn fyrir hendi, né heldur tími eða tækifæri á því að skrifa sögu kvenfélaganna, verður einungis um einskonar yfirlit að ræða. Kvenfélögin sem tilheyra sambandinu eru tíu að tölu og þar fyrir utan má telja tvö eða þrjú fleiri, sem hafa stutt að okkar félagsmálum. Flestum þeirra hefir verið gefið íslenzkt nafn, sem lýsa að nokkru stefnu félaganna. Wynyard kvenfélag heitir "Framsókn" og var það stofnað árið 1909 í ágúst það ár. Var fyrsti forseti þess Mrs. Svanborg Jónasson; ritari, Mrs. S. Johnson og féhirðir Mrs. F. Thorfinnson. Var félagið talsvert öflugt á tímabili og er í raun og veru enn. Á fyrstu árum og lengi taldi það kringum um 25 meðlimi, en ýmsra orsaka vegna hefir þeim nú fækkað, og sem stendur eru meðlimir félagsins 18. Hefir ýmislegt orsakað fækkun meðlima eins og gengur, en gott til þess að vita að Framsókn er enn vel vakandi og hefir á umliðnum árum unnið afar mikið í þarfir safnaðar og annara nauðsynja mála eins og Rauða Kross fél. og sjúkrahússins í Wynyard, og glatt gamalt fólk og einstæðinga með jólagjöfum. Núverandi stjórnarnefnd skipa: Forseti, Mrs. Pétur Thorsteinson; vara-forseti, Laura Hallgrímson; gjaldkeri, Bertha Olson; skrifari, Emma Guðmundson.

Í Langruth var frjálstrúar kvenfélag stofnað 10. júní 1925. Var félagið nefnt "Berglind", sem minnir á svalann og hreinleikann. Stofnendur voru þessar konur: Mrs. Ágúst Eyjólfson, Mrs. Inga Grímsdóttir Tromberg, Mrs. Magnús Jónsson, Mrs. Karl Bjarnason, Mrs. John Thorsteinsson, Mrs. S. Finnbogason, Mrs. B. Christjansson.

Þá bættust síðar í hópinn Miss Lilli Johnson og Mrs. J. Marteinsson. Fundir voru haldnir einu sinni í mánuði í heimahúsum og var fyrsta verk félagsins að hafa veitingar 1. júlí á skemtidegi bygðarinnar. Frumkvæði að stofnun félagsins áttu Mrs. Ágúst Eyjólfson, Mrs. J. Thorsteinson og Mrs. S. Finnbogason, og orsökin að því var sú, að fá trúmálin rædd af prestum með frjálsar trúarskoðanir. Starfaði kvenfélagið í 19 ár eða til 1944 þegar það leystist upp. Varð það að hætta störfum vegna þess að meðlimirnir voru þá annaðhvort dánir margir eða farnir úr bygðinni. En á þessum 19 árum var félagslíf bygðarinnar oft fjörugt með góðar og uppbyggilegar samkomur. Voru ýmsir prestar fengnir til að flytja erindi og messa, þar á meðal sr. A. E. Kristjánsson, sr. R. E. Kvaran, sr. Benjamín Kristjánsson og sr. Halldór Jónsson, sr. G. Árnason og sr. R. Pétursson, en Sambandssöfnuður Íslendinga í Langruth var stofnaður árið 1924, og mun kvenfélagið hafa myndast út frá honum, því flestar félagskonur tilheyrðu söfnuðinum. En svo hætti söfnuðurinn starfi 1930. En á þeim 5 árum sem hann starfaði voru fulltrúar sendir árlega á kirkju- og sambandsþing kvenfélaganna, þar á meðal Mrs. S. Finnbogason, sem var einnig kjörin í fyrstu nefnd kvenfélaga Sambandsins. Aðrar konur voru fulltrúar sem hér greinir: Mrs. J. Thorsteinsson, Mrs. B. Kristjánsson, Mrs. K. Bjarnason og Mrs. M. Johnson.

Starfsemi "Berglindar" var að flestu eða öllu leyti sú sama og á sér stað hjá hinum kvenfélögunum. Hún studdi söfnuðinn með ráði og dáð á meðan hann var starfandi. Þá studdi hún ýmsar líknarstofnanir og hjálpaði fátækum heima fyrir. Þó starfstíminn væri stuttur, lét hún áreiðanlega mikið gott af sér leiða bæði innan bygðarinnar og út á við.

"Aldan" í Árnesi var stofnuð árið 1926 í júní og voru fyrstu stjórnendur hennar forseti, Mrs. Guðrún Johnson og skrifari og féhirðir, Mrs. Snjólaug L. Martin. Var aðalstefna félagsins að styrkja söfnuðinn með ráði og dáð bæði efnalega og eins með því að kenna þeim ungu á sunnudagaskóla, sem

stofnaður var í þeim tilgangi. Hefir "Aldan" síðan ávalt staðið trúlega í stöðu sinni í þessum efnum, og orðið til þess að styrkja margar aðrar nytsamar stofnanir og þurfandi fólk. Eins og öll hin félögin hefir hún styrkt Rauða kross félagið, Sumraheimilið á Hnausum, og á síðastliðnu ári tók hún að sér eitt fósturbarn sem "Foster Parent Plan" hefir umsjón með. Ennfremur lagði hún fé til Unitarian Service Committee á síðastl. ári en þetta er félag sem líknar þeim sem nauðstaddir urðu af völdum stríðsins og mun hafa ærið verkefni um mörg ókomin ár. "Aldan" gerðist meðlimur í kvenfélaga Sambandinu árið 1926 og í General Alliance árið 1940.

Núverandi stjórnarnefnd skipa: forseti, Mrs. Th. Pétursson; vara-forseti, Mrs. G. Johnson; skrifari, Mrs. J. Ólafson; gjaldkeri, Mrs. F. Helgason.

"Eining" á Lundar var stofnað 10. okt. 1929 og voru hennar fyrstu embættiskonur, Mrs. Björg Björnson, forseti; Mrs. Mekkin Guðmundson, vara-forseti; Miss Aldís Magnússon, skrifari; Miss Rannveig Guðmundsson, vara-skrifari, og Mrs. Helga Jóhannsson, féhirðir. Árið 1932, 5. júní, gerðist "Eining" félagi í Kvennasambandinu og hefir verið það ávalt síðan. Flesta meðlimi hefir hún haft 17, og hafa þessar konur starfað afar mikið fyrir ýms velferðarmál, bæði heima fyrir og út á við, s.s. söfnuðinn, Sumarheimilið, Rauða krossinn, Unitarian Appeal. Þá hefir hún um mörg undanfarin ár haft haustboð fyrir elzta fólk bygðarinnar og hefir verið mjög vel til þess vandað. Á þessu síðasta ári hefir hún einnig hjálpað Unitarian Service Committee með fatagjöfum og saumavinnu og eitt fósturbarn tók hún að sér fyrir "Foster Parent Plan" með hjálp frá velviljuðum vinum félagsins, og annað barn var einnig tekið í fóstur heima fyrir.

Þess má geta hér, að "Eining" ásamt Lút. kv.fél. "Björk" tóku höndum saman um það að heiðra heimkomna hermenn í haust er leið, og var þeim haldið eitt hið veglegasta samsæti og var drengjunum gefið skrautritað skírteini í ramma; hátt á annað hundrað alls.

Núverandi nefnd skipa: forseti, Mrs. B. Björnson; varaforseti, Mrs. A. Eyjólfson; skrifari, Mrs. B. Guðmundson; gjaldkeri, Mrs. I. Sigurdson; vara-skrifari, Mrs. Helga Jóhannson.

Kvenfélag Sambandssafnaðar á Árborg var stofnsett 12.

júní 1926, og voru fyrstu stjórnendur þess: Mrs. H. v. Rennesse, forseti; Mrs. B. Bjarnason, vara-forseti; Mrs. P. K. Bjarnason, féhirðir; Mrs. G. Einarsson, ritari.

Hefir flest meðlima verið 19 en eru nú 10, en vel vakandi í starfinu. Hefir þetta félag eins og hin sem áður hefir verið getið unnið að safnaðarmálum og þá einnig öðrum velferðarmálum bæði út í frá og heima fyrir. Hefir það frá fyrstu tíð styrkt Sumarheimilið eftir getu og nú síðast lagt tillag í eftirlaunasjóð presta, styrkt prestefni til náms á Íslandi. Þar að auki lagt fé í Rauða kross sjóð, Rússasjóð og Unitarian Service Committee sjóð. Lagt fé í "Mrs. Lindal Scholarship Fund" og styrkt ísl. Sambandskirkju útvarpið. Er hér einungis nokkuð talið sem dæmi upp á það hvað fáar konur geta gert þegar þær eru samtaka. Má geta þess að núverandi og fyrsti forseti félagsins, Mrs. H. v. Renesse, var um langt skeið féhirðir Sumarheimilisins og inti það starf af hendi vel og samvizkusamlega eins og hún hefir ávalt gert í kvenfélagsnefndinni.

Núverandi nefnd skipa: forseti, Mrs. S. O. Oddleifson: vara-forseti, Mrs. N. Halldórson; skrifari, Mrs. H. v. Renesse; gjaldkeri, Mrs. G. O. Einarsson.

"Ósk" heitir kvenfélagið á Oak Point og var stofnað 9. okt. 1929. Fyrstu stjórnendur félagsins voru, forseti, Mrs. Sigríður Árnason; vara-forseti, Miss Helga Árnason; ritari, Mrs. Nýbjörg Snidal; féhirðir, Mrs. Ingibjörg Johnson.

Á fyrstu árum vann "Ósk" einungis fyrir kirkjuna, en svo hefir starfsviðið verið að smá stækka. Fann hún verkefni við umbætur á ýmsu heima fyrir, s.s. skóla, samkomuhúsi og skautahring og ýmsu öðru. Styrkti hún einnig Sumarheimilið á Hnausum og vann margt í almenningsþarfir á stríðsárunum, sendi föt og vindlinga til hermanna yfir hafið og lagði í Rauða kross sjóð.

Árið 1932, 5. júlí, gerðist "Ósk" félagi í Sambandinu. Hæst tala meðlima hefir verið 14 og 8 minst. Er núverandi forseti Mrs. Guðrún Mathews; vara-forseti, Mrs. Ingibjörg Johnson; ritari og féhirðir, Dora Mathews.

Upphaf Sambands kvenfélagsins í Riverton var, að fjórar konur: Jóhanna Sigurðson, Sigríður Björnson, Ingibjörg Sveinsson og Sigrún Sigvaldason, tóku sig saman um að fá við og við prest til að messa, og hafa inn fé til að standa kostnaðinn af því.

Árið 1925, 14. marz, stofnuðu svo þessar konur ásamt fleiri konum kvenfélagið. Voru fyrstu meðlimir þessa kvenfélags: Jóhanna Sigurðson, Sigríður Björnson, Ingibjörg Sveinsson, Sigrún Sigvaldason, Anna Árnason, Guðrún Hjörleifson, Kristín Þorvaldson, Sigrún Einarsson, Helga Halldórsson, Ruby Thorvaldson og Guðrún Björnson.

Var stefnuskrá félagsins: 1) að styðja að frjálsum trúarskoðunum; 2) að hjálpa bágstöddum, hvaða trúarskoðanir, sem þeir hafa. Var fyrsta stjórnarnefnd kosin þannig: forseti, Sigríður Björnson; vara-forseti, Kristín Thorvaldson; skrifari, Sigrún Sigvaldason; vara-skrifari, Anna Árnason; féhirðir, Jóhanna Sigurðson.

Á fundi 9. júní 1928, var samþykt að biðja um upptöku í Samband íslenzkra frjálstrúar kvenna í Ameríku. Voru þær Sigríður Björnson og Jóhanna Sigurðson kosnar erindrekar á kvenna þingið.

Eftir því sem næst er komist hafa 43 konur tilheyrt þessu kvenfélagi. Í því eru nú 15 konur. Hefir starf þessa félags verið að öllu eða flestu leyti hið sama og hinna kvenfélaganna og þeim hefir farnast vel og orðið mikið ágengt í starfinu frá byrjun. Félagið hefir styrkt söfnuðinn, haldið við sunnudagaskóla, gefið fé til U. Appeal, til sjúkra og þurfandi og einnig lagt fé í námsstyrk Sam. kirkjufélagsins. Sérmál þeirra er kirkjuklukkusjóður í Riverton kirkju og hefir talsvert fé safnast í það fyrirtæki. Þá hafa þær gerst meðlimir í Book of the Month Club og hafa eignast með þessu talsvert safn af góðum bókum. Og þær hafa sent föt og fé til U. S. C. Sýnir það sem talið hefir verið að þetta félag er að vinna þarft og göfugt verk og hefir sýnt hrósverðan áhuga fyrir starfinu.

Núverandi stjórnarnefnd: forseti, Mrs. G. Eyjólfson; varaforseti, Mrs. S. Thorvaldson; skrifari, Mrs. E. J. Melan; gjaldkeri, Mrs. E. A. Johnson.

Kvenfélag Sambandssafnaðar á Gimli var stofnað 8. apríl 1922. Voru fyrstu stjórnendur þess: forstöðukona, Mrs. S. Thordarson; forseti, Mrs. S. Kristjánsson; vara-forseti, Mrs. S. Thordarson; ritari, Mrs. Anna Magnússon; vara-ritari, Mrs. G. Olson; féhirðir, Mrs. E. Kristjánsson, vara-féhirðir, Mrs. J. Thorsteinsson.

Hefir starf félagsins verið aðallega það, að styrkja söfnuðinn og sunnudagaskólann, á meðan hann var við lýði, og þá að

hlúa að öðrum velferðarmálum bygðarinnar s.s. barnaheimilinu. Rauða kross, o. s. frv. Á síðastl. ári tók félagið á móti Dr. Hitschmanova og kynti hana og það mál, sem hún flutti fyrir Unitarian Service Committee, leiðandi fólki í hinum ýmsu félögum hér. Var árangurinn hinn ákjósanlegasti. Voru 15 fósturbörn tekin frá Gimli-þorpinu af félögum og einstaklingum. Voru einnig brúkuð föt send og nokkuð af peningum til líknarstarfs í Tékkóslóvakíu og Frakklandi og heldur það starf áfram enn.

Árið 1926 gerðist Gimli Samb. kvenfélagið meðlimir í Sambandi ísl. frjálstrúar kvenna. Hæst meðlimatal hefir verið 22. Er núverandi félagsstjórn: forseti, Kristín Kristofersson; ritari, Margrét Stvens; féhirðir, Ingibjörg Sveinsson.

Fyrra únitara kvenfélagið á Gimli var stofnað 13. maí 1909. Voru fyrstu embættiskonur í því félagi: forseti, Mrs. J. P. Sólmundson; ritari, Ólöf A. Jónasson og féhirðir, Mrs. Ingibjörg Bjarnason. Starfaði þetta félag þangað til 1915 en þá dó það alveg út og var því ekkert kvenfélag starfandi í Gimli söfnuði þangað til Samb. kvenfélagið var stofnað árið 1922, sem fyr er getið.

"Framför" heitir kvenfélagið í Piney, og þó hún sé smá vexti, 8 meðlimir, þá hefir hún verið vel starfandi frá byrjun. Hún var stofnuð 31. júní 1939 og voru fyrstu embættiskonur: forseti, Mrs. B. E. Björnson; vara-forseti, Mrs. S. S. Anderson; ritari, Guðrún Stephanson; féhirðir, Helen Einarsson.

Munu þær hafa gerst meðlimir í kvenfélaga Sambandinu stuttu eftir stofnfundinn. Í byrjun höfðu þær 14 meðlimi en nú hefir þeim nokkuð fækkað. Hefir starf þeirra gengið vel eftir ástæðum og stefna þeirra er að öllu leyti sú sama og hinna félaganna. Eitt sérmál þeirra er að safna fé fyrir kirkjubygg-ingu sem á að vera einskonar bygðarkirkja.

Núverandi stjórnarnefnd skipa: forseti, Mrs. B. E. Björnson; vara-forseti, Mrs. W. Olason; skrifari og gjaldkeri, Mrs. K. Norman.

Kvenfélagið í Mikley, þó ekki tilheyri það Sambandinu, gaf skýrslu um starf sitt á síðasta (ársfundi) þingi og sýnir hún að öll starfsemi þess félags hefir gengið í sömu átt og hjá hinum félögunum. Það hefir lagt til safnaðar, sent böggla til hermanna, gefið til barnaheimilisins og Rauða krossins, glatt bágstadda og einnig lagt fé í sjúkrasjóð eyjarinnar. Í stjórnarnefnd

þess eru: forseti, Mrs. S. Ingibjörg Pálsson; vara-forseti, Mrs. Th. G. Pálsson; ritari, Mrs. Matthildur Torfason, féhirðir, Mrs. Anna Eiríksson.

Árið 1943 var stofnað félag ungra kvenna í Winnipeg úr Unitara og Sambandskirkju félagsskapnum þar, sem kallar sig Evening Alliance eða "Kvöldvökusambandið". Var það stofnað 7. janúar og fer alt starf þeirra á fundum fram á ensku máli. Var fyrsti forseti þess Mrs. Etta Pétursson og Mrs. Jóna Bellingham var ritari og féhirðir. Hefir þeirra aðalstarf verið að kenna smábarnadeild í sunnudagaskólanum og hefir það starf aukist með hverju ári svo að í fyrra voru 36 börn innrituð í deildina. Þá hefir þetta félag einnig stutt kirkjuna fjárhagslega á allan hátt og eins tekið verulegan þátt í starfi U. S. C. Þá hófu meðlimir þessa félags samskot til að taka að sér tvö fósturbörn um þriggja mánaða tíma eins og U. S. C. fór fram á við alla. Einnig gefur þetta félag árlega einhverja upphæð til United Unitarian Appeal. Það gerðist meðlimur í G. A. í janúar 1944. Stærst meðlimatala hefir verið 32 og núverandi stjórnarnefnd er: forseti, Mrs. Chris Wilson; vara-forseti, Mrs. Marjory Asgeirson; ritari, Mrs. Lillian Bjarnason; corresponding sec., Mrs. Gwen Bonnett.

Wynyard Evening Alliance var stofnað í júlí 1946. Var stjórnarnefnd kjörin sem fylgir: forseti, Mrs. Lillian Thorlacíus; ritari, Mrs. Edna Melsted; féhirðir, Miss Anna Guðjónson. Fyrsta verk þessa félags var stofnun sunnudagaskóla (36 börn innrituð í fyrra) og útheimti það vitanlega bæði mikla vinnu og fé. En af því viljinn var nógur tókst þetta svo vel að undrum sætir. Meðal tala barna á sunnudagaskóla nú er 69. Hafði félagið á stuttum tíma saman svo mikið fé, að það gat lagt fram upphæðir til margskonar þarfa og þar á meðal var eitt fósturbarn tekið frá Evrópu, fötum safnað til gjafa, gefið til kirkju og safnaðar ungmennafélagsins, og sjúkrahúss bæjarins. Þá var einnig lagt fé í Rauða kross sjóðinn og hjálparsjóð bygðarinnar.

Eins og stendur er þetta félag enn ekki meðlimur í Sambandinu, en það gerðist meðlimur í G. A. í ágúst 1946.

Meðlimatal er 20, og núverandi stjórn er: forseti, Lillian Thorlacíus; ritari, Edna Melsted; féhirðir, Mrs. Luella Gillard.

Fríkirkju kvenfélagið í Blaine var stofnað 28. febr. 1929 af 9 konum. Var fyrsta stjórnarnefnd þess: forseti, Mrs. Matt-

hildur Johnson; ritari, Mrs. M. J. Benedictson; féhirðir, Mrs. Thórdís Veum; vara-forseti, Mrs. Ásta Johnson; vara-ritari, Mrs. Sollín Peterson og vara-féhirðir, Mrs. María Thordarson.

Var félagið stofnað aðallega til þess að styrkja hinn nýmyndaða söfnuð, en bæði þá fyrstu árin og ætíð síðan hefir það varið töluverðu af sínum inntektum til líknarstarfsemi og til að gleðja sjúka, gamalmenni og börn bæði á jólum og endranær.

Þegar kirkjan var bygð borgaði félagið fyrir alla bekkina og eitthvað af ljósum, líka keypti það öll eldhúsáhöld, og hefir haldið þeim við síðan, líka alla stóla í samkomusalinn, gluggatjöld og ýmislegt fleira. Til sunnudagaskóla hefir félagið lagt $10—$20 á ári. Ágæt skýrsla frá þessu félagi var birt í síðasta hefti af "Brautinni" og sýnir hún að þetta félag er vel vakandi og hefir gert afar mikið og þarft verk á þeim fáu árum sem það hefir starfað. Eftirtektarvert er samstarf þessa félags við lút. kvenfélagið, sem hefir orðið til ómetanlegs hagnaðar fyrir heildina. Er það gott til eftirbreytni.

Núverandi stjórnarnefnd skipa: foresti, Mrs. S. B. Hrútfjörð; vara-forseti, Mrs. H. Kristjánson; skrifari, Mrs. M. Sigurdson; gjaldkeri, Mrs. P. B. Peterson.

Frjálstrúar kvenfélag íslenzku kirkjunnar í Seattle, Wash., var stofnað árið 1929. Hefir það síðan unnið afar mikið fyrir frjálstrúar kirkjuna þar og einnig tekið drjúgan þátt í margskonar hjálparstarfsemi út á við, á líkan hátt og hin kvenfélögin. Hefir Jakobína Johnson verið skrifari þess frá byrjun og jafnframt haft umsjón með skemtunum þeim sem farið hafa fram á fundum og samkomum félagsins.

Núverandi nefnd skipa: forseti, Mrs. Emma Goucher; varaforseti, Mrs. J. H. Straumfjörð; skrifari, Mrs. Ísak Johnson: féhirðir, Mrs. Dorothy Goucher.

Kvenfélag Winnipeg safnaðar var stofnað árið 1904, þá undir nafni Unitara félagsins og hefir það starfað óslitið síðan. Á stofnfundinum voru 16 konur mættar, 1. febrúar 1904. Forseti var kosin Mrs. M. J. Benedictson, sem nú býr á vesturströndinni, fyrsti skrifari var Mrs. R. Pétursson og fyrsti féhirðir, Miss Sigurrós Vídal. Lengst hafa verið forsetar, Mrs. F. Swanson (10 ár) og Mrs. Thos. Borgford (8 ár), og lengst allra ritara félagsins hefir verið Mrs. J. F. Kristjánsson, 1921—24 og 1925—46. Fjármálaritari hefir verið síðan 1923, Mrs. S. B. Stefánsson.

Störf þessa félags hafa verið svo margþætt að þeirra verður

ekki hægt að geta hér nema að litlu leyti. Félagið lagði fyrst stóra fjárupphæð í lóð safnaðarins á horni Sherbrook og Sargent. Gaf söfnuðinum orgel og piano í kirkjuna og hefir stutt kirkjuna bæði andlega og efnislega ávalt frá byrjun. Á síðari árum hefir það unnið afar mikið í þarfir almennings út í frá og lagt fram fé til ýmsra líknarstofnana og stríðsþarfa í gegn um bæði veraldarstríðin. Fyrir utan það að styrkja söfnuðinn hefir þetta félag lagt fé í Rauða krossinn, Good Neighbors Club. Save the Children Fund og nú síðast í Unitarian Service Committee of Canada, sem vinnur að því að hjálpa nauðstöddu fólki í Tékkóslóvaku og Frakklandi með góðum fatnaði, matvælum, meðölum og á hvern hátt sem hægt er. Var deild þessa félags mynduð í Winnipeg af konum úr Sambandssöfnuði í febrúar 1946 og hefir henni orðið afar mikið ágengt. Skýrsla síðasta þings skýrir frá því, að þá hafi deildin í Winnipeg verið búin að senda nóg fé til að hjálpa 604 börnum, þ. e. borga hælisvist fyrir hvert barn í þrjá mánuði. Einnig sent 60 böggla yfir hafið með ungbarna fatnaði og voru þau föt öll búin til af félagskonum og með hjálp frá Oak Point og Lundar kvenfélögunum. Þá sendu þær 15 tonn af notuðum fötum sem þær gerðu við og hreinsuðu og höfðu 15—20 konur unnið að þessu tvo daga í hverri viku unz því verki var lokið. Þá sendu þær 557 kassa af skriffærum og bókum og ýmsu til skólanáms og 537 kassa með tannbursta, tannsápu, sápu, þurkur, hárgreiður, tvinna og nálar. Deildin tók á móti $18,000, sem hún sendi til aðalfélagsins í Ottawa. Er alt þetta fagur vottur um vel unnið starf.

Auk þess sem hér hefir verið á minst sendi félagið til Ottawa $9,000.00 sem hafði verið safnað í Saskatchewan og Alberta.

Þess má einnig minnast í sambandi við starfsemi þessa kvenfélags að þegar nýja kirkjan var reist á Banning Street, gaf félagið henni eldhúsáhöld öll, gólfdúka í kirkjuna, kertastjaka, dúka, spegla og loks píanóið í kirkjuna. En á þeim tíma var meðlimatala frá 35—40. Gerðist félagið meðlimur í Sambandinu strax á stofnfundi þess.

Stjórnarnefnd sú sem nú er eru: forseti, Mrs. O. Pétursson; vara-forseti, Mrs. E. Árnason; ritari, Mrs. S. Johnson; vara-ritari, Miss Margrét Sigurðson; fjármálaritari, Mrs. S. B. Stefánsson; vara-fjármálaritari, Miss Margrét Pétursson; gjaldkeri, Mrs. B. E. Johnson.

Hefi eg nú drepið á nokkur aðalatriði í myndun og starfi

kvenfélaganna, sem síðar gerðust meðlimir í Sambandinu. Og á þingi sem kirkjufélagið hélt í Wynyard, Sas., var fyrst vakið máls á því að kvenfélögin mynduðu Samband með sér. Var það Ólína Pálsson, sem gerðist framsögukona þessa máls á þinginu. Og eftir nokkrar umræður var þeim Þóru Finnbogason og Ólínu Pálsson falið að ræða þetta mál við kvenfélögin og skýra frá árangrinum á næsta þingi.

Á kirkjuþingi 1926, gáfu svo nefndar konur skýrslu þess efnis að 5 kvenfélög væru að senda fulltrúa á þingið, með það fyrir augum að mynda samband kvenfélaganna, væru það Árborg, Árnes, Gimli, Langruth og Winnipeg. Var þá Sambandið stofnað á þessu þingi, sem var haldið á Gimli 27. júní, 1926. Voru eftirfylgjandi konur þá settar í embætti:

Forseti: Mrs. R. Pétursson
Vara-forseti: Mrs. Ingibjörg Goodman
Skrifari: Mrs. H. v. Rennesse
Vara-skrifari: Mrs. Thora Finnbogason
Féhirðir: Miss Hlaðgerður Kristjánson
Meðráðendur: Mrs. S. E. Björnson, Miss Snjólaug Martin.

Síðan Sambandskvenfélagið var stofnað starfaði það fyrstu tíu árin á líkan hátt og félögin sem mynduðu heildina, höfðu áður gert. En á hverju ári hafði það sitt ársþing á sama tíma og stað og Sambandskirkjufélags þingið. Var venjulega reynt að vanda til þess með fyrirlestrum um fræðandi efni og þá var ávalt ein kveldsamkoma haldin til arðs fyrir Sambandið. Hefir þetta fyrirkomulag ávalt haldist frá byrjun. En árið 1932, á fundi sem haldinn var í Winnipeg 10. maí, vakti eg máls á því ásamt frú Thorunni Kvaran að nauðsyn bæri til þess að gefa fátækum börnum tækifæri á því að dvelja úti á landsbygðinni í skólafríi þeirra og var þessari hugmynd svo vel tekið að fundurinn var einhuga með því að koma þessu í framkvæmd, og var, á þessum fundi nefnd kosin til þess að vinna að þessu máli. Voru í þessari nefnd: Mrs. Jónína Kristjánsson, Mrs. Hólmfríður Pétursson, Mrs. Ólína Pálsson, Mrs. Steina Kristjánsson og Mrs. Guðrún Johnson og var strax á því sumri nokkrum börnum hjálpað til að komast á heimili úti á landi. Var þessu verki síðan haldið vakandi ár frá ári með það fyrir augum að koma upp sérstökum bústað eða Sumarheimili fyrir þessi börn.

Ferðaðist eg í því augnamiði til allra kvenfélaganna sem tilheyrðu Sambandinu, og var málinu alstaðar vel tekið. Og

leiddi þetta svo hvað af öðru. Árið 1935 var leigt hús á Gimli fyrir börnin og það sumar voru tekin um 100 börn sem höfðu viku dvöl hvert og mæltist þetta svo vel fyrir að nú var ákveðið að byggja sérstakt hús fyrir fyrirtækið. Var þá samskota leitað og samkomur haldnar víðsvegar og kom með því saman nægilega mikið fé til þess að byrja á verkinu. Var staðurinn valinn á strönd Bjarmalands sunnan við Hnausa og húsið reist, sem síðan hefir verið starfrækt af Sambandinu og Sambands kirkjufélaginu með sérstakri stjórnarnefnd frá báðum þessum félögum.

Hefir nú Sumarheimilið verið starfandi 10 ár í sumar, og á það auðvitað sína sögu, sem sjálfsagt verður rækilega skrifuð með tíð og tíma. Má segja að þetta fyrirtæki hafi verið mjög ánægjulegt og heillaríkt fyrir þá, sem hafa notið þess á því tímabili, sem liðið hefir. En því miður er ekki hægt fyrir mig að gera neina ítarlega grein fyrir starfinu í þessu erindi. Má þó geta þess, að frá því fyrsta að þetta mál kom upp hjá Sambandinu hefir það ávalt verið stærsta málið hér heima fyrir, sem félagið hefir haft með höndum.

---

## Emma Endicott Marean

Þó þessi kona væri þjóðfræg á sínum tíma fyrir yfirgripsmikið starf í þágu frjálstrúar hreyfingarinnar í Bandaríkjunum mun Íslendingar lítið um hana vita eða starf hennar. Hún var fædd í Boston árið 1854 og ólst þar upp. Síðar giftist hún Joseph Mason Marean og fluttist til Chicago, þar sem hún bjó með manni sínum í 14 ár. Á því tímabili vann hún afar mikið að útbreiðslu únitara félagsins. Að þessum tíma liðnum flutti hún ásamt manni sínum og fimm börnum til Cambridge og tók þá til óspiltra málanna að vinna að sínum hugðarefnum. Gerðist hún meðritstjóri að "Christian Register", sem er aðalmálgagn unitara félagsins, og ávann sér svo mikið álit í því starfi, að hún var gerð að aðalritstjóra árið 1911. Hélt hún því embætti við góðan orðstír í 7 ár. Var þess minst af viðtakandi ritstjóra, að í hennar ritstjórnartíð hefði blaðið tekið ákveðið spor í framsóknaráttina; með hliðsjón af sögulegum sannindum gæti lesarinn fundið ákveðin spor stigin í áttina til frjálsra lífsskoðana.

Á meðan hún gegndi ritstjórnarstörfum komu bezt í ljós hennar miklu hæfileikar sem rithöfundar. Það var fyrir 50 árum síðan að fyrstu fundir voru haldnir að "Isles of Shoals". Átti hún þar sumardvalir frá byrjun, og um mörg ár eftir það, og

sendi ávalt þrisvar á viku umsagnir um fundina til "Boston Transcript", sem nú er undir lok liðið. En ræður hennar frá þessum fundum geymast enn, til yfirlits og lærdóms fyrir þá, sem vilja rýna inn í sögu unitara félagsins.

Á þessum grunnsævi-eyjum var Emma Endicott Marean öllum kunn. Fór hún hvern morgun og tók sér bað í ísköldum sjó, undir vík einni á stjörnueyjunni, og hélt þeim hætti fram undir sextugt. Þar skrifaði hún einnig nokkra sálma, og eitt langt kvæði tileinkað sérstakri samkomu 1905, þar sem hún talar um yndisþokka og áhrifavald Celiu Thaxter.

Á þessum eyjum laðaði hún að sér alla, sem þar dvöldu samtímis, og þá einkum þær konur, sem áttu með henni svo margt sameiginlegt, eins og Mary Davis, Eva Channing og fleiri. Alstaðar var hún lífið og sálin í öllum félagsskap. Hún var framúrskarandi hláturmild og þó vitsmunir hennar væri eins og hárjárn, kom það ekki að sök, því hún var aldrei illvíg í orðasennu.

Eins og áður er á minst þá var ritstjórn Christian Register í 7 ár í höndum þessarar merku konu. Frú Marean var hetjusál með afar skarpar gáfur, vel mentuð, víðsýn og hugrökk. Hún hafði það við sig, sem aflaði henni fjölda vina. Hún hataði alla yfirborðs mikilmensku og bar litla virðingu fyrir víli og væli. Kunni hún og að beita hárbeittu háði gegn yfirborðs sápulöðri hræsninnar. Persóna hennar var svo sönn og hrein að eðlisfari, að hún átti bágt með að þola heimskra manna hjal. En umfram alt var hún trúkona mikil, og gerði sér ávalt far um að sýna trú sína í verkunum.

Henni er lýst þannig að hún hafi verið smá vexti og fjörleg í hreyfingum, með gleraugu sitjandi skáhalt á nefbroddinum. Hún var nærsýn, en náði þó að lýsa rétt því, sem fyrir augun bar. Á efri árum misti hún sjónina en lærði fljótlega að lesa á blindra bækur og fylgdist því ávalt með tímanum, unz yfir lauk. Nokkru fyrir andlátið gaf hún út kvæðabók, sem var afar vel tekið; er eitt kvæðanna nefnt "Choice" eða "Val", sem endar þannig:

"Svift léðri sálarró! Eg sviða finn
Og sjón mín þráir æðri stefnumið.
Nefn mig þinn verkamann, og veit mér lið.
Minn vilji er sá, að kenna boðskap þinn.
Vek hjartans óð, er huga snertir minn!
Með hljómstreng brostinn gef mér þögn og frið."

# Jakobína Johnson



JAKOBÍNA JOHNSON

Jakobína Johnson er fædd á Hólmavaði í Þingeyjarsýslu 24. okt. 1883. Voru foreldrar hennar Sigurbjörn Jóhannsson skáld og kona hans María Jónsdóttir, er fluttust til Canada árið 1889 og tóku heimilisréttarland nálægt Glenboro, Man. Ólst Jakobína þar upp hjá foreldrum sínum, og mun snemma hafa borið á þeim gáfum, sem síðar hafa komið fram, og ung að aldri lauk hún prófi við kennaraskólann og kendi eftir það í nokkur ár. Þangað til hún giftist Ísak Jónssyni byggingameistara og fluttist með honum til Seattle, Wash., þar sem þau hafa ávalt búið og búa enn.

Jakobína hefir um mörg ár verið talin í fremstu röð þeirra ljóðskálda, sem nú eru uppi með íslenzku þjóðinni og er ekkert skáld henni fremra í því að þýða íslenzk ljóð á ensku. Þá hefir hún unnið mikið og vandasamt verk með því að þýða íslenzk leikrit á ensku; meðal annars eftir Jóhann Sigurjónsson, Indriða Einarsson og Einar H. Kvaran, og hefir hún gert það prýðilega, engu síður en ljóðin.

Utan þess að sinna sínum heimilisstörfum, sem henni hefir farist jafn vel úr hendi og alt annað, hefir hún staðið framarlega í félagsmálum í sínu umhverfi: flutt erindi víðsvegar, oft um Ísland og íslenzkan þjóðararf og viðhorf. Hefir hún því með framkomu sinni og hæfileikum unnið mikið og þarft verk í þjóðræknismálum okkar, sem aldrei verður fullþakkað og því síður launað. Viðurkenningar fyrir starf sitt naut hún þó, er

æskulýður Íslands og Kvennasamband þess, bauð henni heim 1935. Varð sú ferð henni til mikillar ánægju og hressingar á því tímabili æfinnar, þegar þreytan fer að skipa öndvegið í lífi og limum flestra, sem eins og hún, hafa lagt heila hönd að verki. Og í þeirri ferð orti hún mörg af sínum fegurstu kvæðum til ættjarðarinnar, sem hafði gefið henni svo mikil verðmæti í vöggugjöf.

Í ljóðakveri, sem hún lét prenta í Reykjavík 1942 og hún nefnir "Sá eg svani" (Barnabók), er meðal annars kvæðið "Sá eg svani fljúga", sem minnir ekki lítið á "Kveðju" Jónasar hvað þýðleik og ljóðræni snertir, þó hér sé alls ekki um neina stæling að ræða. Er það á þessa leið:

"Sá eg svani fljúga"
— sá eg hvíta breiðu
líða hægt um heiða-vatnsins flöt.
Beið eg hljóð og hrifin. —
Hér mun óskin rætast
sú, er var mér sælust fararhvöt.

Eg, sem alt frá æsku
unni hvítum vængjum,
— dreymdi í fjarlægð Íslands svanasöng,
beið, — en brugðust vonir.
Burt flaug skarinn hljóður.
— Mörg er eftirvænting æfilöng.

Ef í hreinleik hjartans
heim eg síðar leita,
— unga geymi sömu söngvaþrá,
svanir hárra heiða,
hirðskáld öræfanna,
bið eg auðmjúk bænheyrið mig þá.

En Jakobína hefir búið mikinn hluta æfinnar vestur á Kyrrahafsströnd, þar sem hún hefir ávalt unað vel hag sínum eins og flestir, sem þangað lenda. Allir sem þangað koma, munu hafa séð hið tilkomumikla sólsetur á ströndinni, en fáir munu hafa getað gert sér grein fyrir því eins fagurlega og hún gerir í þessu erindi:

"Vestrið alt í leiftri — og loga — og glóð.
Léttur bjarmi á haffleti — sólseturs ljóð.
Með fagra mynd í huga eg friðar öllu bið,
fel mig síðan draumi þar, sem austrið blasir við
— því til morgunroðans vil eg vakna."

*S. E. B.*



# The Blue Evening Star

*(Er blástjarnan skín)*

*From the Icel. of H. S. Blöndal.*

The blue evening-star
In its path-way of light,
Now gleams from afar,
Through the fathomless night.
What causes my mind
With longing to soar,
Rejoicing to find
Deep wonders in store?

The clear, silent star,
That in reverence I see,
Is sent from afar
With assurance to me:
Though dismal and cold
Be life on this shore,
Vast glories unfold
When my journey is o'er.

*Jakobína Johnson*

# Ása frá Ásum



ÁSA JÓNSDÓTTIR

Ása Jónsdóttir er fædd 28. febrúar 1920 að Ásum í Austur-Húnavatnssýslu. Foreldrar: Jón Gíslason, Húnvetningur að ætt, og Anna Jónsdóttir frá Flatatungu. Meðal skyldmenna Ásu vestan hafs er Thorsteinn J. Gíslason í Brown, Manitoba, og þau systkini. Jón J. Húnfjörð, sem nýlega lézt þar í bygðinni, var móðurbróðir hennar.

Ása útskrifaðist af Kennaraskóla Íslands í Reykjavík árið 1942; kom vestur um haf til frekara náms haustið 1943; stundaði nám á ríkisháskólanum í Minnesota (University of Minnesota) skólaárið 1943-44, síðan á Carlton College, í Northfield, Minnestoa, og lauk þar "Bachelor of Science" prófi, með sálarfræði að aðalnámsgrein, vorið 1946, með ágætri einkunn. Hlaut námsstyrk frá Kellog Foundation, sem svaraði $1,000.00 á ári, meðan hún stundaði nám á Carlton College. Stóð framarlega í félagsmálum erlendra stúdenta þar á skólanum og var um skeið forseti félagsskapar þeirra (Cosmopolitan Club).

Stundar nú framhaldsnám á ríkisháskólanum í Norður-Dakota (University of North Dakota) í sálar- og uppeldisfræði og mun ljúka "Master of Arts" prófi á komandi vori.

Hefir vakið athygli á sér með kvæðum sínum, sem birt hafa verið í vestur-íslenzku vikublöðunum.

# Norræn rödd

Vöknum af glaumsins vafa-draum
því veröldin stundum falsrómi hjalar.
En greinum óminn frá aldanna straum
er okkar formóðir talar.

Röddin er hvorki hvöss né bitur,
hún kallar ekki eða stynur hátt,
en frjáls eins og léttur fjallgolu þytur
flytjandi vorið í norðurátt.

"Eg finn eg á styrkan aflþrungin anda,
minn arfur, hið forna víkingablóð,
veitir mér þrótt svo eg stöðug mun standa
í stormviðri á lífsins Ránarslóð.

Mitt skap mér ei leyfir að vola og vona
þótt verði bylgjurnar hærri en fjöll.
Mitt einkunnarorð er, að íslenzk kona
aldrei viknar við boðaföll."

Þó ef til vill muni hana enginn skilja,
íslenzka konan bíður. — Hún veit
að báturinn hennar er bygður af vilja
og breytir ei stefnu í sigur-leit.

*Ása frá Ásum*

# Merk kona



DR. HREFNA McGRAW

Dr. Hrefna McGraw fæddist 24. apríl 1876. Voru foreldrar móður hennar þau Benidikt Einarson meðhjálpari í Hausakoti og Sólrún Sæmundsdóttir kona hans, og bjuggu þau í Staðarbakka prestakalli. Eftir að Hrefna kom ung til Vesturheims með foreldrum sínum misti hún þau bæði meðan hún var ennþá barn að aldri. Læt eg hana sjálfa segja frá þeim atburði og þeim afleiðingum, sem hann hafði í för með sér. "Dauði foreldra minna hafði þær afleiðingar í för með sér, að eg varð að sjá um mig sjálf að mestu leyti. Það var þá, sem eg beindi augum til himins og stjarnanna, og afréði með sjálfri mér, með hjálp forsjónarinnar að reyna að gera eitthvað úr lífinu, sem gerði það þess vert að lifa því. Eg ákvað þá að læra að hjúkra sjúkum. Eg útskrifaðist sem hjúkrunarkona frá Nebraska Sanitarium við College View og fullnumaði síðar þann lærdóm í Battle Creek Sanitarium í Michigan. Nokkru seinna innritaðist eg í læknaskóla og útskrifaðist frá Bennett Medical College og Loyola University.

Meira af vilja en mætti gengdi eg læknisstörfum í 30 ár. Draumur minn um það að gerast sérfræðingur gat ekki ræzt, vegna þess að heilsan bilaði og eg varð þess vegna að flytja í annað loftslag og umhverfi úti á landsbygðinni. Örlögin höguðu því þannig að í 20 ár varð eg að gegna læknisstörfum í plássi þar

sem eg var eini læknirinn á 864 fermílna svæði. Þar voru 28 mílur til næstu járnbrautar og 38 mílur til næsta sjúkrahúss."

Á þessari lýsingu má sjá að þetta hefir verið afar erfitt læknishérað, og er undravert hversu miklu verki ein veikburða kona getur afkastað.

Dr. McGraw er smá vexti og vigtar líklega innan við 100 pund. Hún er létt á fæti, fjörleg í hreyfingum með snör augu og vingjarnlegt viðmót. Þó hún hafi verið önnum kafin alt sitt líf, þá hefir hún gefið sér tíma til að lesa mikið og einnig skrifa greinar í læknablöð landsins. Hún hefir einnig tekið þátt í öðrum opinberum störfum innan síns héraðs, og fengið alment lof fyrir dugnað í þeim efnum sem öðrum. Hún er skáldmælt og yrkir á ensku, og hefi eg séð kvæði eftir hana um "Ísland", sem sýnir að hún kannast við og ber hlýjan hug til ættlands síns.

Þessi stór merka kona hefir nú hlotið alþjóðar viðurkenningu fyrir vel unnið starf sem læknir á sléttunum í Nebraska. Hún hlaut í því sambandi heimboð í Hvíta húsið 11. jan. 1939, sem heiðursgestur forsetafrúar Eleanor Roosevelt. Seinna var hennar minst af Elma Holloway í "Unsung Heroes", ásamt öðrum fjórum konum landsins, er gengt höfðu óvenjulegum störfum. Þá hefir hún verið um langt skeið starfandi meðlimur í mörgum læknafélögum og kvenfélögum landsins.

Eins og sjá má af því sem hér hefir verið sagt, á þessi íslenzki kvenlæknir afar merkilega æfisögu, og því, að hún er af íslenzku bergi brotin hefir hún aldrei gleymt, eða reynt að fela fyrir neinum. Hún getur talað íslenzku ennþá og hefir mjög mikla ánægju af að fá heimsókn frá Íslendingum, og er hún þá bara Hrefna litla Finnbogadóttir frá Tindum í Dalasýslu, sem hefir haft þá lífsreglu að trúa á hendur sem vinna, heila sem hugsar og hjarta sem elskar. Það er eftirtektarvert að á bak við æfisögu þessarar merkiskonu standa merkis feður og mæður og heimili á Íslandi, sem hafa það markmið að kenna æskulýðnum að verða eitthvað, að verða maður með mönnum. Hefir hún til útskýringar á því, birt bréf frá ömmu sinni, sem hún hefir geymt frá barnæsku, og er það svohljóðandi:

Elsku litla Hrefna mín! — Legðu rækt við þær gáfur, sem í þér búa, og vertu ánægð einungis með það bezta. Leyfðu aldrei táli hins hvíta ljóss að villa þér sjónir og eyðileggja gildi lífs þíns og fegurð sálar þinnar.

Mundu að ættleggur þinn nær til Ólafs konungs Hvíta og Auðar djúpauðgu. Hafðu þína frægu feður að fyrirmynd. Vertu aldrei ánægð með neitt yfirskin, og eyddu aldrei tíma þínum til ónýtis, því hann er dýrmætur. Vinn hverja stund að nytsamri hjálparstarfsemi, ekki einungis fyrir þig sjálfa heldur einnig fyrir aðra. Bygðu sjálfa þig upp til þess að ná takmarki því, er þú setur þér barnið mitt. Eg treysti þér, og eg ann þér svo mikið. Láttu mig ekki verða fyrir vonbrigðum. Guð sé með þér.

Amma Sólrún.

Auðséð er að þetta góða bréf hefir fallið í góðan jarðveg og óhætt mun að fullyrða það, að áhrif íslenzku ömmunnar hafa þarna beinlínis orðið til þess að leggja traustan og varanlegan grundvöll að hinu nytsama og nú þjóðfræga æfistarfi þessa fyrsta kvenlæknis í norðurríkjum Bandaríkjanna. Það er hinn góði íslenzki þjóðarmetnaður, sem hér hefir verið að verki á svo eftirminnilegna hátt, að Hvíta húsið sjálft getur ekki annað en orðið hans vart, í gegn um allan skarkalann, sem venjulega yfirgnæfir alt annað í þjóðlífinu. Því er það, að ekki einungis við sem Íslendingar, heldur má einnig Bandaríkja þjóðin vera þakklát fyrir persónu sem innir af hendi öðru eins dagsverki og jafn trúlega og Hrefna Finnbogadóttir.

Það líktist helzt einskonar æfintýri á ferðalagi okkar vestur á ströndinni að finna þessa íslenzku konu þarna í North Platte, einangraða frá öllum Íslendingum mestan hluta æfinnar, en þrátt fyrir það íslenzka í anda og fróða um íslenzk efni og forvitna um þau meir en alment gerist. Hún heilsar með "Komið þið blessuð og sæl", og andlitið ljómar af fögnuði yfir því að geta mælt við fólk á því máli sem hún lærði fyrst, og vildi ekki gleyma. Á heimili hennar áttum við yndislega stund og oftast var talað á íslenzku, jafnvel þó Jósep maður hennar ekki skildi þetta hrognamál! En hann er þó í mörgu líkur Íslendingum að öðru leyti en því, að hann hefir ekki lært málið. Vildi hann alt fyrir okkur gera og lýsti ánægju sinni yfir heimsókninni. En síðan þetta gerðist hafa þau hjónin nú hætt störfum þarna og flutt vestur til Californíu, þar sem þau hyggjast að eyða elliárunum unz kveldsólin rennur í hið kyrra haf.

Við sem nutum dagstundar í North Platte með þeim, þökkum þeim fyrir alúðina og íslenzku gestrisnina. Óskum þeim

friðsæls æfikvölds og langra lífdaga í hinu nýja sólríka umhverfi sem þau hafa nú valið sér að enduðu miklu og blessunarríku æfistarfi.

*Marja Björnson*

---

# Við eldinn

Eg hugsa um þig, þú átt hug minn einn,
er eg horfi í eldsins glóð.
Mín andvökuljóð heyrir aldrei neinn,
en þau örva mitt hjartablóð.
Þau vekja þrá,
sem eg alein á
og engin nær frá mér taka;
þau gefa þrótt
um þögla nótt —
þá er svo ljúft að vaka.

Eg vil gefa þér aftur hið inndæla vor,
aftur þitt sakleysi og frið.
Þótt örlögin geri þér erfitt spor,
og engin veiti þér lið.
Eg vil rétta þér hönd
yfir höf og lönd,
ef hefirðu frelsið misst.
Eg vil lækna ein
þín örlaga mein,
og yrkja um þig síðast og fyrst.

*Ása frá Ásum*

# Fimm merkar konur

## FRÚ ANNA GÍSLASON, WINNIPEG, MAN.

*Heiðursfélagi í Sambandi íslenzkra frjálstrúar kvenna.*
*Eins af stofnendum Unitara safnaðarins í Winnipeg.*



FRÚ ANNA GÍSLASON

Anna er fædd á Íslandi, 25. apríl, 1866. Foreldrar hennar voru þau, Eyjólfur Guðmundsson bóndi að Brimnesi og Hólagerði í Fáskrúðsfirði, og Þórunn Sigurðardóttir frá Bót í Norður-Múlasýslu.

Til Vesturheims fluttist Anna með foreldrum sínum, 1878. Settust þau fyrst að á Gimli, en fluttu til Winnipeg eftir nokkur ár og dvöldu þar til æfiloka.

Árið 1887, giftist Anna Eiríki Gíslasyni frá Egilsstöðum á Völlum í N.-Múlasýslu, hinum ágætasta manni. En 1899, andast Eiríkur. Stendur þá Anna uppi með hóp af börnum og aldraða móður. En Anna æðrast ekki. Hún hefir ofanaf fyrir sér og fjölskyldunni með því, að taka inn sauma. Tíminn líður. Börnin vaxa. Smátt og smátt fara þau að hjálpa móður sinni. Árin líða. Börnin giftast, hvert af öðru. Nú býr Anna hjá syni sínum, sem er kvæntur hérlendri konu, og lætur vel af hag sínum.

Í herbergi Önnu stendur stór skápur með íslenzkum bókum. Segist hún lesa þær upp aftur og aftur, því nú sé hún orðin svo gleymin á það sem hún lesi.

Messur sækir hún betur en margur annar, þó er heyrnin orðin svo biluð, að hún hefir lítil not af ræðu prestsins. En hún

segist heyra sönginn og fylgjast með sálmunum. "Mér líkar, að koma í kirkju", segir Anna.

Þetta er nú trygðin, sem hún ber til safnaðarins, sem hún hjálpaði til að stofna.

Gáfuð, einbeitt og lífsglöð, Anna Gíslason hefir unnið stórt dagsverk.

★

## FRÚ JÓNÍNA INGIBJÖRG JÓNASSON, ÁRBORG, MAN.

*Ein af frumbýliskonum Nýja-Íslands. Ein af brautryðjendum frjálstrúar stefnunnar að Gimli. Heiðursfélagi í Sambandi íslenzkra kvenna.*



FRÚ JÓNÍNA INGIBJÖRG JÓNASSON

Fáir munu gera sér grein fyrir því, hvað lækniskonan hefir víðtæk áhrif á starf manns síns. Ætla eg því aðallega að minnast Jónínu, sem konu læknisins.

Kemur Jónína og maður hennar, Einar læknir Jónasson og börn þeirra mikið við sögu Nýja-Íslands. Þau áttu níu börn. Fjórar stúlkur og fimm drengi. Heimili þeirra hjóna, var með beztu heimilum í þorpinu.

Ljós logar í glugga þegar fer að skyggja og eldur brennur á arni, bæði dag og nótt. Alt verður að vera hreint, bjart og hlýtt, ekki einungis fyrir börnin og manninn, en jafnframt fyrir þá, sem að garði bera, sem eins er oft að nóttu til sem degi.

Vanalega er það Jónína sem fer til dyra. Finnur gesturinn strax í handtakinu, samúð og velvild. Oft er það faðir, að leita barni sínu eða eiginkonu lækninga. Og með vegalengdinni og brautarleysinu á öllum tímum árs, var læknis sjaldan vitjað

nema líf lægi við. Oft kom það fyrir, að læknirinn var ekki heima. Stundum farinn langa leið og engin vissa nær hann kæmi til baka. Stilling, lipurð og gestrisni Jónínu, gerðu gestunum þægilegri stundina, meðan þeir biðu læknisins. En, þrátt fyrir alt rólyndi og stillingu, átti Jónína margar andvöku nætur, þegar hún vissi af Einari lækni einhversstaðar út í náttmyrkrinu á ófærum brautum. Til að sýna, að það var ekki æfinlega að ástæðulausu, skal gefa eitt dæmi.

Það var í leysingum eitt vor, nokkru eftir aldamótin, að eitt af börnum Valgerðar og Stefáns Sigurðssonar, Hnausa, Man.. veiktist. Hnausar eru tuttugu enskar mílur fyrir norðan Gimli. Hafði undanfarið verið ferðast á ís. En ísinn var nú orðinn varasamur. Samt hættir Stefán á það, og sendir tvo menn með hestapar inn að Gimli, að sækja Einar lækni. Ferðin gekk slysalaust. Einar var heima og fer með sendisveinum Stefáns. Fara þeir sömu leið til baka. En fyrir framan Árnes, þegar þeir eiga átta mílur eftir, missa þeir hestana ofan í. Sjálfir komust þeir af, en hestarnir voru dauðir í vökinni morguninn eftir. Ekki hefir það verið að ástæðulausu, þó Jónínu yrði ekki svefnsamt þessa nótt.

Jónína Ingibjörg Jónasson, er fædd 18. júní 1865, á Veigastöðum við Eyjafjörð. Foreldrar hennar voru, Sigfús Ólafsson frá Hvammakoti í Möðruvalla kirkjusókn í Eyjafirði og Elín Jónsdóttir, ættuð úr Mývatnssveit.

Til Vesturheims kom hún með foreldrum sínum, 1876, og settust þau að á Gimli; 24. okt. 1884 giftist Jónína Einari Jónassyni lækni, bróður Jóhannesar Jónassonar, bónda á Jaðri í Breiðuvík, Hnausa, Man. Til Alberta fluttu þau 1888. Þaðan til British Columbia 1892. Aftur til Gimli 1899. Bjuggu þau á Gimli þar til Einar andaðist 25. ágúst 1931. En Jónína bjó á Gimli þar til fyrir þremur árum, að hún flutti til dóttur sinnar og tengdasonar, Sigurðar Oddleifssonar, sem búa nálægt Árborg, Man.

Háttprúð, hugljúf, við sæmilega heilsu og í góðu yfirlæti, nýtur nú Jónína hvíldar eftir víðtækt og vel unnið starf.

Í heimi minninganna, mun hugurinn alla jafna dvelja á Gimli.



## FRÚ SIGRÚN SIGVALDASON, RIVERTON, MAN.

*Frumbyggjara dóttirin. Ein af allra ötulustu konum frjálstrúar stefnunnar í Riverton. Heiðursfélagi í Sambandi íslenzkra frjálstrúar kvenna.*



FRÚ SIGRÚN SIGVALDASON

Gáfuð, hjartagóð og með óbilandi starfsþreki, hefir Sigrún, jafnframt því, að sinna búi sínu og börnum, gefið sig töluvert við hjúkrunarstörfum. Hefir margur til hennar leitað þegar mikið lá við. Mun hjálpsemi og fórnfýsi Sigrúnar þeim ógleymanleg, sem samleið hafa átt með henni. Ekki er Sigrún lærð hjúkrunarkona, enda mundi hún þá hafa horfið frá æskustöðvum sínum, að minsta kosti um stundar sakir. En þó hún sé ekki lærð upp á almenna vísu, er hún marg leikin í þeirri list, að hjúkra. Og ekki þekki eg neina lærða, sem mundi vilja feta í fótspor hennar. Mikið af hjúkrunarstörfum sínum hefir Sigrún unnið fyrir lítið eða hreint ekki neitt, og látið sér vel nægja.

Guð blessi þig! Guð launi þér!

Sigrún Jóhanna er fædd á Akri við Íslendingafljót, 1878. Árið 1897 giftist hún Jóni Sigvaldasyni úr Skagafirði. Hafa þau lengst búið á Akri við Riverton, Man. Af börnum þeirra eru á lífi, einn sonur og tvær dætur.

Foreldrar Sigrúnar voru Þorgrímur Jónasson hómópati, frá Miðvatni í Skagafirði. Óefað hefir starf Þorgríms læknis og leiðbeiningar og eftirdæmi Steinunnar, vakið viðkvæmar og mannúðarfullar kendir í brjósti Sigrúnar dóttur þeirra. Og hin skarpa dómgreind hennar bent henni á, hvað mikil þörf væri á að binda sár og þerra tár samferða sveitarinnar.



## FRÚ SIGURLAUG KNÚTSEN, GIMLI, MAN.

*Ein af frumbyggjara konum Nýja-Íslands og ein af brautryðjendum Unitara hreyfingarinnar. Forseti Gimli kvenfélagsins að Gimli í mörg ár.*



FRÚ SIGURLAUG KNÚTSEN

Bráð gáfuð, vel mentuð bæði til munns og handa, skarpskygn og ör í lund. Lét hún álit sitt óhikað í ljósi, hver sem í hlut átti, en veitti þeim málum alt sitt fylgi, sem hún áleit réttust vera. Nú með fallegu, gáfulegu augun lokuð í full sjö ár og komin á níræðis aldur, er hugsunin og kjarkurinn sá sami. Sem dæmi vil eg geta þess, að skírteinið, sem Samband íslenzkra frjálstrúar kvenna, sendi henni þegar hún var gerð að heiðursfélaga, lét hún setja í skrautlegan ramma og lætur það standa á kommóðunni í herbergi sínu á "Betel". "Eg hefi skírteinið þar", segir hún, "svo allir geti vitað hvar eg standi". Hún er ekki að hörfa undan merkjum. Ekki væri eins mikið um óvissuna í heiminum í dag, ef fleiri væru eins hreinskilnir og Sigurlaug Knútsen.

Sigurlaug er fædd 23. des. 1862. Foreldrar hennar voru: Gunnlaugur Guðmundsson frá Vatnshlíð í Húnavatnssýslu og Sigurbjörg Eyjólfsdóttir frá Gili í Svartárdal.

Til Vesturheims kom Sigurlaug með manni sínum, Jens Knútsen, 23. sept. 1887. Settust þau að í Brandon. Eftir fjögur ár, fluttu þau til Gimli og bjuggu þar unz Jens dó.

Sigurlaug bjó áfram á Gimli, þar til fyrir sjö árum síðan, að sjónin bilaði. Fór hún þá til vetrarsetu að "Betel". Ekki varð Sigurlaugu og Jens barna auðið. En fósturson áttu þau, Björn Knútsen, nú kvæntan og búsettan í Bandaríkjunum. Einnig tóku þau 8 ára stúlku. Var hún nýbúin að missa móður sína. Var faðir hennar búsettur í Winnipeg og hafði samkvæmt ráð-

leggingu læknis komið stúlkunni í fóstur úti á landi, því hún var heilsulítil.

Nýverið átti eg tal við þessa stúlku, sem nú er gift kona og margra barna móðir. Spurði eg hana hvort hún myndi eftir Mrs. Knútsen. "Já, eg held það nú", sagði hún. "Mrs. Knútsen gleymi eg aldrei". Sagðist hún hafa verið hjá henni í fimm ár. Kvað hún hana ágætis konu, gáfaða, eldheitan unitara, en þó umburðarlynda. Kvaðst hún oft hafa haft gaman af þessum og hinum samræðum, sem fram fóru á heimilinu. Mun hafa verið gestkvæmt þar, eins og undantekningarlítið á öllum heimilum Nýja-Íslands í þá daga, og er enn í dag. Fólkið var og er í heildinni gestrisið og mannúðarfult, og mun heimili Sigurlaugar og Jens Knútsen ekki hafa verið nein undantekning.

★

## FRÚ GUÐRÚN JOHNSON, ÁRNES, MAN.

*Ein af frumbyggjarakonum Nýja-Íslands. Heiðursfélagi í Sambandi íslenzkra frjálstrúar kvenna.*



FRÚ GUÐRÚN JOHNSON

Guðrún er fædd á Íslandi, 25. febrúar 1877. Fluttist hún til Vesturheims með foreldrum sínum, Þorvaldi Þorvaldssyni og Þuríði Þorleifsdóttur, frá Ytri-Hofsstöðum í Blönduhlíð, 1887. Árið 1896 giftist Guðrún Sigurjóni Jónssyni, ættuðum frá Lauganesi í Helgastaðahrepp í Reykjadal. Reistu þau bú í Árnesi og nefndu Odda, og bjuggu þar allan sinn búskap. Sigurjón lézt að heimili sínu í september 1925. Sigurjón var hið mesta valmenni. Var hans saknað af öllum sem hann þektu. Guðrún og Sigurjón eignuðust 9 börn, 5 drengi og fjórar dætur. Guðrún hélt áfram búi sínu á Odda þar til fyrir nokkrum árum, að hún flutti til Þuríðar dóttur sinnar og tengdasonar, Jónasar

Ólafssonar, Árnesi. Býr hún þar í góðu yfirlæti. Guðrún er safnaðar skrifari, var í mörg ár forseti, syngur í söngflokknum. Í einu orði, starfar með óþreytandi viljaþreki að öllum félagsmálum. Gáfuð, hugprúð, létt í spori, þýð í viðmóti, heldur Guðrún áfram að starfa.

*Sigurrós Vídal*

---

# Heimsókn

Í síðast liðnum marz mánuði, heimsóttu nokkrar konur úr stjórnarnefnd Sambandskvenfélaganna, Mr. Gísla Johnson og dætur hans að heimili þeirra á Banning St., í Winnipeg. Þessar konur færðu Mr. Johnson dálitla gjöf í minningu um konu hans, frú Guðrúnu H. Finnsdóttur, sem lézt 25. marz í fyrra. Gjöfin var vönduð ritáhöld, sett á marmaraplötu, og á plötunni var bronslíkneski af vísundi og upphleypt kort af Íslandi gert af gulli. Afhenti Mrs. S. E Björnson, forseti Kvennasambandsins gjöfina með þessum orðum:

Kæru vinir, Gísli Johnson og dætur:

Þessi heimsókn frá stjórnarnefnd Kvenfélaga Sambandsins, var ákveðin fyrir nokkru síðan, og er tilgangur hennar sá að sýna á einhvern hátt örlítinn vott þeirrar virðingar og hlýhuga, sem okkar ágætu félagssystir, Guðrún sál., átti og á ávalt, í hugum okkar. Kom okkur saman um að hún myndi helzt hafa kosið, að við sýndum okkar þakklæti og virðingu með því, að leitast við að gleðja hennar nánustu skyldmenni á einhvern viðeigandi hátt. Höfum við því, með það fyrir augum, látið gera marmaraplötu, þar sem sjá má mynd af gamla landinu okkar allra, með Manitoba merkið og ritföng, sem hún kunni svo vel með að fara, okkur öllum til ósegjanlegrar ánægju og uppbyggingar. Við viljum með þessu leitast við að sýna það í verki, að okkur sé ant um að þær hugsjónir, sem hún vildi að réði athöfnum í lífi manna, nái að festa djúpar rætur hjá okkur sjálfum, og þá einnig í okkar sameiginlega félagsskap. Við viljum læra að meta þau "Hillingalönd", sem hún sá og greindi svo vel frá, í sínum frábæru sögum, þar sem hún bendir víða svo fagurlega á lífsviðhorfin í þeirra margvíslegu myndum. "Að sjá og taka eftir annara gleði og sorgum. sýnir okkur greinilega þann raunhæfa sannleika að enginn lifir sjálfum sér." Hún minnir okkur einnig á, að til þess að ná ákveðnu takmarki í einhverri mynd, verðum við að leggja fram alla krafta sálar og líkama, og væri betur farið ef fleiri hugsuðu á þá leið, en nú gerist. Myndin af Íslandi táknar þá hér þær miklu og farsælu gáfur, sem voru hennar vöggugjöf, en sem þroskuðust og náðu hámarki sínu hér í Manitoba, þar sem hún fann efnið í flestar sögurnar. En rit-

föngin eiga að tákna hennar góða og mikla starf í þágu okkar íslenzku bókmenta.

Eina gullvæga setningu úr sögum hennar má vissulega heimfæra um hana sjálfa, er hún á þessa leið: "Á leiðinni heim var eg að hugsa um hversu djúp spor sumir skilja eftir í sandinum og hvort það er ekki eina fólkið, sem í raun og veru hefir lifað." Eg er þess fullviss að Guðrún H. Finnsdóttir skildi eftir þau spor í sandinum, sem seint muni fyllast þó að fjúki í skjólin, og vel væri að sem flestir reyndu að glöggva sig á þeirri slóð á leiðinni heim, þangað sem "Hillinglönd" framtíðarinnar blasa við sjónum manna. Og hver sá er eftir skilur slík spor í sandinum hefir í raun og veru lifað sjálfur, og notið þess bezta og fegursta sem lífið getur gefið hverjum einum. Það er víðsýn þroskaðs sálarlífs, samfara starfsgleði og staðfastri trú á hið góða og göfuga í lífi einstaklings og þjóða til fullnaðar sigurs í hinni miklu baráttu mannsandans.

Kæru vinir! Með þeirri hugsjón, sem eg hefi nú reynt að skýra frá, afhendi eg ykkur þessa litlu minningargjöf frá Kvennasambandinu, sem lítinn vott þeirrar virðingar og þess þakklætis, sem við berum í brjósti fyrir hennar óeigingjarna og mikilhæfa starf í þágu okkar félagsmála frá fyrstu tíð. Marja Björnson

Að því loknu mælti Mr. Johnson nokkur vel valin orð og þakkaði gestunum fyrir gjöfina.

Í desember eintaki **The Alliance World** er þess getið að nafn Mrs. Guðrúnar H. Finnsdóttur Johnson hafi verið letrað á minningartöflu þá, sem allsherjar samband unitariskra kvenfélaga í Bandaríkjunum og Canada letra á nöfn þeirra kvenna, sem skarað hafa fram úr í kristindóms- og menningar-starfsemi í félagsmálum Unitara félagsins. Í sama eintaki blaðsins eru þessi minningarorð um hana:

GUÐRÚN H. FINNSDÓTTIR JOHNSON
Fædd á Íslandi 6. febrúar 1884, dáin í Winnipeg,
Manitoba, Canada, 25. marz 1946.

Sú sorgarfregn hefir borist blaðinu, að Mrs. Guðrún Johnson í Winnipeg, Man., sé látin. Hún var ritstjóri þess hluta tímaritsins Brautin, sem Kvennasambandið hefir til umráða, og er Brautin eina unitariska ritið, sem birt er á íslenzku í Canada. Mrs. Johnson var meðstarfandi ritnefndar **The Alliance World** á því sviði, að boða kenningar Unitara trúarinnar íslenzkum konum.

Mrs. Gísli Johnson var vel mentuð kona, sem með látleysi og dugnaði vann að gengi unitarisku hreyfingarinnar. Hún var ræðukona góð, rithöfundur og hafði samið og gefið út safn af smásögum, sem heitir Hillingalönd, og birtist 1938.

# Jane Addams (1860--1935)

*"Jane Addams fjörutíu ár í Hull House" — W. E. Wise*

*Erindi flutt á kvenfélagsfundi í Árnesi af frú Margréti Stevens*

Fyrstu áhrif æskuáranna, sem Jane varð fyrir, komu beint frá föður hennar. Hún virti hann og elskaði umfram alla aðra og trúði honum fyrir öllum sínum leyndarmálum. Hún var afar hugfangin af föður sínum, sem var hið mesta glæsimenni og hafði hún einkum gaman af að segja frá ýmsum heimsóknum til Sunnudagaskólans, sem hann stjórnaði. Jane var heilsuveil á bernskuárunum og ágerðist það svo að hún varð kryplingur, sem meðal annars gerði hana áhyggjufulla út af sinni persónulegu smæð. Henni fanst það vera lítilsvirðing við föður sinn að nokkur af þessum aðkomugestum skyldi halda að hún væri dóttir þessa virðulega manns. Þess vegna reyndi hún, svo lítið bæri á, að forðast hann þegar aðrir sáu til, og í stað þess var hún eins nálægt föðurbróður sínum og unt var og vissi hann aldrei ástæðuna fyrir þeirri ráðabreytni. Hún hugsaði sem svo að þetta gerði honum ekkert til, vegna þess að mismunurinn á þeim persónulega var ekki eins gífurlegur, og svo voru hans börn ekki neitt sérlega falleg heldur. Í öðru sinni mintist hún eins sunnudagsmorguns, þegar hún hafði hugsað sér að klæðast afar fallegri nýrri kápu, sem hún þá átti og fara í henni í skólann. En þá kom faðir hennar henni til að trúa því, að gamla kápan væri eins hlý, og ef hún klæddist henni eins og venjulega, þá hefði hin börnin ekki ástæðu til þess að öfunda hana. Kom þetta henni til að fara að hugsa um þann ójöfnuð, sem ríkti í mannfélaginu, og faðir hennar sagði henni þá, að þó að vísu hin ytri velgengni mannanna myndi ávalt verða ójöfn, þá væri annað, sem menn gæti allir orðið aðnjótandi, og sem væri meira virði í sjálfu sér: væri það mentun og siðgæði. Væri því fásinna að klæðast þannig að þeir snauðu í kirkjunni eða skólanum

fyndist sér misboðið með því. Jane reyndi ávalt sitt ítrasta að líkjast föður sínum í öllu, jafnvel vildi hún reyna að leggja á sjálfa sig alt hið mótdræga, sem hún vissi að hann hafði orðið að þola á sínum fyrri árum. Hún var komin á fætur fyrir dag og las bækur sem voru taldar of þungar og óhæfar börnum á hennar aldri. Þegar hún var enn barn að aldri gerði hún tilraun til að berja á sér flatan þumalfingurinn; vegna þess að faðir hennar hafði flatt á sér þumalinn í vinnu við hveitimillu á fyrri árum. Við þá vinnu verða hendurnar hrjúfar með smá blettum hér og þar og reyndi Jane að gera sínar hendur eins með því að halda þeim nálægt kvarnarsteininum í þeirri von að þær fengi þessa smáu blárauðu bletti á sig líka.

Þegar Jane var 17 ára byrjaði hún að ganga á Rockford College, sem er skóli er undirbýr fólk fyrir trúboðsstarf. En þessi skóli varð henni ekki að miklum notum og sýndist ekki hæfa henni á neinn hátt. Skólanámið var ekki nærri búið þarna, þegar hún hafði ákveðið með sjálfri sér að læra læknisfræði og vinna meðal fátæka fólksins, því nú hafði hún fengið áhuga fyrir vísindanámi. Fyrsta gjöf sem hún gaf eftir að hún hafði fengið arfleifð, var $1000.00 til bókasafnsins í Rockford College, og ákvað hún að peningunum skyldi varið til að kaupa bækur um vísindaleg efni. Hún var í hópi þeirra nemenda, sem fyrst fengu B. A. gráðuna frá þessum skóla. Að því loknu gekk hún á kvennalæknaskóla um tíma; en sökum þess að bakveikin ágerðist varð hún að hætta því námi og ferðaðist hún þá um Evrópu næstu árin. En áður en hún kom heim úr því ferðalagi hafði hún komist að þeirri niðurstöðu, að það væri fleiri vegir til þess að hjálpa bágstöddum, en sá, að vera læknir þeirra. Og þegar hún kom til Chicago byrjaði hún á því fyrirtæki ásamt annari konu að setja á stofn heimili fyrir fátækt fólk "Settlement House", og eftir langa leit fann hún gamalt stórt hús í fátækra hluta borgarinnar, sem kallaðist útlendingahverfi. Hús þetta stóð þá inn á milli grafarahússins og vínsölunnar og voru þessi hús nefnd eftir röð: Dauðinn, Riddarinn og Djöfullinn.

Fluttu þessar tvær konur ásamt húsmóður, sem þær höfðu ráðið, inn í þetta hús 18. sept. 1889. Meðal annars höfðu þær keypt ágæta húsmuni og veggmyndir o. fl. til hússins algerlega án utanaðkomandi hjálpar, og á fyrstu árunum var þeim engin peninga hjálp veitt frá neinum.

Fyrst stofnuðu þær lestrartíma fyrir stúlkur og þá smábarnadeild. Það er sagt frá því, að eitt sinn hafi ítalskur smákrakki komið kendur í tímann eftir að hafa borðað brauð, sem hafði verið bleytt upp í víni. Hafði kennarinn kurteislega ávítað móður barnsins fyrir þetta, og um leið haldið bindindisræðu yfir henni, sem hafði þann árangur að henni voru boðnar margar tegundir af víni og viský í ofanálag.

Næst var drengja klúbbur myndaður. Var börnunum deilt í flokka og hverjum flokki var kend viss handiðn. En það var þá ekki kent í skólum alment. Þegar þessi börn hættu skóla voru ráðstafanir gerðar fyrir áframhaldandi námi í kvöldskólum og klúbbum.

Þetta "Settlement House" var ekki notað fyrir þá ungu eingöngu, því þar var ekkert aldurstakmark og gamalt fólk á öllum aldri hélt þar fundi sína. Skóli var þar einnig fyrir fullorðna. Jane og hjálpendur hennar höfðu einnig stundum öðru að sinna á meðal fólksins; að þvo hvítvoðungum, eða búa þá dánu undir greftrun, hjúkra sjúkum, passa börn og jafnvel sitja yfir konum. Alt þetta gerðu þær fúslega og án endurgjalds. Kurteisi og vinarþel var það eina, sem þær hlutu að launum.

Þá var kaffisalur bráðlega settur á laggirnar í "Hull House" og einnig leikfimissalur. Var hinn fyrnefndi salur stofnsettur til þess að gleðja hina þreyttu verkamenn og sifjalið þeirra, sem gat ekki, sökum fátæktar, veitt sér slíkt. Varð þessi kaffisalur fljótlega einskonar miðstöð fyrir samfélagið. Þá mynduðu nokkrar vinnustúlkur félag með sér, sem þær nefndu "Jane Club", þar sem þær gátu búið saman án mikils kostnaðar. Varð þetta félag svo stórt, að seinna þurfti að reisa nýtt hús fyrir það. Mörg fleiri samstarfsfélög voru mynduð. Auðugur fésýslumaður í Chicago gaf listasafn til skólans og eftir það voru margar byggingar reistar ein eftir aðra. Var alt þetta mjög kærkomin framþróun fyrir Jane og hennar samverkakonur. Hún sýndi öllum heimi verk þeirra og leiddi í ljós þau sannindi að mentun og hvíld frá þrældómi væri engu síður nauðsynlegt fyrir útlendingana en aðra.

Þessi fyrstu ár í "Hull House" voru oft afar þreytandi fyrir vinnufólkið; því stundum var hvert herbergi fullt af fólki frá morgni til kvölds. Stundum voru peningavandræði og fjárþröng svo mikil, að alt hlaut að standa í stað, sem ákveðið hafði verið að koma í framkvæmd. Er fimm ár höfðu liðið frá stofn-

un, var vinnufólkið 15 að tölu, menn og konur, og sumt af því ungt fólk, sem var að leita gæfunnar í góðverkinu. Var því fólki oft falið að lagfæra ýmislegt fyrir þá, er leituðu ráða; leita hjálpar fyrir bágstaddar konur, útvega ekkjum lífsábyrgðir, og borgun til þeirra, sem urðu fyrir meiðslum o. s. frv.

Þannig varð þessi stofnun einskonar eldri bróðir fyrir nágrennið, sem varði hinn smáa gegn hinum stóra og sterka, og marga raunalega sögu mætti segja frá þessu tímabili stofnunarinnar.

Þá tók Hull House að sér að líta eftir börnum þeirra mæðra sem urðu að fara út í vinnu, en seinna var reist sérstakt hús fyrir þessi börn, sem var kallað barnahúsið.

Þá var stofnað félag, sem fjallaði eingöngu um Samvinnu vísindi og mættu þar margir með mismunandi skoðanir á þeim hlutum. Voru fundirnir fjölmennir og ræðumenn fengnir víðsvegar að. Voru friðsamir fundir haldnir þó margt af félagsmönnunum væri róttækir í skoðunum.

Á fyrstu árum Hull House, fékk Jane Addams vitneskju um margar raunalegar sögur um barnaþrælkun. Sum börnin, aðeins 4 ára, voru látin vinna í verksmiðjum með foreldrum sínum. Og börn 12 og 13 ára voru aðalvinnukraftur heimilanna. Var það því fyrir milligöngu hennar og annara að lög voru samin í borginni sem bönnuðu barnavinnu. Var þetta og annað til þess að Hull House hlaut að beita sér fyrir ýmsum framförum verkafólksins.

Nú kom það í ljós, að fyrsta og önnur kynslóð innflytjendanna var að verða aðskila í ýmsu hvor frá annari, og til þess að koma í veg fyrir áframhald á því, hafði Hull House sérstakt kvöld fyrir Ítali og annað fyrir Þjóðverja o. s. frv., og urðu þetta skemtikvöld á þjóðræknis vísu. Sérstök herbergi voru gefin fyrir alskyns þjóðlegar íþróttir og iðju eins og spuna, vefnað eða þá til að sýna og sanna það, að tunga, trúarskoðun eða stjórnmálaskoðun hefði alls ekkert að gera við handiðn fólksins. Ræður voru fluttar um sögu iðnaðarins og hefir vefnaðar listasafn risið upp í sambandi við þessa kenslu í Hull House, þar sem innflytjendurnir urðu oft til þess að skipa kennarastöður. Varð þetta svo síðar að verkasafni, þar sem hægt er að rannsaka og þreifa á fegurðarsmekk liðinna kynslóða. Nú hlutu börnin að virða mæður sínar, er þau sáu hversu mikið aðrir dáðust að verkum þeirra. Og með tíð og tíma óx þetta verkstæði þangað til það

hlaut að hafa stöðugt vinnufólk frá öllum þeim þjóðflokkum, sem þarna höfðu tekið sér bólfestu, og borgaði þá sala á framleiðslunni fyrir vinnu fólksins.

Þrátt fyrir allar þessar framfarir í sambandi við HullHouse, hafði Jane Addams fundið til þess um nokkurt skeið, að í raun og veru ætti vinnufólk staðarins og hún sjálf að taka virkan þátt í erfiði og kjörum lýðsins. Hafði hún um mörg ár lesið og kynt sér verk Tolstoy og lesið umsagnir um þau frá öðrum um hann, sem vann og lifði með lýðnum. Tók hún tækifærið, þegar læknar ráðlögðu henni hvíld við heilsubilun, að ferðast til Rússlands og eftir langa og þreytandi ferð tókst henni að finna hinn mikla mann. Mætti hann henni klæddur í verkamanna föt og þegar hann dró fram kjólermi hennar með þeim ummælum að hún hefði þarna nóg aukaefni í barnskjól, og sem hún hefði ekkert við að gera annað en taka það frá þeim sem þyrfti þess með, varð henni orðfall. Og er hann spurði hver fæddi hana og klæddi, gaf hún þá skýring að hún hefði búland 100 mílur frá Chicago, sem framleiddi allar hennar lífsnauðsynjar. Sakaði Tolstoy hana þá um það, að hún væri landeigandi í fjarlægð, sem lifði á annara þrældómi, í stað þess að leggja sjálf hönd á plóginn og rækta jörðina. Og á meðan á samtalinu stóð kom dóttir Tolstoys heim úr vinnu á akrinum, þar sem hún hafði stritað frá sólarupprás til sólseturs. Ferðamenn frá öllum löndum heimsóttu þennan mikla mann, sem löngu var frægur orðinn fyrir rit sín og niðurstöðu á mannfélagsmálum og jafnframt fann mesta ánægju í því, að taka virkan þátt í kjörum verkalýðsins, sem einn af þeim. Hann, ásamt dóttur sinni, settist við borð með verkalýðnum á meðan fólk hans ásamt gestum þess, sat við kræsingar ríku stéttarinnar. Ásetti Jane Addams sér, þegar heim kæmi, að nota tvo klukkutíma hvern dag til þess að gjöra brauð og baka fyrir Hull House; en í reyndinni komst hún fljótt að þeirri niðurstöðu, að lítil sáluhjálp myndi stafa frá þeim verknaði og vissulega gæti hún notið hæfileika sinna betur með öðru móti, og gert meira gagn fyrir þá, sem þurftu á hennar hjálp að halda.

Um þessar mundir voru dauðsföll tíð í nágrenni við Hull House og var óþrifnaði fólksins um það kent. Fór þá kvenfélagið á stúfana að líta eftir hlutunum, og að lokum var Jane sjálfkjörin til þess að hafa eftirlit með öllum hreinsunum innan hús og utan. Var þetta ekkert smáræðis verk, en henni tókst að

finna orsök veikindanna í gömlum úrgangi, er lá falinn undir 18 þumlunga þykku jarðlagi í einni götunni. Kom á daginn, að eftir hreinsun á þessu hvarf veikin úr umhverfinu. Það er ekki hægt að segja frá öllum þeim lagfæringum, sem Hull House kom til leiðar, en þó má nefna "Juvenile Protective Association", aukinn og bættur húsakostur, atkvæðisréttur kvenna í sveitamálum og ennfremur óteljandi rannsóknir á hverju því, sem leitt gat til þess að bæta hag fólksins yfirleitt.

Í Hull House var afar mikil áherzla lögð á kenslu í listiðju, og var sérstök kenslustofa höfð fyrir það út af fyrir sig. Komu oft fram óvenjulegir hæfileikar í hópi þátttakenda og margar tegundir listaverka voru framleiddar. Hljómlistamenn víðsvegar að úr borginni komu í heimsókn á sunnudögum og skemtu fólkinu; börn og fullorðnir tóku þátt í söngnum. Var börnum kent að leika á hljóðfæri og semja lög í Hull House Music School. Lítið leikhús var reist og leikir sýndir, margir frumsamdir og mismunandi þjóðflokkar æfðu sína gömlu leiki. Þá var einnig höfð árssýning, sem dró til sín 9,000 gesti sem allir höfðu áður margsinnis verið gestir í Hull House.

Þá var einnig komið á fót einskonar framhaldsskóla fyrir þá, sem stunduðu nám, og sumarskóli var stofnaður. Varð þá Hull House að einskonar áframhaldsskóla fyrir háskólamenn og konur, og fyrirlestrar voru fluttir vikulega yfir fullu húsi af nemendum. Sá þá Jane Addams aftur marga þeirra, sem áður höfðu verði þar meðlimir í ýmsum félögum hennar, verða nýta borgara landsins og marga, sem voru orðnir hámentaðir menn.

Eftir tuttugu ára starf voru 40 menn og konur, sem þarna höfðu notið hjálpar nú reiðubúnir að eyða öllum tómstundum sínum til þess að endurgreiða skuldina með ýmislegu móti. Það voru blaðamenn, verzlunarmenn, læknar, kennarar, vísindamenn, lögfræðingar, hljómlistamenn o. s. frv. Þeir höfðu sitt heimili í Hull House og lifðu samfélagslífi. Þeir sem leigðu íbúðir í Hull House notuðu allir eitt eldhús og einn borðsal, og allir gátu notað endurgjaldslaust lestrarstofu, setustofu og leikhús. Húshringur þessi telur nú 13 byggingar, sem allar hafa hita og ljós frá einni miðstöð.

Bók hefir verið skrifuð um Hull House, og er helmingur hennar um Jane Addams síðari 20 ár í Hull House. Er í bókinni margs minst, sem ekki er hægt að segja frá í stuttu máli. Talsvert er þar sagt frá tilraunum hennar í þá átt að koma á

varanlegum veraldarfriði. Þá lagði Jane Addams grundvöllinn að "Women's International League for Peace" eða alþjóðafriðar félagi kvenna og var hún forseti þess félags í mörg ár. Það er skiljanlegt, hversvegna hún bar svo einlæga friðarþrá í brjósti, þegar maður gerir sér grein fyrir því, að í 40 ár bjó hún meðal fólks frá 36 þjóðum, sem bjuggu í nágrenni hvor við aðra í sátt og samlyndi. Jafnvel á þeim árum, sem land hennar stóð í stríði hafði hún ein kjark til þess að mótmæla, og fyrir það fékk hún auðvitað alvarlega ofanígjöf.

Árið 1931 hlaut hún friðarverðlaun Nobels. Nefndi framsögumaður nefndarinnar við afhendingu verðlaunanna, hana "America's Uncrowned Queen". En $160,000 verðlaunin lagði hún í sjóð "Friðarfélags Kvenna". Alls hafði hún hlotið 14 heiðursviðurkenningar frá ýmsum stofnunum.

Einu sinni var sagt um hana, að Jane Addams gerði lífið að æfintýri, og með því að lifa því í þeim anda og á þann hátt, sem hún gerði, breytti hún að nokkru leyti venjum í hugsunarhætti heillar þjóðar. Fyrir þá hjálparlausu, unga og aldna, fyrir fátæklingana þá óupplýstu, þá útlendu þá hötuðu, heimtaði hún skilning og réttlæti. "Það var undirstaða allrar hennar trúar að réttlæti hlyti að reisast á skilningi. Það var sagt um hana að hún talaði ekki um kristilegar dygðir, en að hún leiddi þær í ljós með verkum sínum. Eitt sinn gaf hún álit sitt á umsögn um hana sjálfa með svofeldum orðum. "Eg þekki enga persónu líka því sem hér er talað um. Eg held eg hafi aldrei mætt henni. Eg hefi aldrei verið viss um hvort eg var á réttri leið, og hefi oft verið í vafa um mitt næsta fótmál. Við getum einungis þreifað okkur áfram á leiðinni frá degi til dags. Við getum ekki að líkindum breytt eðli mannanna, en samt vonum við að við getum bætt hegðan þeirra. Við förum hægt, en samt er margt, sem kemur á daginn á mörgum árum. Engin framsókn er dauð í heiminum eins lengi og menn hafa hug og djörfung til starfa".

Heilsa hennar hafði verið að smá þverra. Hún hafði gengið með ólæknandi sjúkdóm, og 21st maí, 1935, á meðan hún var enn í svefni, eftir uppskurð skildi hún við þetta líf.

Hún lá á líkbörum í Hull House í tvo daga og þúsundir manna kvöddu hana þar í hinzta sinn. Einn gamall Grikki horfir lengi á hið fagra andlit og spyr "Var hún katholsk?" "Var hún Protestanti?" "Var hún Gyðingur?" Svarið var "Nei". Segir hann þá brosandi "Ó, eg veit, Hún var þetta alt!"

Þessi orð, sem hér fylgja, eru höfð eftir henni. "Framsókn er ekki sjálfvirk, heimurinn fer batnandi vegna þess að fólkið óskar þess og vinnur að því að sú ósk rætist." "Það líf, sem við syrgjum í dag, hefir aukið gildi lífsins í heild sinni. Í því var engin efasemd né ótrú. Trú okkar á annað líf er staðfest þessa stund, af því ein persóna er svo sönn að hún hefir orðið sjálf trú og virkileiki."

Hún var jarðsett í Cedarville, þar sem hún fæddist, og í marga daga á eftir fóru minningarathafnir fram í mörgum borgum Bandaríkjanna, Canada og Englands. Fæðingardagur hennar var einnig haldinn hátíðlegur með því að gróðursetja trjáplöntur víðsvegar, og með útvarpi.

Jane Addams sagði ávalt að hún hefði meira að læra en að kenna. Hún var meiri en þau verk, sem hún vann. Vitsmunir hennar, hreinlyndi, þolinmæði og andans atgervi, setja hana ofar tíma og rúmi. Hún hafði fegurð, skarpar gáfur, umburðarlyndi, örlæti, vitsmuni, gjafmildi, fyndni og glaðlyndi; var hrein og bein í allri framkomu og án nokkurs tildurs: og vildi á engan hátt sýnast fyrir mönnunum. Í einu orði hún var ímynd þeirrar hugsjónar, sem orðið "Democracy" þýðir.

Þýtt af *S. E. Björnsson*

---

# Tvær konur

### *NJÁLSBRENNA — 1011*

Flosi mælti: "Út vil eg bjóða þér Njáll bóndi, því að þú brennur ómaklegur inni". Njáll mælti: "Eigi vil eg út ganga, því að eg er maður gamall, og er eg lítt búinn til að hefna sona minna; en eg vil eigi lifa við skömm". Flosi mælti þá til Bergþóru: "Gakk þú út húsfreyja, því að eg vil þig fyrir engan mun inni brenna". Bergþóra mælti: "Eg var ung gefin Njáli, og hefi eg því heitið honum, að eitt skyldi ganga yfir okkur bæði". Síðan gengu þau bæði inn.

### *SKIPTAPI — 1911*

Þegar hið mikla farþegaskip "Titanic" rakst á hafísjaka í Atlantshafi fyrir 35 árum, var öllu kvenfólki, sem við varð komist, fyrst komið í björgunarbátana. Meðal farþeganna voru Isadore Strauss og kona hans, frá New York. Hann hjálpaði konu sinni upp í síðasta bátinn. En þegar hún sá, að hann varð eftir á þilfarinu, sneri hún við, áður en hann varði, greip utan um hann dauðahaldi og hrópaði: "Við erum bæði orðin gömul og búin að lifa saman í langa tíð. Hvert sem þú ferð, þangað fer eg."

# EFNISYFIRLIT



## DEILD KVENNASAMBANDSINS

